# Almanak

fyrir árið

# 1912

sem er hlaupár og fyrsta ár eftir sumarauka.
Reiknað eftir afstöðu Winnipeg-bæjar í Manitoba.

---

**Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi og fleira.**

---

ÁTJÁNDA ÁR.

WINNIPEG
Útgefandi og Prentari ÓLAFUR S. THORGEIRSSON.
1911.

## Á þessu ári teljast liðin vera:

| | |
|---|---|
| frá Krists fæðingu | 1912 ár |
| rá sköpun veraldar | 5879 ár |
| rá upphafi Íslandsbygðar | 1038 ár |
| frá siðabót Lúters | 395 ár |

Árið 1912 sunnudagsbókstafur GF.
Gyllindal: 13.

Milli jóla og langaföstu er 7 vikur og 6 dagar.

## Myrkvar.

Árið 1912 verða tveir myrkvar á sólu og tveir á tungli:
Tunglmyrkvi 1: apríl, að nokkru leyti ósýnilegur hér.

Sólmyrkvi 17. apríl, hér aðeins að nokkru leyti sýnilegur við uppkomu sólar í 32 mínútur.

Tunglmyrkvi 26. september. Sýnilegur hér að litlu leyti um leið og tungl gengur undir.

Sólmyrkvi 10. október. Almyrkvi, ósýnilegur hér.

## Árstíðirnar.

Vestur-Canada er talið að

| | |
|---|---|
| Vorið byrji | 21. marz |
| Sumarið | 21. júní |
| Haustið | 23. september |
| Veturinn | 22. desember |

## Tunglið.

Fylgistjarna jarðarinnar er tunglið. Þvermál þess er 2,163 mílur og fjarlægð þess frá jörð vorri 288,00 enskar mílur. Braut sína umhverfis jörðina gengur það á því tímabili, sem alment er kallað tunglmánuður; er það tímabil alment talið 28 dagar, en er í raun réttri 27 dagar og 8 klukkustunnir, eða rétt um það bil.

## Um tímatalið.

Forn-Egyptar skiftu degi og nóttu í 12 kl.-stundir hvorn, — og hafa Gyðingar og Grikkir ef vill lært þá venju af Babýlóníu-mönnum. Það er sagt, að deginum hafi fyrst verið skift í klukkustundir árið 293 f. Kr., þegar sólskífa fyrst var smíðuð og sett upp í Quirinus-musterinu í Róm. Þangað til vatnsklukkurnar voru uppfundnar (árið 158 f. Kr.), voru kallarar (eða vaktarar) viðhafðir í Róm til að segja borgarbúum hvað tímanum liði. Á Englandi voru vaxkertaljós höfð fyrst frameftir, til að segja mönnum, hvað tímanum liði. Var áætlað, að á hverri klukkustund eyddust 3 þumlungar af kertinu. Hin fyrsta stundaklukka (tímamælir—sigurverk) í líkingu við þær, sem nú tíðkast, var ekki fundin upp fyr en árið 1250. Fornmenn á Norðurlöndum töldu flestir, að dagur byrjaði með upprás sólar. Aþenumenn og Gyðingar töldu hann byrja á sólsetri, og Rómverjar, eins og vér, á miðnætti.

## Páskatímabilið.

Kirkjuþingið í Nicæa, er haldið var árið 325 eftir Krists fæðing, ákvað og leiddi í lög kirkjunnar, að páskahátíðin skyldi ætíð haldin vera hinn **fyrsta** sunnudag eftir **fyrsta** tungl, er springi út næst eftir 20. marzmán. Samkvæmt ákvæði þess getur páskahátíðin átt sér stað á 35 daga tímabili, nefnilega á tímabilinu frá 22. marz til 25. apríl, að þeim dögum báðum meðtöldum. Þetta tímabil er nefnt páskatímabilið. Af þessu leiðir, að ef tungl væri fult 21. marz og 22. marz bæri upp á sunnudag, þá yrði sá dagur (22.) páskadagur. Fyr á ári geta páskar aldrei orðið. Þetta átti sér stað árið 1818. En sé tungl fult 18. apríl, og 18. apríl bæri upp á sunnudag, yrði næsti sunnudagur, páskadagur, nefnilega 25. apríl. Það kom fyrir árið 1886.

---

## Páskadagur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 912 | 7. Apríl | 1917 | 8. Apríl |
| 1913 | 23. Marz | 1918 | 31. Marz |
| 1914 | 12. Apríl | 1919 | 20. Apríl |
| 1915 | 4. Apríl | 1920 | 4. Apríl |
| 1916 | 23. Apríl | | |

---

## Sóltími.

Sólarhringur er sú tímalengd, er líður á milli þess, er sólin gengur yfir ákveðna hádegislínu, og er það hin eðlilegasta skifting tímans. En sökum einnar mismunandi hreifingar jarðarinnar umhverfis sólina og sökum bugsins á sólargangslínunni (Ecliptic), er aldrei nákvæmlega jafn-langur tími milli þess, er sól gengur yfir ákveðna línu. Af því leiðir, að það er lítt mögulegt að setja stundaklukku eftir sól. Til að ráða bót á þessum mismun, setja menn svo að önnur sól sé til, og að hún gangi með jöfnum hraða þvert yfir miðjarðarlínuna. Er sú ímyndaða sól þá stundum á undan og stundum á eftir hinni einu virkilegu sól. Er sá mismunur mestur 16 mínutur. Réttur sóltími er miðaður við hina virkilegu sól, en hinn svo kallað „meðal sóltími“ aftur á móti, er miðaður við hina ímynduðu sól. Til skýringar má geta þess að það er að eins á tveimur dögum á árinu—á jafndægrum haust og vor—að „meðal sóltíma“ og réttum sóltíma ber saman. því á þeim tveim dögum að eins er bug ínan eða sólargangslínan yfir miðjarðarlínunni.

---

TÍMINN er í þessu almanaki miðaður við 90. hádegisbaug. Til þess að finna meðaltíma annara staða, skal draga 4 mínútur frá fyrir hvert mælistig fyrir vestan þennan baug, en bæta 4 mínútum við fyrir hvert mælistig austan hans.

# VEÐURFRÆÐI HERSCHEL'S

**er segir fyrir um veðrabreytingar, er verða á öllum tunglkomum, og meðan hvert tungl er uppi árið um kring.**

Tafla þessi er bygð á athugunum, er starfað hefir verið grandgæfilega að um langt tímabil, og er hún samin samkvæmt nákvæmum athugunum á aðdráttarafli sólarinnar og tunglsins, með tilliti til hinnar breytilegu afstöðu þeirra við jörðina.

Það er auðvelt að sjá af töflu þessari, hvers konar veðurátta eða veðurbreyting muni verða með hverjum tunglfjórðungi, og hún fer svo nálægt því, sem fram kemur, að sjaldan eða aldrei skeikar.

| Ef nýtt tungl, fyrsta kvartil, fullt tungl eða síðasta kvartil kemur | Á sumri: | Á vetri: |
|---|---|---|
| milli miðnættss og kl. 2, verður | Fagurt veður................. | Frost, nema sunnanvindur sé. |
| “ kl. 2 og 4 um morguninn | Kalt með skúrum............. | Snjór og stormasamt. |
| “ “ 4 “ 6 “ “ .... | Regn ....................... | Regn. |
| “ “ 6 “ 8 “ “ .... | Vindur og regn .............. | Stormasamt. |
| “ “ 8 “ 10 “ “ .... | Breytilegt veður . ........ .... | Kalt og regn, sé vindur af vestri; snjór sé vindur af austri. |
| “ “ 10 “ 12 “ “ .... | Tíðar skúrir. ................. | Kalt og hvast veður. |
| “ “ 12 “ 2 e. m. ...... | Mjög rigningasamt........... | Snjór og regn. |
| “ “ 2 “ 4 “ ...... | Breytilegt veður .. ... ...... | Fagurt veður og hlýtt. |
| “ “ 4 “ 6 “ ...... | Fagurt veður ................ | Fagurt veður. |
| “ “ 6 “ 8 “ ...... | Fagurt, sé vindur af norðvestri | Fagurt með frosti sé vind. af n. eða n. a. |
| “ “ 8 “ 10 “ ...... | Rigning, sé vindur af s. eða s. v. | Regn eða snjór, sé vindur af s. eða s. v. |
| “ “ 10 “ miðnættis .... | Fagurt.. ..................... | Fagurt veður með frosti. |

## Fundinn Neptúnus.

Árið 1718 fanns Herschell plánetuna Úranus. Braut Úranusar var svo reiknuð út amkvæmt þyngdarlögmálinu; en um fjörutíu árum síðar var farið að taka eftir því að stjarnan fylgdi ekki þessari braut nákvæmlega. Mismunurinn var þó mjög lítill. Bessel lét þá skoðun í ijósi, 1830, að þessi mismunur stafaði af því að jarðstjarna lægi fyrir utan Úranus og togaði hann út af brautinni.

Um tíu árum síðar byrjuðu tveir ungir stærðfræðingar—Adams í Cambridge og Leverrier í París—að reikna út afstöðu hinnar óþektu stjörnu, hö ðu þeir ekkert til að byggja reikning sinn á nema þennan litla mismun á hinni útreiknuðu braut Úranusar og hinnar verulegu brautar hans.

Þeir unnu hver í sínu lagi og var Adams fljótari. Hann bað konunglega stjörnufræðinginn í Lundúnum að leita stjörnunnar á tilteknum stað. En ver og miður var þetta ekki gert. Þegar Leverrier hafði lokið verki sínu sendi hann til Galle, stjörnufræðings í Berlín, og bað hann leita á nákvæmlega sama stað og Adams hafði bent á. Galle fann stjörnuna strax um nóttina (23. sept. 1846), Þessi stjarna er Neptúnus.

Leverrier hlaut því fyrst meira lof fyrir verk sitt heldur en Adams, en síðarmeir var hvorttveggja gert jafnt undir höfði. Þessi útreikningur mun vera einhver sá erfiðasti sem menn hafa gert og er einstakur vottur um nákvæmni stærðfræðinnar.

## Stærst í heimi.

Mesti banki heimsins er Englandsbankinn í Lundúnum; elzti háskóli er University College í Oxford, stofnaður 1050; stærsta bókasafn heimsins er landsbókasafnið í París, er hefir næstum því 3,000,000 binda.

Stærsta leikhús heimsins er sönghöllin í París og er landsspildan er hún stendur á þrjár ekrur að stærð; stærsta bronze-líkneski er standmynd Péturs mikla í St. Pétursborg, er viktar 1100 tonn. Stærsta stein-líkneski er í Japan og er 44 feta hátt; stærsti háskóli er í Cairó, þar eru 10,000 nemendur og 310 kennarar.

Dýpsta kolanáma er skamt frá Lambert í Belgíu og er 3,500 feta djúp, stærsta skipakví er í Cardiff í Wales, rafurmagnslampi sá er mest ljósmagn hefir, er í vitanum við Sidney í Ástralíu, en stæsti vitaturn heimsins stendur á Cape Henry í Virginíu og er hann 165 fet á hæð.

## Fyrstu peningar.

Eins snemma og sögur fara af, var gull og silfur notað sem gangeyrir, en lengi vel þektist málmurinn aðeins, sem smábútar eða duft og fram á þennan dag eru margir Kínar andstæðir því, að nota mynt. A hinum miklu eyðimörkum Afríku er kaupeyrir gullduft í ánsutali

Gríski sagnfræðingurinn Heródót kveður Sydíumenn þá fyrstu, egið hafi gullpeninga og talið er að silfur hafi fyrst verið slegið á eyjunni Egina 860 árum fyrir Krist. Á fornmenjasöfnum finnast peningar slegnir á Persalandi árið 350 f. K. Elsta mynt sem þektist í Gyðingalandi var kölluð darísk eða kóngseyrir, eftir Darius keisara, var hún slegin um 450 árum fyrir Krist.

## Ártöl nokkurra merkisviðburða.

| | |
|---|---|
| Fjall Trjóuborgar | 1182 |
| Stofnun Kartagóborgar | 878 |
| Stofnun Rómaborgar | 753 |
| Jerúsalem hertekin af Nebúkadnesar | 588 |
| Júlíus Cæsar fer til Bretlands | 55 |
| | Eftir Krist. |
| Jerúsalem eyðilögð af Týtusi | 70 |
| Constantinus keisari snýst til kristni | 313 |
| Rómverjar yfirgefa Bretland | 410 |
| Norðmenn vaða inn á Bretland. Bardaginn við Hastings | 1066 |
| Krossferðir byrja | 1096 |
| Tyrkir taka Miklagarð | 1453 |
| Biblían fyrst prentuð í Mentz | 1462 |
| Columbus fann Ameríku | 1492 |
| England og Skotland sameinast | 1602 |
| Þrjátíu ára stríðið byrjar | 1618 |
| Bretar taka Gibraltar | 1704 |
| Friðarsamningarnir gerðir í Utrecht | 1713 |
| Frímerkjalögin gengu í gildi | 1765 |
| Bandaríkin segja sig undan Bretum | 1776 |
| Fyrsta nýlenda sett á stofn í Ástralíu | 1788 |
| Napoleon Bonaparte verður keisari | 1804 |
| Bardaginn við Trafalgar. Fall Nelson's | 1805 |
| Franski leiðangurinn við Moskva | 1915 |
| Bardaginn við Waterloo | 1812 |
| Fyrsta gufuskip fer yfir Atlandshaf | 1815 |
| Gullið fundið í Californíu | 1848 |
| Fyrsta alheimssýning haldin í London | 1851 |
| Dominion of Canada stofnuð | 1867 |

---

## Til minnis um Ísland.

Fyrst fundið Ísland af Írum á 8 öld. Af Norðmönnum 860.
Fyrst varanleg bygð hefst 874.
Fyrsta Kötlugos, er sögur fara af, 894.
Fyrstu lög og alþing sett 930.
Fyrstur trúboði Friðrik biskup, saxneskur, 981.
Fyrsti lögsögumaður, Hrafn Hængsson, kosinn af lögréttu 930.
Fyrsta kirkja er í ritum talin bygð um 984, að Ási í Hjaltadal, en það mun sanni nær, að Örlygur gamli hafi reist kirkju að Esjubergi nélægt 100 árum áður.

Fyrstur íslenzkur biskup, Ísleifur Gissurson, 1054.
Fyrstur fastur skóli á Hólum 1552.
Fyrstur íslenzkur rithöfundur kunnur, og faðir íslenzkrar sagnritunar, Ari Þorgilsson, prestur, f. 1067, d. 1148.
Fyrsta Heklugos er sögur fara af 1104.
Fyrsta klaustur, reist á Þingeyrum, 1133.
Fyrsta nunnuklaustrr í Kirkjubæ í Vestur-Skaftafellssýslu 1186.
Fyrstur konungur yfir Íslandi Hákon Hákonarson (konungur Norðmanna), 1262—63.
Svarti dauði geisaði, 1402.
Seinni plágan 1495.
Fyrsta prentsmiðja á Breiðabólsstað í Vesturhópi um 1530.
Fyrstur prentari, Jón Matthíasson, sænskur prestur.
Fyrstur lúterskur biskup, Gissur Einarsson, 1539.
Fyrst prentað nýja testamentið, þýtt af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, 1540.
Fyrstur fastur latínuskóli í Skálholti 1552.
Fyrsta ísl. sálmabók, sem til er, prentuð 1555.
Fyrst prentuð biblían, þýdd af Guðbrandi bisk. 1584.
Spítali stofnaður fyrir holdsveikt fólk 1652.
Fyrsta galdrabrenna 1625 (hin síðasta 1690).
Prentsmiðjan flutt frá Hólum að Skálholti 1695, og að Hólum aftur 1703.
Stórabóla geysaði 1707.
Fyrsta Jónsbók (Vídalíns) kemur út 1718.
Fyrst drukkið brennivín á Íslandi á 17. öld.
Fyrst fluttur fjárkláði til Íslands 1760.
Fyrst drukkið kaffi 1772.
Fyrsta lyfjabúð á Nesi við Seltjörn 1772.
Fyrstu póstgöngur hefjast 1776.
Hið íslenzka lærdómslistafélag stofnað í Kaupmannahöfn 1779.
Ákveðið að flytja biskupsstólinn og skólann frá Skálholti til Reykavíkur 1785.
Verzlunareinokunin konunglega afnumin 1787.
Seinasta löggjafarþing haldið á Þingvöllum við Öxará 1768.
Prentsmiðjan á Hólum flutt að Leirárgörðum 1799.
Landsyfirréttur settur á laggirnar í Rvík 1800.
Fyrsta organ sett í Leirárkirkju, 1800.
Hólaskóli fluttur til Reykjavíkur 1801.
Landið gjört að biskupsdæmi 1801.
Haldinn fyrsti yfirréttur í Reykjavík 1801.
Latínuskólinn fluttur frá Reykjavík til Bessastaða 1805.
Hið íslenzka biblíufélag stofnað 1816.
Fyrsti vísír til fréttablaða. Klausturpósturinn kemur út 1818. (Minnisverð tíðindi ekki talin; þau koma út 796—1808.
Prentsmiðjan flutt frá Leirárgörðum til Viðeyjar 1819.
Búnaðarfélag Suðuramtsins stofnað 1835.
Fyrsti árgangur Fjölnis birtist 1835.
Fyrst gefin út Ný félagsrit 1841, rit Jóns Sigurðssonar.

Prentsmiðjan flutt frá Viðey til Rvíkur 1844.
Fyrsta alþing í Reykjavík 1845.
Latínuskólinn fluttur til Reykjavíkur frá Bessastöðum 1846.
Prestaskólinn settur í Reykjavík 1847.
Fyrsti stjórnmálafundur haldinn á Þingvöllum við Öxará 1848.
Fyrsta blað Þjóðólfs prentað 1848.
Hrossasala til útlanda byrjar um 1850.
Prentsmiðja sett á stofn á Akureyri 1852.
Fyrsta póstgufuskip kom til Reykjavíkur 1858.
Spítali settur á stofn í Reykjavík 1863.
Forngripasafnið sett á stofn í Reykjavík 1863.
Barnaskóli í Reykjavík stofnaður 1863.
Þjóðvinafélagið stofnað 1870.
Fyrst fluttir inn skozkir ljáir 1871.

---

## Stærð úthafanna.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Norður-Íshafið | er um | 4,781,000 | ferh. míl. | flatarmál. | |
| Suður-Íshafið | ,, ,, | 30,592,000 | ,, | ,, | ,, |
| Indlandshafið | ,, ,, | 17,084,000 | ,, | ,, | ,, |
| Atlandshafið | ,, ,, | 24,536,000 | ,, | ,, | ,, |
| Kyrrahafið | ,, ,, | 50,309,000 | ,, | ,, | ,, |

---

## Lengstur dagur.

| | kl.t. | m. |
|---|---|---|
| Reykjavík | 20 | 56 |
| Pétursborg | 18 | 38 |
| Stokkhólmi | 18 | 35 |
| Edinborg | 17 | 32 |
| Kaupmannahöfn | 17 | 20 |
| Berlín | 16 | 40 |
| London | 16 | 34 |
| Paris | 16 | 05 |
| Victoria B. C. | 16 | 00 |
| Vínarborg | 15 | 56 |
| Boston | 15 | 14 |
| Chicago | 15 | 08 |
| Miklagarði | 15 | 04 |
| Cape Town | 14 | 20 |
| Calcutta | 13 | 24 |

## Þegar klukkan er 12

á hádegi í Washington, höfuðstað Bandaríkjanna, þá er hún í

| | | |
|---|---|---|
| New York | 12.12 | e.h. |
| St. John. Nýfundnal. | 1.37 | ,, |
| Reykjavík | 4.07 | ,, |
| Edinborg | 4.55 | ,, |
| London | 5.07 | ,, |
| París | 5.17 | ,, |
| Róm | 5.53 | ,, |
| Berlín | 6.02 | ,, |
| Vínarborg | 6.14 | ,, |
| Calcutta, Indl. | 11.01 | ,, |
| Pekin, Kína | 12.54 | f.h. |
| Melbourne, Ástralía | 2.48 | ,, |
| San Francisco | 8.54 | ,, |
| Lima, Perú | 12.00 | á hád |

---

JANUAR hefir 31 dag 1912

MÖRSUGUR

**Umskurn Krists,** Lúk. 2.

M 1 | Nýársdagur
Þ 2 | Þrælahald aftekið í Bandaríkjunum 1865
M 3 | su. 7.59, sl, 4.12
F 4 | ☺F. 7.00 f.m. — Konráð Gíslason dáin 1891
F 5 |
L 6 | Þrettándi (jóladagurinn gamli) 11. v. vetrar

**Þegar Jesús var tólf ára,** Lúk 2.

S 7 | 1. s. e. Þettánda — Knútsdagur
M 8 | su. 7.56, sl. 4.21—Ól. Hjaltason, bisk. d. 1569
Þ 9 | Napóleon 3. dáin 1873
M 10 |
F 11 | ☽Síð. kv. 1.14 f. m.
F 12 | Geisladagur — Gissur jarl Þorvaldsson d. 1268
L 13 | 12 v. vetrar

**Brúðkaupið í Kana,** Jóh. 2.

S 14 | 2. s. e. Þrettánda
M 15 | Sandvíkureyjar fundnar 1778
Þ 16 | British Museum opnað 1759
M 17 | su. 7.51, s.l. 4.30 — Benjamín Franklín f. 1706
F 18 | Bulwer Lytton d. 1873
F 19 | ●Nýtt 4.41 f.m.—Gullið fundið í California 1849
L 20 | Bræðramessa 13. v. vetrar

**Jesús gekk ofan af fjallinu,** Matth. 8.

S 21 | 3. s. e. Þrettánda—Agnesarmessa
M 22 | Victoria drotning dáin 1901
Þ 23 | Gustav Doré dáinn 1882
M 24 | su. 7.43, sl. 4.42 — Friðrik mikli f. 1712
F 25 | Pálsmessa — Kirkjufél. Ísl. í V.h. stofnað 1885

ÞORRI

F 26 | Mið vetur
L 27 | ☾F. kv. 2.22 f.m.—Mozart f. 1756—14 v. v.

**Jesús gekk á skip,** Matth 8.

S 28 | 4. s. e. Þrett.—Holberg, danska skáld. d. 1754
M 29 |
Þ 30 |
M 31 | su. 7.35, sl. 4.54—Dr. Guðbr. Vigfússon d. 1889

FEBRÚAR hefir 29 daga 1912

ÞORRI

| | | |
|---|---|---|
| F | 1 | Brigildarmessa |
| F | 2 | ☺F. 5.29. e. m.—Kindilmessa |
| L | 3 | Blasíusmessa—Mendelshon f. 1809—15. v. vetrar |

**Verkamenn í víngarði,** Matt. 20.

| | | |
|---|---|---|
| S | 4 | Nýuviknafasta |
| M | 5 | Oli Bull f. 1810 |
| Þ | 6 | |
| M | 7 | su. 7.24, sl. 5.06—Charles Dickens f. 1812 |
| F | 8 | |
| F | 9 | ☽Síð. kv. 6.22 e.m.—Baldvin Einarsson d. 1833 |
| L | 10 | Canada fengin Englendingum 1763 16. v. vetrar |

**Fernskonar sáðjörð,** Lúk. 8.

| | | |
|---|---|---|
| S | 11 | 2. s. í níuviknaföstu |
| M | 12 | Abraham Lincolu f. 1809 |
| Þ | 13 | |
| M | 14 | su. 7.12, sl. 5.17 — Lúters síðasta préd. 1546 |
| F | 15 | |
| F | 16 | Melankton f. 1497 |
| L | 17 | ●Nýtt 11.15 e.m. Mich. Angeló d. 1563 17. v. v. |

**Skírn Krists,** Matt. 3.

| | | |
|---|---|---|
| S | 18 | Langafasta Lúter dáinn 1546 |
| M | 19 | |
| Þ | 20 | Sprengikvöld |
| M | 21 | Öskudagur su. 7.00, sl. 5.30 |
| F | 22 | Pétursmessa Washington f. 1732 |
| F | 23 | |
| L | 24 | Hlaupársdagur Þorraþræll 18. v. v. |

**Djöfullinn freistar Jesú,** Matt. 4.

GÓA

| | | |
|---|---|---|
| S | 25 | 1. s. í föstu ☾Fyrsta kv. 0.58 e.m |
| M | 26 | |
| Þ | 27 | Longfellow f. 1807 |
| M | 28 | Imbrudagar Sæluvika su. 6.47, sl. 5.41 |
| F | 29 | |

# MARZ hefir 31 dag 1912

| | | |
|---|---|---|
| | | GÓA |
| F | 1 | |
| L | 2 | John Wesley dáinn 1791 19. vika vetrar |
| | | **Kanverska konan,** Matt. 15. |
| S | 3 | 2.s.í föstu—☺Fult 4.13 f.m.—Jónsm.(Hólab.h.f.) |
| M | 4 | |
| Þ | 5 | |
| M | 6 | su. 6.33, sl. 5.52 Svbj. Egilsson d. 1791 |
| F | 7 | |
| F | 8 | Jón Thoroddsen dáinn 1868 |
| L | 9 | Bard. milli Merrimac og Monitor 1862—20. v. v. |
| | | **Jesús rak út djöful,** Lúk. 11. |
| S | 10 | 3. s. í föstu ☽Síð. kv. 1.26 e.m. |
| M | 11 | |
| Þ | 12 | Síra Páll Þorláksson d. 1882 |
| M | 13 | su. 6.18, sl. 6.02.—Dr. Guðbr. Vigfússon f. 1827 |
| F | 14 | |
| F | 15 | Sett fyrsta þing Manitoba 1871 |
| L | 16 | Gvöndardagur (Guðm. hinn góði Hólab.)—21.v.v. |
| | | **Jesús mettar 5000 manna,** Jóh. 6. |
| S | 17 | Miðfasta—Magnús Stephensen (gamli) d. 1833 |
| M | 18 | ●Nýtt 3.40 e. m. (páskatungl)—Ibsen f. 1828 |
| Þ | 19 | Davíð Livingston f. 1813 |
| M | 20 | su. 6.03, sl. 6.14 jafndægur |
| F | 21 | Benediktsmessa |
| F | 22 | Göthe d. 1832 |
| L | 23 | Riel uppreistin í V.-Canada hófst 1885—22. v. v. |
| | | **Gabríel engill sendur,** Lúk. 1. |
| S | 24 | 5. s. í föstu Longfellow d. 1882 |
| M | 25 | Boðunardagur Maríu—☾F. k. 8.33—Góuþræll |
| | | EINMÁNUÐUR |
| Þ | 26 | Bethoven tónfræðingur d. 1827 |
| M | 27 | su. 5.47, sl. 6.25.—John Bright d. 1889 |
| F | 28 | |
| F | 29 | Swedenborg d. 1772---Jón Eiríksson d. 1787 |
| L | 30 | 23. vika vetrar |
| | | **Krists inureið í Jerúsalem,** Matt. 21. |
| S | 31 | Pálmasunnudagur Dymilvika |

# APRÍL hefir 30 daga 1912

EINMÁNUDUR

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | ○Fult 3.36 e.m. Bismark f. 1815 |
| Þ | 2 | Emil Zola f. 1849. Gambetta f. 1838 |
| M | 3 | su. 5.32, sl. 6.36 |
| F | 4 | Skírdagur. Oliver Goldsmith d. 1774 |
| F | 5 | Föstudagurinn langi |
| L | 6 | Canada fundin 1497. 24. vika vetrar |
| | | **Krists upprisa,** Mark. 16. |
| S | 7 | Páskadagur. Páskavika |
| M | 8 | Annar í páskum. Kristján IX. f. 1818 |
| Þ | 9 | ☾Síð. kv. 8.55, f.m. |
| M | 10 | su. 5.17, sl. 6.47 |
| F | 11 | |
| F | 12 | |
| L | 13 | 25. vika vetrar |
| | | **Jesús kom að luktum dyrum,** Jóh. 20. |
| S | 14 | 1. s. e. páska |
| M | 15 | Abraham Lincoln skotinn 1865 |
| Þ | 16 | Magnúsmessa Eyjajarls |
| M | 17 | su. 5.02, sl. 6.58. ●Nýtt 5.11 f.m. |
| F | 18 | |
| F | 19 | Melankton d. 1560 |
| L | 20 | Darvin d. 1882. Sumarmál af 26. viku vetrar |
| | | **Jesú er góði hirðirinn,** Jóh. 10. |
| S | 21 | 2. s. e. páska |
| M | 22 | |
| Þ | 23 | Jónsmessa Hólabiskups (hin síðari) |
| M | 24 | su. 4.48, sl. 7.09. ☽Fyrsta kv. 2.18 f. m. |
| | | HARPA |
| F | 25 | Oliver Cromwell f. 1599.—Sumard. fyrsti 1. v. s. |
| F | 26 | Þrælastríðið hætti 1865 |
| L | 27 | U. S. Grant hershöfðingi f. 1822 |
| | | **Krists burtför til föðursins,** Jóh. 16. |
| S | 28 | 3. s. e. páska |
| M | 29 | Krímstríðið hætti 1856 |
| Þ | 30 | |

## MAÍ hefir 31 dag 1912

| | | |
|---|---|---|
| | | HARPA |
| M | 1 | Tveggja postulamessa—☺Fult 3.50 f. m. |
| F | 2 | su. 4.33, sl. 7.22 — 2. v. sumars. |
| F | 3 | Krossm. á vori (fundinn krossinn) |
| L | 4 | |
| | | **Sending heilags anda,** Jóh. 16. |
| S | 5 | 4. s. e. páska—Napóleon Bonaparte d. 1821 |
| M | 6 | |
| Þ | 7 | |
| M | 8 | su. 4.23, sl. 7.30—John Stuart Mill d. 1873 |
| F | 9 | ☽Síð.kv. 3.27 f. m. — 3. v. sumars |
| F | 10 | Eldaskildagi |
| L | 11 | |
| | | **Biðjið í Jesú nafni,** Jóh. 16. |
| S | 12 | 5. s. e. páska — John Herschell d. 1871 |
| M | 13 | Stofnuð fyrsta ensk nýlenda í Ameríku 1601 |
| Þ | 14 | Vinnuhjúaskildagi |
| M | 15 | su. 4.12 sl. 7.41 — Hallvarðsmessa |
| F | 16 | ●Nýtt 3.45.e.m.—Uppstigningard. 4.v.sumars |
| F | 17 | Tómas Sæmundsson d. 1841 |
| L | 18 | |
| | | **Þegar huggarinn kemur,** Jóh. 15. |
| S | 19 | 6. s. e. páska — Gladstone d. 1898 |
| M | 20 | Christopher Columbus d. 1506 |
| Þ | 21 | |
| M | 22 | su. 4.04, sl. 7.49—Sæmundur fróði d. 1135 |
| F | 23 | ☾Fyrsta kv. 7.45 f. m. — 5. v. sumars |
| F | 24 | Victoria drottning f. 1819 |
| | | SKERPLA |
| L | 25 | Úrbanusmessa |
| | | **Sá, sem elskar mig,** Jóh. 14. |
| S | 26 | Hvítasunnudagur—Jónas Hallgrímsson d. 1845 |
| M | 27 | Annar í hvítasunnu — Calvin d. 1564 |
| Þ | 28 | |
| M | 29 | su. 3.57, sl. 7.58—Imbrud. Sæluvika |
| F | 30 | ☺Fult 5.01.e.m.—Eggert Ólafsson d. 1768—6.v.s. |
| F | 31 | Jón Guðmundsson, ritstjóri d. 1876 |

| | | |
|---|---|---|
| | | SKERPA |
| L | 1 | |
| | | **Kristur og Nikódemus**, Jóh. 3. |
| S | 2 | Trínitatis. Garibaldi d. 1883 |
| M | 3 | |
| Þ | 4 | |
| M | 5 | su. 3.52, sl. 8.02 |
| F | 6 | Dýridagur—Alexander mikli d. 356 f. K. 7. v. s. |
| F | 7 | ☽Síð. kv. 8.07 e. m.—Tómas Sæmundss. f. 1807 |
| L | 8 | Jón Hjaltalín landlæknir d. 1870 |
| | | **Hinn auðugi maður**, Lúk. 16. |
| S | 9 | 1. s. e. trín. Dickens d. 1870 |
| M | 10 | |
| Þ | 11 | |
| M | 12 | su. 3.50, sl. 8.11. Bryant skáld d. 1878 |
| F | 13 | Jón Sveinsson landlæknir d. 1803. 8. v. s. |
| F | 14 | ●Nýtt 11.55 e. m. |
| L | 15 | John Engl. kon. undirskrifar Magna Carta 1275 |
| | | **Hin mikla kvöldmáltíð**, Lúk. 14. |
| S | 16 | 2. s. e. trín. |
| M | 17 | Jón Sigurðsson f. 1811 |
| Þ | 18 | Bardaginn við Waterloo 1815 |
| M | 19 | s. u. 3.49, sl. 8.14 |
| F | 20 | 9. v. s. |
| F | 21 | Sólstöður—lengsur dagur—☾F. kv. 2.10 e. m. |
| L | 22 | |
| | | **Hinn týndi sauður**, Lúk. 15. |
| S | 23 | 3. s. e. trín. |
| | | SÓMÁNUDUR |
| M | 24 | Jónsmessa. Kristni lögtekin á Íslandi 1000 |
| Þ | 25 | Ágsborgarjátningin 1530 |
| M | 26 | su. 3.51, sl. 8.14. |
| F | 27 | 10 v. s. |
| F | 28 | |
| L | 29 | Pétursmessa og Páls. ○Fult 7.05 f. m. |
| | | **Verið miskunsamir**, Lúk. 6. |
| S | 30 | 4. s. e. trín. |

# ÁGÚST hefir 31 dag 1912

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HEYANNIR |
| F | 1 | Bandadagur. Jón Espólín d. 1836. | 15. v. s. |
| F | 2 | Benedikt Sveinsson d. 1899 | |
| L | 3 | Ólafsmessa (h. s.) | |
| | | **Hinn rangláti ráðsmaður,** Lúk. 16. | |
| S | 4 | 9. s. e. trín. H. C. Andersen d. 1875 | |
| M | 5 | ☾Síð. kv. 9.45, e. m.—Brynjólfur bisk. d. 1675 | |
| Þ | 6 | | |
| M | 7 | su. 4.37, sl. 7.33 | |
| F | 8 | Canning d. 1827. | 16. v. s. |
| F | 9 | | |
| L | 10 | Larentíusmessa | |
| | | **Jesús grætur yfir Jerúsalem,** Lúk. 19. | |
| S | 11 | 10. s. e. trín. | |
| M | 12 | ●Nýtt 1.29 e. m. | |
| Þ | 13 | Bólu-Hjálmar d. 1876 | |
| M | 14 | su. 4.47, sl. 7.21. Napóleon 1. d. 1769 | |
| F | 15 | Maríumessa (h. f.) | 17. v. s. |
| F | 16 | | |
| L | 17 | Sveinbj. Egilsson d. 1852 | |
| | | **Faríseinn og tollheimtumaðurin** Lúk . | |
| S | 18 | 11. s. e. trín. | |
| M | 19 | ☽Fyrsta kv. 10.28 f. m.—Gestur Pálson d. 1891 | |
| Þ | 20 | | |
| M | 21 | su. 4.58, sl. 7.70 | |
| F | 22 | | 18 v. s. |
| F | 23 | Hundadagar enda | |
| L | 24 | Barthólómeusmessa.—Bjarni Thórarens. d. 1841 | |
| | | **Daufi og málhalti maðurinn,** Mark. 7. | |
| S | 25 | 12. s. e. trín. | |
| M | 26 | | |
| | | | TVÍMÁNUÐUR |
| Þ | 27 | ○Fult 1.30. e. m. Águstus d. 430 | |
| M | 28 | su. 5.09, 6.53 | |
| F | 29 | Höfuðdagur. Jóhannes skír. hálshöggv. | 19.v |
| F | 30 | | |
| L | 31 | | |

# SEPTEMBER hefir 30 daga 1912

TVÍMÁNUDUR

**Samaríti og Levíti,** Lúk. 10.

| | | |
|---|---|---|
| S | 1 | 13. s. e. trín. |
| M | 2 | Grundtvig d. 1872 |
| Þ | 3 | Cromwell d. 1658 |
| M | 4 | su. 5.29, sl. 6.38. ☽Síð. kv. 6.54 f. m. |
| F | 5 | 20. v. sumars |
| F | 6 | McKinley forseti skotinn 1901 |
| L | 7 | |

**Tíu líkþráir,** Lúk. 17.

| | | |
|---|---|---|
| S | 8 | 14. s. e. trín. — Maríumesse (h. s.) Jerúsalem hertekin 70 |
| M | 9 | |
| Þ | 10 | ●Nýtt 9.19 e. m. |
| M | 11 | su. 5.29, sl. 6.23 |
| F | 12 | Bardaginn við Quebec og fall Wolfe 21. v. s. |
| F | 13 | Bretar taka Quebec 1759 [hershöfðingja |
| L | 14 | Krossmessa. Wellington d. 1852 |

**Enginn kann tveimur herrum að þjóna,** Matt. 6.

| | | |
|---|---|---|
| S | 15 | 15. s. e. trín. |
| M | 16 | Moscow-borg brend 1812 |
| Þ | 17 | |
| M | 18 | ☾Fyrsta kv. 1.26, f. m. Imbrud. Sæluvika |
| F | 19 | su. 5.42, sl. 6.05 22. v. s. |
| F | 20 | Walter Scott. d. 1832 |
| L | 21 | |

**Sonur ekkjunnar af Nain,** Lúk. 7.

| | | |
|---|---|---|
| S | 22 | 16. s. e. trín. |
| M | 23 | Jafndægur. Haust byrjar. Snorri Sturluson |
| Þ | 24 | veginn 1241 |
| M | 25 | su. 5.52, sl. 5.52. Björn Gunnlaugsson f. 1788 |
| | | HAUSTMÁNUDUR |
| F | 26 | ○Fult 5.05 f. m. 23. v. s. |
| F | 27 | |
| L | 28 | L. Pasteur d. 1895 |

**Vatnssjúki maðurinn,** Lúk. 14.

| | | |
|---|---|---|
| S | 29 | 17. s. e. trín. Mikaelsmessa |
| M | 30 | |



# St. John's Condition Powders

Hið áhrifamikla, blóðhreinsandi, taugastyrkjandi og lífgandi meðal. Hleypir kraft og dugnaði í allan kvikfénað.

—

St. John's Condition Powders er ráðlagt við eftirfylgjandi:

HROSS
Ormum
Lystarleysi
Húðsjúkdómum
Uppþembu
Þvagteppu
Hósta og kvefi
Harsperru
Hrossasótt
Húðfestu
Deyfð
Jórturtapi
Njálg og
öllum tegundum
algengra kvilla

NAUT
Lystarleysi
sýktu blóði
skemdu blóði
Harðlífi
Húðfestu
Jórturtapi
Texas hitasótt
o. s. frv.

KINDUR
Lystarleysi
Ullar-töpun
og annan
lasleik.

SVÍN
Kýli
Deyfð
Mjólkur-sótt

FUGLAR
Við öllu sem
að þeim kann
að ganga.

**ST. JOHN'S CONDITION POWDERS**

Allstaðar selt 25c. pakkinn

THE MARTIN, BOLE & WYNNE COMPANY

Einu eigendur. Winnipeg, Canada.

---

# St. John's Horse Worm Powders

Er ágætt til að eyðileggja orma í Hrossum, Nautgripum, Kindum, Svínum, Fuglum.

Verð 25c. pakkinn---sent með pósti.

**The Martih, Bole & Wynne Company**

Einu eigendur. Winnipeg, Canada.

HAUSTMÁNUÐUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| Þ | 1 | | |
| M | 2 | su. 6.02, sl. 5.36 | |
| F | 3 | Síð. kv. 2.19 e. m. | 24. v. sumars |
| F | 4 | | |
| L | 5 | | |

**Hvers son er Kristur?** Matt. 22.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 6 | 18. s. e. trín. Eldadagur. Tennyson d. 1892 | |
| M | 7 | Nýtt 7.12 f. m. Edgar A. Poe d. 1849 | |
| Þ | 8 | | |
| M | 9 | su. 6.13, sl. 5.21. Chicago brann 1871. | |
| F | 10 | | 25 v. s. |
| F | 11 | | |
| L | 12 | Columbus fann Ameríku 1492 | |

**Limafallssjúki maðurinn,** Matt. 9.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 13 | 19. s. e. trín. | |
| M | 14 | Kalixtusmessa | |
| Þ | 15 | Gregoriska tímabilið innleitt 1582 | |
| M | 16 | su. 6.23, sl. 5.07. | |
| F | 17 | Fyrsta kv. 7.36 e. m. | 26 v. sumars |
| F | 18 | | |
| L | 19 | Jónatan Swift d. 1749 | |

**Brúðkaupsk[illegible]n,** Matt. 22.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 20 | 20. s. e. trín. Síra Jón Þorláksson d. 1819 | |
| M | 21 | | |
| Þ | 22 | | |
| M | 23 | William Penn steig á land í Ameríku 1681 | |
| F | 24 | su. 6.37, sl. 4.51. Veturnætur af 27. v. sumars | |
| F | 25 | Fullt 8.01 e. m. | |

GORMÁNUÐUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| L | 26 | | |

**Konungsmaðurinn,** Jóh. 4.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 27 | 21. s. e. trín. Hallgr Pétursson d. 1674 | |
| M | 28 | | |
| Þ | 29 | | |
| M | 30 | su. 6.47 sl. 4.40 | |
| F | 31 | Reformation Lúters 1517 | |

# Nóvember hefir 30 daga 1912

GORMÁNUÐUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| F | 1 | Allra heilagramessa. ☾Síð.kv. 9.09 e. m. | |
| L | 2 | Allra sálnam. Jenny Lind d. 1887. | 2. v. vetrar |

**Jesús prédikar um sælu,** Matt. 5.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 3 | 22. s. e. trín. | |
| M | 4 | | |
| Þ | 5 | | |
| M | 6 | su. 6.59, sl. 4.28 | |
| F | 7 | Jón Arason bisk. og synir hans líflátnir 1550 | |
| F | 8 | ●Nýtt 7.36 e. m. Milton d. 1674 | |
| L | 9 | Skúli landfógeti d. 1794. | 3. v. vetrar |

**Skattsins mynt,** Matt. 22.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 10 | 23. s. e. trín. Lúter f. 1483 | |
| M | 11 | Marteinsmessa. Schiller f. 1750 | |
| Þ | 12 | | |
| M | 13 | su. 7.10, sl. 4.19 | |
| F | 14 | Rasmus Kristján Rask d 1832 | |
| F | 15 | | |
| L | 16 | ☽Fyrsta kv. 4.14 e. m. | 4. v. vetrar |

**Blóðfallssjúka konan,** Matt. 9.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 17 | 24. s. e. trín. Suez-skurðurinn opnaður 1869 | |
| M | 18 | | |
| Þ | 19 | | |
| M | 20 | su. 7.21,sl.4.10. Sir Wilfried Laurier f. 1841 | |
| F | 21 | Maríumessa (Maríuoffurgjörð). | Þríhelgar |
| F | 22 | Ceselíumessa | |
| L | 22 | Klemensmessa | 5. v. vetrar |

**Viðurstygð eyðileggingarinnar,** Matt. 24.

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 24 | 25. e. trín. ○Fult 9.43 e. m. | |
| | | | YLIR |
| M | 25 | Katrínarmessa | |
| Þ | 26 | Konráðsmessa | |
| M | 27 | su. 7.31. sl. 4.04. Grímur Thomsen d. 1898 | |
| F | 28 | Wash. Irving d. 1850 | |
| F | 29 | | |
| L | 30 | Andrésarmessa | 6. v. vetrar |

# DESEMBER hefir 31 dag 1912

YLIR

**Krists innreið í Jerúsalem,** Matt. 21.

S 1 | 1. s. í jólaföstu—Aðventa—☽Síð. kv. 4.36. f. m.
M 2 | Bardaginn við Austerlitz 1865
Þ 3 |
M 4 | su. 7.41,sl. 4.00
F 5 | Mozart d. 1791
F 6 |
L 7 | Jón Sigurðsson d. 1879 — 7. v. v.

**Teikn á sól og tungli,** Lúk. 21.

S 8 | 2. s. í jólaföstu. Maríumessa. ●Nýtt 10.38 f. m.
M 9 |
Þ 10 |
M 11 | su. 7.49, sl. 3.58
F 12 |
F 13 | Lúcíumessa. Magnúsmessa (Eyjajarls h. s.)
L 14 | — 8. v. v.

**Jóhannes í böndum,** Matt. 11.

S 15 | 3. s. í jólaföstu
M 16 | ☾Fyrsta kv. 1.37 e. m.
Þ 17 |
M 18 | su. 7.54, sl. 3.59. Imbrud. Sæluvika
F 19 |
F 20 |
L 21 | Tómasmessa — 9. v. v.

**Vitnisburður Jóhannesar skírara,** Jóh. 1.

S 22 | 4. s. í jólaföstu. Sólhvörf. skemstur dagur
M 23 | Þorláksdagur. ○Fult 10.01 e. m.
Þ 24 | Aðfangad. jóla--nóttin helga

MÖRSUGUR

M 25 | Jóladagur. su. 7.57, sl. 4.04
F 26 | Annar í jólum
F 27 |
L 28 | — 10. v. v.

**Símon og Anna,** Lúk. 2.

S 29 | s. milli jóla og nýárs. Gladstone f. 1809
M 30 | ☽Síð. kv. 1.43 e. m.
Þ 31 | Gamlársdagur

# Almanak.

18 ár. Winnipeg 1912

## SELKIRK JARL.

EFTIR BALDUR JÓNSSON, B. A.

---

RÚM öld er nú liðin síðan fyrstu landnemar létu í haf frá ströndum Skotlands, að leita sér bústaðar á sléttunum miklu, er alment eru kallaðar Vestur-Kanada; tæp öld síðan þeir ferðlúnir eftir þrettán mánaða útivist slógu tjöldum sínum á austurbakka Rauðár, þar sem nú stendur St. Boniface í Manitoba. Rúmum sex tugum ára síðar komu fyrstu íslenzkir landnemar á þessar slóðir. Það er því vel við eigandi, að vér Íslendingar ryfjum upp fyrir oss á þessu ári sögu þess manns, er fyrstur nam land til ábúðar í Rúperts Landi, en það nafn bar mikill hluti Vestur-Kanada á þeim árum, og fram yfir miðja síðustu öld. Dufferin lávarður hefir með réttu verið talinn að eiga góðan þátt í því, að vér fluttum til lands þess, er oss hefir orðið svo gæfudrjúgt, en ætla má að annar brezkur aðalsmaður eigi þar meiri þátt að, því óvíst er hvenær Rúperts Land hefði verið opnað til landnáms, ef Selkirk jarl hefði ekki verið samtíð sinni framsýnni og haft kjark, og

dugnað til að koma áformum sínum í framkvæmd.

---

Á sunnanverðu Skotlandi hafa síðan á miðöldunum búið margir aðalsmenn, er frægir hafa orðið í söng og sögu fyrir frækinleik sinn, herkænsku og hugprýði. Douglas ættin var ein af þeim allra frægustu. Voru þeir frændur jafnan önnur hönd Skotakonungs í stríðum hans gegn ágangi Englendinga. Á miðri seytjándu öld hlaut höfuð ættarinnar jarlstign og tignarnafnið Selkirk. Fimmti jarlinn, er bar það nafn, nam fyrstur manna land í Rúperts Landi og sögu hans skal hér segja í fáum orðum.

Thomas Douglas, jarl af Selkirk og barón af Daer og Shortcleugh, var fæddur 20. júní 1771, að kastala föður síns í St. Marys Isle í Kirkcudbrightshire á Skotlandi. Sex bræður átti Thomas, alla sér eldri, voru því litlar líkur til að hann erfði tign og lendur föður síns. Thomas var settur til menta við Edinborgarháskóla á unga aldri. Varð hann brátt fyrir jafnöldrum sínum um marga hluti. Hann var einn af stofnendum nafnkends klúbbs, og átti að meðstofnendum marga menn, er síðar koma við sögu landsins. Walter Scott, skáldsagnahöfundurinn frægi, var einn af klúbbbræðrunum. Góðar gáfur þótti Thomas hafa, hæfilegleika til ritstarfa, framkvæmdarsemi og dugnað í bezta lagi. Ekki mun laust við að bæri á drotnunarfýsn þeirri og æfintýraþrá, er einkendi ættmenn hans. Nítján ára að aldri hætti hann skólanámi. Ferðaðist hann nú víða um Frakk-

land, en um Hálöndin á sumrum, og kynti sér hag manna. Komst hann mjög við af örbirgð fólks í Hálöndunum og á Írlandi, og vaknaði löngun til að létta kjör þess fólks. Útflutningur virtist bezta ráðið. Lítið varð þó um framkvæmdir að sinni og fram yfir aldamótin.

Árið 1895 mátti Thomas Douglas sjá á bak eina eftirlifandi bróður sínum. Tveim árum síðar lést faðir hans. Tók hann nú við landeignum ættarinnar og tign. Rétt eftir aldamótin kom út á Englandi ferðasaga Alexanders Mackenzies. Lýsti hann þar Rúperts Landi all ítarlega. Vaknaði þegar löngun hjá Selkirk jarli, að flytja snauða samlanda sína á lendur Hudsonsflóafélagsins á meginlandi Norður-Ameríku. Árið 1802 sótti hann til brezku stjórnarinnar um leyfi, að flytja nokkrar fjölskyldur vestur. Ekki var því vel tekið. Fekk jarlinn því lendur miklar í Prince Edward eyjunni; fluttist á þær hópur manna sumarið 1803. Varð nýlenda sú hin blómlegasta, og lifa afkomendur landnema þessara í eyjunni þann dag í dag. Samsumars leitaði Selkirk sjálfur vestur um haf, að kynna sér land og lýð. Dvaldi hann næsta vetur í Montreal. Hér var aðal aðsetursstöð North West félagsins, sem var eini keppinautur Hudsonsflóafél. í vesturlandinu, og rak á þessum árum stórum meiri loðskinna verzlun en eldra félagið. — Selkirk jarl hafði áður kynt sér nokkuð hagi manna og landgæði vestur þar, en nú gafst honum tvöfalt tækifæri. Allir efnuðustu Bretar í Montreal, með mjög fáum undantekningum, voru í North West fél. Tóku

þeir jarlinum tveim höndum, sat hann að sumbli með þeim, og komst eftir mörgu viðvíkjandi verzlun þeirra og högum, sem öðrum var hulið. Virðist hann hafa styrkst í þeirri trú, að búlönd góð væru vestur í landi og sérstaklega í Rauðárdalnum. Ekki varð þó enn af útflutningi þangað. Í stað þess náði jarlinn eignarhaldi á landflákum miklum í Efri-Kanada (nú Ontario). Fluttust þangað nokkrar fjölskyldur árið 1807. Ekki reyndist búland gott um þær slóðir, varð fólkið að flytja burt. Þarf ekki að geta þess landnáms frekar.

Árið 1806 var Selkirk kosinn af stéttarbræðrum sínum á Skotlandi, til að sitja í lávarðastofunni brezku, lét hann þar talsvert að sér kveða næstu ár. Skrifaði hann nú um hagfræðisleg efni. Einnig ræddi hann og ritaði um landvarnir, og hélt með herskyldu. Þó ærið nóg starf væri fyrir hendi heima fyrir, gleymdi hann ekki Rúperts Landi. —

Samkvæmt leyfisbréfi Karls annars, gefnu árið 1670, kvaðst Hudsonsflóafél. eiga land alt kringum flóann og inn í land að upptökum fljóta þeirra, er í hann falla. Ekki var stjórn félagsins um það gefið, að bændur flyttu á lendur þess, voru því góð ráð dýr. Afréð Selkirk, að kaupa hluti í félaginu svo marga, að hann og vinir hans ættu þar öll ráð. Þrítugasta maí 1811 héldu hluthafar félagsins fund í Lundúnum. Hafði Selkirk jarl þar töglin og hagldirnar. Keypti jarlinn að félaginu 114,000 fermílur af landi. Varð hann, félaginu að kostnaðarlausu, að flytja á það landnema, sjá þeim fyrir fæði og

veita þeim aðra nauðsynlega hjálp meðan þeir ekki gætu komist af sjálfir, kaupa eignarrétt af Indíánum, og útvega félaginu vinnumenn árlega.

Nú var áríðandi að safna bændum og búaliði, til að byggja landflæmi þetta, er kallað var Assiniboia, og tók yfir meginhluta Manitoba og stórar spildur af Minnisóta og Norður-Dakóta. Var fyrsti flokkur sendur utan í júlí sama ár, en komst ekki suður í Rauðárdalinn fyr en undir haust næsta sumar. Um nokkur ár sigldu arlega smáhópar. Ekki er rúm til að skýra frá sögu þessara fyrstu landnema. En brátt bar á miklum fjandskap af hálfu North West fél. Æsti það Indíána og kynblendinga móti aðkomumönnum. Kom skæðasta rimman 1816, er Semple landstjóri og um tuttugu manns féllu fyrir flokk kynblendinga við „Eykurnar sjö".

Ekki hafði Selkirk lávarður komið á lendur sínar, en er óeyrðir jukust, afréð hann, að sjá með eigin augum, hvernig ástatt var í nýlendunni, og ef vera mætti, að kippa öllu í lag. Haustið 1815 hélt hann vestur um haf, virðist hann hafa búist við, að dvelja vestra nokkurn tíma, því skyldulið hans fylgdist með honum. Kom hann til Montreal í october, og var þá of áliðið hausts til að halda lengra. Snemma um vorið hóf Selkirk ferð sína vestur í land. Sökum óeirða þeirra, er svo miklar sögur fóru af, og hatri því, er North West félagið hafði sýnt jarlinum og nýlendu hans, sótti hann til landstjóra Kanada um herflokk til verndar sér. Sem von var, var það ekki leyft, þó að jarlinn kvæðist mundi standast allan kostnað, fjóra eða fimm

hermenn sendi þó landstjóri, þótti það nægur lífvörður. Tók Selkirk þá það ráð, að fá flokk hermanna til fylgdar við sig, með því að lofa þeim búlöndum vestur við Rauðá. Nóg var af atvinnulausum hermönnum í Kanada um þessar mundir, því stríðið við Bandaríkin var nýafstaðið. Nálægt hundrað hermenn kváðust fúsir til fararinnar. Voru þeir úr málaliði því, er Bretar höfðu safnað í Sviss, flestir úr herdeild þeirri, er kölluð var de Meurons. Með þennan flokk sigldi nú jarlinn vestur vötn upp til Sault St. Marie. Hafði hann áformað, að halda síðan eftir Superiorvatni, þangað sem Duluth borg nú stendur, ferðast síðan eftir fljótum og landveg að upptökum Rauðár, þaðan niður ána til nýlendunnar.

Ekki alllangt vestan við Sault St. Marie mættu ferðamönnum þau tíðindi, að Semple landstjóri sé myrtur, og að menn North West fél. muni vera í Fort William. Var nú breytt um ferðaáætlun, og stefndi jarlinn til Fort William með flokk sinn. Áður en hann fór frá Kanada, hafði hann verið skipaður lögregludómari. Notaði hann nú vald sitt, tók alla menn North West félagsins fasta í Fort William, og sendi þá til Kanada, en settist sjálfur að í virki þeirra. Ekki virðist þörf að skýra nákvæmlega frá atvikum öllum í Fort William, hefir margt verið sagt á móti framkomu jarlsins þar, en þó munu sannanir fyrir, að ef hann í nokkru fór lögum eða rétti framar, var góð ástæða til.

Um veturinn sat hann um kyrt. Áður snjóa leysti lögðu þó Svissnesku hermennirnir vestur

í land; gengu þeir á snjóþrúgum, og komust til Fort Douglas við Rauðá í apríl. Gerðu þeir þegar áhlaup á virkið, og unnu það af North West félagsmönnum, er þar sátu síðan 20. júní árið áður.

Selkirk lávarður hélt svo sjálfur vestur seinna um vorið, og kom í nýlenduna seinustu viku júnímánaðar. Koma hans þangað, þó dvölin væri ekki löng, hafði góðar afleiðingar. Höfðingleg framkoma hans og tign sneru hugum Indíána til hans, og tóku þeir honum tveim höndum. Nýlendubúar báru til hans traust, er óx við frekari viðkynningu. — Samningar voru nú gerðir við Indíánahöfðingja, létu þeir eftir land á báðum bökkum Rauðár og Assiniboineár, en hlutu að launum árlegar gjafir. Kaupsamning þennan undirskrifuðu fimm Indíána höfðingjar og Selkirk jarl. Þar með var það viðurkent, sem hafði ollað Indíánum og kynblendingum gremju, að ekki var áður tekið til greina, nefnilega eignarréttur þeirra til landsins. Jarlinn stappaði líka stálinu í nýlendumenn, hét þeim styrk og vernd, gaf mörgum jarðir, en öðrum upp gamlar skuldir.

Úr nýlendunni fór Selkirk landveg til Washington, þaðan norður um land til Kanada.

Eins og vonlegt var sá Kanada stjórn sér ekki fært, að láta allar þær rimmur, er fram fóru vestur í óbygðum, órannsakaðar. Sendi hún því Coltman nokkurn vestur sumarið 1817, mann skarpskygnan og óhlutdrægan Eftir miklar vitnaleiðslur hér og þar í landinu kom Coltman til Kanada, um sama leiti og Selkirk að sunnan.

Þrátt fyrir það, að almenningsálitið var alment með North West félaginu, og einkanlega þó stjórn og þjónar hennar, réð Coltman frá öllum málsóknum á hendur Selkirk jarli. Ekki var því vel tekið af fjandmönnum hans, er illa þóttust leiknir hafa verið í Fort Wiliam. Ekki skal nákvæmlega fara út í allar þær lögsóknir og málaferli, er nú hófust í Kanada. North West félagið átti því láni að fagna, að næstum allir dómarar og málafylgjumenn voru því hlyntir. Var rétti mjög hallað. Lauk svo að félagið var sýknað að öllum sökum, en jarlinn dæmdur til hárra fébóta.

Um haustið 1818 fór Selkirk aftur til Englands. Heilsu hans var mjög tekið að hnigna, og efnatap síðustu árin hafði verið tilfinnanlegt. Næsta ár dvaldi hann á Englandi. Þing Breta tók mál hans til rannsóknar. Þótti hann hafa verið illa leikinn. Og þó ekkert væri gert, til að bæta honum eignatap, mun flestum á Bretlandi er kyntu sér málið, hafa fundist æra hans ómeidd.

Heilsuleysi Selkirks jarls ágerðist mjög, er leið á árið 1819. Var afráðið að hann flytti til Suður-Frakklands um haustið. Lafði Selkirk fór með manni sínum. Ekki batnaði heilsa sjúklingsins við loftslagsbreytinguna, og andaðist Selkirk jarl í Pau á Frakklandi 8. apríl 1820.

Aðeins helztu atriði úr æfisögu Selkirks lávarðar hafa verið sögð hér að ofan, og einkum þau, er viðkoma starfi hans í Kanada. Að dæma um þýðingu starfs hans, er örðugt mjög. Jafnvel stefna hans og ástæðurnar fyrir starfi

hans, hafa jafnan verið ágreiningsefni. Hafa sumir talið, að gróðavon ein og frægðar, eða jafnvel einskær sauðþrái og drotnunarfýsn hafi stjórnað gjörðum hans. Aðrir telja hann einn göfugasta og stórhugaðasta mannvin sinnar aldar. Að öllu athuguðu, eru hvorartveggja skoðanirnar ýktar. Einlæg löngun, að hjálpa bágstöddum löndum sínum einkum leiguliðum á smájörðum og þrá, að styrkja og auka veldi brezkrar þjóðar í Norður-Ameríku, er veldi hennar í Evrópu virtist á föllnum fæti, áttu mestan þátt í nýlendustofnun jarlsins. Einnig vonaði hann, að bæta kjör Indíána í Rúperts Landi, og styðja að kristniboði meðal þeirra. Hitt er einnig víst, að mótspyrna sú, er hann mætti, jók ákafa hans, en dró ekki úr honum. Douglas ættin hafði aldrei lært að víkja.

Enginn getur getið til, hvernig saga Vesturlandsins hefði orðið, ef nýlendan við Rauðá ekki hefði risið upp. Fyrstu afleiðingarnar urðu sameining verzlunarfélaganna, árið 1821, og gjörsamleg breyting á viðskiftum þeirra við Indíána, öllum málsaðilum til blessunar. Óvíst er, hvenær Vestur-Kanada hefði bygst nema fyrir nýlendustofn þennan. Þrátt fyrir hann lánaðist Hudsonsflóafélaginu, að leyna landgæðum og varna innflutningi, fram yfir miðja síðustu öld. Lengur hefði það sjálfsagt orðið án nýlendunnar.

Fegurstu draumar Selkirks lávarðar hafa náð fyllingu. Örsnauðir landsetar harðúðgra herra hafa þúsundum saman fundið heimili í landinu þar sem hann fyrstur manna, girnt-

ist að sjá þjóðbræður sína frjálsa, yrkjandi sína eigin akra. Minning hans mun lengi uppi í Kanada. Starf þess sem vel vinnur gleymist ógjarnan.





# SAFN

TIL

# LANDNÁMSSÖGU ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI.

**Nokkrir þættir um Íslendinga austan við Manitobavatn og umhverfis Grunnavatn.**

Eftir JÓN JÓNSSON frá Sleðbrjót.

Ritað að mestu eftir sögnum gamalla landnema.

## II. GRUNNAVATNS-BYGÐ.

Frá því er áður sagt í þætti Álftvetninga, er þeir A. M. Freeman, og Ísleifur Guðjónsson fluttu búferlum í Álftavatnsnýlendu norðaustanverða og námu þar land og reistu sér íbúðarhús. Ýmsir fleiri Íslendingar fluttu þangað þetta sumar og næstu 3 árin. Leist þeim vel á landskosti þar og hugðu hið bezta til framtíðarinnar. Bjuggu þeir um sig eftir föngum og bygðu íveruhús, en sumir voru í kaupavinnu nokkurn hluta ársins, aðrir öfluðu sér heyja og tóku gripi til fóðurs. Þeir stofnuðu lestrarfélag voru byrjaðir á skólahússbyggingu og leit út fyrir þeim mundi farnast vel. En sumarið 1890 var ákaflega mikil rigning ıtíð. Skemdust þá heyföng bænda og alt láglendi varð yfirflotið vatni. Og vorið eftir var svo mikið

vatn þar, að ekkert útlit var til þess að hægt yrði að afla þar heyja. Tóku búendur þá að litast um eftir þurrara landi og kom þeim flestum saman um að álitlegra land væri 8—12 mílum sunnar við vatn það er Grunnavatn nefnist, því þar var þá land miklu þurrara. Höfðu tveir bændur úr hópi þeirra flutt sig þangað árinu áður og létu vel yfir högum sínum. Varð það því að ráði, að allir búendur af þessu fyrnefnda svæði fluttu sig suður að Grunnavatni, nema tveir er voru þar nyrðra eftir einu ári lengur. Bændur þessir urðu því fyrstu landnemar Grunnavatnsbygðar og verða þeir taldir hér á eftir:

**Árni Freeman Magnússun.** Æfiágrip sitt hefir hann ritað mér, sem hér segir: ,,Eg er fæddur á Fótaskinni í Þingeyjarsýslu 27. marz 1854. Skírnarnafn mitt er Árni Frímann, en vegna þess að klaufalegir bókhaldarar í þessu landi, þar sem eg vann fyrstu árin gátu aldrei bókað rétt föðurnafn mitt og nærri lá oft að eg tapaði fyrir það peningum, þá réð eg það af að skrifa mig A. M. Freeman og hef gengið undir því nafni síðan. Foreldrar mínir voru: Magnús Jónsson, Jónssonar er eitt sinn bjó að Garðsá við Eyjafjörð og Guðrún Jónsdóttir, Halldórssonar er síðast bjó í Árbót í Aðal-Reykjadal. Foreldrar mínir bjuggu einnig í Aðal-Reykjadalnum. Þegar eg var 16 ára fór eg frá foreldrum mínum og gjörðist vinnumaður á ýmsum stöðum í sveitinni. Tvö ár var eg lausamaður, gjörði eg það til þess að afla mér lítilsháttar mentunar. Fyrri veturinn naut eg tilsagnar í skrift, reikningi og dönsku hjá þeim síra Benedikt Kristjánssyni á Grenjaðarstað og Jóni Þórarinssyni á Laugavatni, en síðari veturinn nam eg lítið eitt í ensku hjá síra Lárusi Eysteinssyni, er þá var á Helgassöðum því eg var þá þegar alráðinn í að fara til Canada. Árið 1884 flutti eg vestur um haf með föður mínum, sem lifir enn og er til

heimilis hjá mér. Við komum til Winnipeg 10. ágúst. Tæpu ári síðar giftist eg. Kona mín er Jónína Elizabet Björnsdóttir, bónda Jónssonar frá Dálksstöðum við Eyjafjörð. Móðir konu minnar var Soffía Sigurðardóttir, Þorsteinssonar, var Sigurður faðir hennar bróðir þeirra Indriða gullsmiðs á Víðivöllum og síra Hjálmars er síðast var prestur í Kirkjubæ í Hróarstungu. — Eg dvaldi tæp 3 ár í Winnipeg og flutti þaðan hér í bygðina". — Eins og áður er getið varð Árni fyrstur manna til að taka sér bólfestu í bygðum þessum. Hann er nú með efnuðustu bændum þar og hefir verið forgöngumaður ýmsra framfaramála bæði skólamála og trúmála og einnig látið mikið til sín taka í stjórnmálum. Árni er greindur vel og fastlyndur. Heimili hans er eitt hið allra myndarlegasta þar um slóðir.

**Björn S. Líndal** er fæddur á Gautshamri í Strandasýslu árið 1853. Faðir hans Sæmundur Björnsson bóndi á Gautshamri var Björnsson prests, Hjálmarssonar í Tröllatungu í Strandasýslu. Var hann prestur í 59 ár, þar af 53 ár í Tröllatungu. Hjálmar faðir síra Björns var einnig prestur í Tröllatungu. Móðir Björns Líndals var Guðrún Bjarnadóttir, bónda á Þórustöðum í Bitru í Srandasýslu. Um æfiferil Björns Líndals hef eg fengið hjá honum sjálfum upplýsingar þær er hér fara á eftir: ,,Eg ólst upp hjá foreldrum mínum á Gautshamri, þar til faðir minn dó og síðan hjá móður minni, þar til árið 1872 er eg flutttist með henni að Þamárvöllum í Bitru, giftist hún þar aftur Jóni bónda Bjarnasyni, er þar hafði lengi búið. Árið 1874 gerðist eg lausamaður, kostaði það á þeim tíma 6 vættir að vera frjáls maður á Íslandi. Heimili átti eg á Þórustöðum í Bitru, því hver lausamaður varð að eiga heimili. Eg vann að algengum útiverkum á sumrum, en að vefnaði á vetrum. Vorið 1875 fór eg í vinnumensku til Þor-

steins Jónssonar og Guðrúnar Jónsdóttur, er bjuggu í Broddanesi í Strandasýslu og árið eftir flutti eg með þeim að Skriðunessenni í Strandasýslu, hjá þeim var eg vinnumaður þar til haustið 1877, 9. des. Þá varð sá atburður að húsbændur mínir druknuðu. Það skeði á sjóferð, að kvöldlagi, frá Broddanesi að Skiðunessenni. Á skipinu voru húsbændur mínir, Þorsteinn og Guðrún, og Matthías Jónsson, er þá bjó einnig á Enni, Bjarni unglingspiltur og Anna Bjarnadóttir, vinnukona húsbænda minna. Skipið barst upp á sker og hvolfdist. Eg kunni nokkuð til sunds og tókst því að koma þeim hjónum báðum á kjöl skipsins. En þá kom önnur alda en voðalegri og velti um aftur. Eg náði aftur til skipsins. Brimrótið var voðalegt og eg sá þá ekkert af fólkinu, nema stúlkuna. Henni gat eg bjargað til lands, því þetta var örskamt frá landi. Má svo segja, að þessi alda hafi hrundið mér til Vesturheims, því sumarið eftir 1878 flutti eg vestur um haf. Eg dvaldi fyrsta sumarið í Ontario, en um haustið fluttist eg til Minneota í Minnesota. Um veturinn var eg nokkra mánuði í skóla, er Eiríkur Bergmann o. fl. stóðu fyrir. Fór kenslan fram í íbúðarhúsi og var kennarinn Norðmaður. Vorið eftir fór eg í vinnu út á járnbraut, var þá öll mín eign 50 doll. Í Bandaríkjunum dvaldi eg í 4 ár. Fyrst við algenga bændavinnu og síðar við verzlunarstörf. Þar nam eg ýmislegt er mér hefir síðar að gagni komið; þar hefi eg unað bezt æfi minnar og á þar marga góðkunningja er eg þrái að sjá. Til dæmis um hvað Íslendingar nýkomnir máttu þá búa við, get eg þess, að tímann sem eg dvaldi í Ontario, varð eg að vinna fyrir 25 cent á dag. Málleysið og þekkingarleysið hazlaði mér völl. Eg gat ekki leitað eftir betra, þar var ekki til neins að flýja með kvartanir. Eg hlaut að taka hverju því sem að höndum bar. Nú hafa innflytjendur til vel-

megandi vina eða ættingja að flytja all-flestir og geta lifað hjá þeim góðu lífi, þar til eitthvað raknar úr fyrir þeim. — Til Winnipeg flutti eg 1882 um sumarið og vann þar fyrst við verzlun hjá Helga Jónssyni, ritstjóra „Leifs". Síðan hjá enskum verzlunarmanni. Árið 1883 giftist eg Svövu Björnsdóttur, Kristjánssonar (Skagfjörd), var ætt sú úr Skagafirði. Móðir Svövu er Kristrún Sveinungadóttir. (Hennar er getið í þætti Winnipegbæjar). Árið 1883 ferðaðist eg vestur að Kyrrahafi og voru með mér í þeirri för Haraldur Jóhannesson, Ólafssonar af Húsavík með skylduliði sínu, Jón Jónsson bróðir Tómasar lögmanns í Winnipeg og 1 unglingspiltur ættaður úr Hrútafirði. Hugmyndin var að leita eftir nýlendusvæði vestur við hafið. Eg fór 200 mílur norður eftir Vancouver-eyju og um meginlandið þar umhverfis, sem nú nefnist Vancouver. Ekki leist mér að þar gæti orðið íslenzk nýlenda í nokkru samhengi. En hafið fanst mér eg þurfa að sjá. Ekki til að þreyta fangbrögð við það eins og fyrri, heldur til þess að rannsaka hvort ekki væri á ströndinni frjósamur og fagur landblettur, fýsilegur til bústaðar fyrir mig og aðra Íslendinga er þráðu hafið. Eg dvaldi um tíma í Victoríuborg á heimleiðinni, hélt svo þaðan til Washington-héraðsins og Montana, því þá var C. P. R. brautin ekki fullgjör vestur. Eftir það dvaldi eg í Winnipeg þar til eg flutti hingað og er gjör skýrt frá tildrögum þess í þætti Álftavatnsbygðar".

Björn Líndal hefir búið í Grunnavatnsbygð síðan hann flutti þangað og er einn hinn gildasti bóndi þar, hefir hann rausnarbú og verzlun all-stóra. Björn er hár maður vexti og karlmannlegur, höfðinglegur og prúður í framgöngu. Hann er vel greindur og gætinn, fastur í lund og fylginn sér. Hann hefir verið lengi póstafgreiðslumaður, féhirðir skólans á Markland milli 10 og 20 ár og starfað ötullega að öllu því er hann hefir látið sig skifta í félags-

málum. Börn þeirra hjóna eru mörg og efnileg og vel til manns komið.

**Sveinbjörn Sigurðsson** frá Húsavík, Sveinbjörnssonar, Flóventssonar, sem lengi bjó að Landamótsseli í Köldukinn. Móðir Sveinbjarnar, Pálína Pálsdóttir, Pálsson ar gullsmiðs af Reykjahlíðarætt. Kona Sveinbjarnar er Sigríður Eiríksdóttir, Jónssonar, ættuð úr Vallahrepp í Suður-Múlasýslu. Börn þeirra eru: Eiríka Sigurbjörg, gift Sigurbirni Kristjánssyni þar í bygðinni; Sigurður, Guðný Margrét, Emilía Dalborg. Um Sveinbjörn farast merkum manni þar í bygðinni svo orð: „Sveinbjörn er einn af allra ötulustu bændum hér í bygð, kappsamur og áhugasamur í öllum framkvæmdum". Hann er friðdómari þar í bygðinni. Sigurður faðir hans dvelur hjá honum og hefir numið þar land.

**Guðmundur Einarsson,** Guðmundssonar, Sölvasonar, hreppstjóra í Garði í Þistilfirði. Kona hans, en móðir Guðmundar var Guðrún Jónsdóttir, Kristjánssonar og Guðrúnar Kristjánsdóttur, þau hjón fluttu frá Krossi í Fellum í Norður-Múlasýslu, (þau voru þaðan ættuð) að Garði í Þistilfirði. Kona Guðmundar Einarssonar var Kristín Benjamínsdóttir, Kjartanssonar frá Grímsstöðum í Þistilfirði. Guðmundur hefir alt af dvalið í Grunnavatnsbygð. Hann er greindarmaður og fróður um margt. Þegar þetta er ritað er Guðm. ný dáinn.

**Páll Pálsson** sonur Páls bókbindara í Kverkártungu á Langanesströndum. Helga hét móðir Páls. Kona hans er Sigrún Jónsdóttir Einarssonar var hann bróðir Guðmundar Einarsonar er fyr er nefndur. Guðný móðir Sigrúnar var dóttir Benjamíns frá Grímsstöðum er fyrr er nefndur, þau fluttust vestur með Guðmundi Einarssyni, giftust hér vestra og eiga nú lifandi 9 börn.

**Bessi Tómasson,** Jónssonar, Tómassonar frá Her-

mundarfellsseli í Þistilfirði. Helga Bessadóttir hét fyrsta kona Tómasar af þremur og var hún móðir Bessa. Kona Bessa er Járnbrá Benjamínsdóttir, Kjartansonar frá Grímsstöðum í Þistilfirði, er fyrr er nefndur.

**Ísleifur Guðjónsson**, Ísleifssonar. Móðir Ísleifs, Kristín Bjarnadóttir bónda í Selvík á Langanesi. Kona Ísleifser Guðleif Jónsdóttir, Jónatanssonar, Þorkelssonar frá Flautafelli í Þistilfirði. Móðir hennar Guðrún Sveinungadóttir, Jónssonar Halldórssonar, er sú ætt úr Kelduhverfi. Þau Ísleifur og Guðleif fluttu vestur árið 1883 frá Flautafelli í Þistilfirði. Þau eiga 7 börn á lífi.

**Björn Þorsteinsson**, bónda frá Hofstöðum, Árnasonar frá Kalmarstungu, Einarssonar, Þórólfssonar úr Hvítársíðu. Móðir Björns Rannveig Björnsdóttir frá Fitjum í Borgarfjarðarsýslu. Kona Björns er Þorvíður dóttir Hjálms alþingismanns Péturssonar frá Norðtunga í Mýrasýslu. Björn og Þorvíður fluttu vestur um haf 1887 frá Hofstöðum í Hálssveit í Borgarfjarðarsýslu. Dvöldu fyrst í Winnipeg og víðar. Settust að í Grnnnavatnsbygð 1891 og búa þar enn.

**Jakob Jónsson**, sonur Jóns Pálssonar frá Breiðabólstað í Reykholtsdal og Sigríður Þorláksdóttur frá Hurðarbaki í Borgarfjarðarsýslu. Kona Jakobs Ingibjörg dóttir Þorsteins Guðmundssonar frá Sámsstöðum í Hvítársíðu og Ljótunnar systur Hjálms alþm. Péturssonar. Jakob og kona hans fluttu til Ameríku 1887. Dvöldu í Winnipeg 3 ár. Settust að í Grunnavatnsbygð 1891. Jakob dó 24. júní 1900. 45 ára gamall. En síðan hefir Jón Jónsson Þistilfirðingur séð um búið með ekkju hans.

**Nikulás Snædal Þórarinsson**, Jónssonar bónda á Breiðuvíkurstekk í Reiðarfirði. Jón afi Nikúlásar var hálfbróðir Þórarins bónda Jónssonar á Glúmsstöðum í Fljótsdal í Norður-Múlasýslu. Voru þeir bræður komnir af hinni

alkunnu Víkingavatnsætt í Kelduhverfi. Móðir Nikulásar var Jóhanna Nikulásdóttir, Péturssonar bónda í Arnkelsgerði í Vallahrepp í Suður-Múlasýslu, voru þau komin af hinni svonefndu Finnstaðaætt. Kona Nikulásar er Kristín Erlendsdóttir, systir þeirra Ingimundar og Guðjóns Erlendssona er búa á Bluff, vestan við Narrows. Nikulás er tvígiftur, en nafn eða ætt fyrri konu hans veit sá ei er þetta ritar. Nikulás flutti vestur um haf 1883. Settist aðí Breiðuvíkinni í Nýja Íslandi og dvaldi þar þangað til vorið 1887, þá flutti hann sig vestur í Geysisbygðina og var einn af 5 fyrstu búendum þar. Vorið 1889 flutti hann sig til Winnipeg og var þar eitt ár. Flutti síðan í norðaustur hluta Álftavatnsnýlendu, ásamt fleirum og þaðan í Grunnavatnsbygð og nam þar land og bjó þar, þar til árið 1905, þá seldi hann land sitt og fluttist vestur á Bluff, vestan við Narrowe, þar græddist honum vel fé og keypti síðan land vestan við Winnipegvatn sunnarlega og býr nú þar á eignarjörð sinni, Marshland-pósthús. Nikulás er greindur maður, ör í lund og gleðimaður og hefir því jafnan orðið vel til vina.

**Jakob Sigurðsson Crawford,** ættaður úr Breiðafirði. Faðir hans Sigurður Sakaríasson frá Heydalsá. Kona hans heitir Helga. Um ætt hennar veit sá, er þetta ritar, ekki neitt. Jakob kom vestur snemma á landnámsárum Íslendinga, árið sem bóluveikin var í Nýja Íslandi, dvaldi hann fyrsta árið hjá 10 hermönnum er héldu vörð um Nýja Ísland milli þess og Selkirk; nam hann þar enska tungu. Árið 1885 var hann í sjálfboðaliðinu frá Prince Albert, er bæla átti niður Indíánauppreisnina. Var hann í bardaganum við Duck Lake, ásamt fleiri Íslendingum er tóku þátt í stríðinu, hafði hann þá engan Íslending séð í 7 ár og kveðst þá hafa orðið feginn mjög að heyra aftur móðurmál sitt. Hann hafði á sumrin undanfarið verið á gufubátum er

gengu eftir Saskatchewan ánni frá Winnipegvatni vestur til Edmonton. Til Grunnavatnsbygðar flutti hann með fyrstu landnemunum 1887 og var í þeirra tölu er fyrst settust að í Álftavatnsbygð norðaustanvert. En flutti síðan að Grunnavatni, en ekki nam hann þar land og fluttist þaðan burt aftur 1892 og er nú í Westbourne og hefir þar á hendi akstur og fiskisölu. Jakob hefir hvervetna þótt nýtur maður og drengur góður. Þegar þetta er sent til prentunar (1911), er Jakob fluttur til Athabaska Landing í Alberta með fjölskyldu sína.

**Kristján Sigurðsson** er fæddur 1835 á Gautsstöðum í Hörðadal í Dalasýslu. Foreldrar hans voru Sigurður Jónsson, hreppstjóri og Hólmfríður Eiríksdóttir frá Tjaldbrekku í Mýrasýslu. Kristján ólst upp hjá foreldrum sínum, nema 4 ár sem hann var vinnumaður hjá Th. E. Hjálmarssyni, prófasti, er giftur var Margréti systur hans. Árið 1865 giftist Kristján, Margréti dóttur merkishjónanna Sigurðar Björnssonar og Margrétar Magnúsdóttur í Selárdal í Hörðadal. Þar bjuggu þau í 19 ár og eignuðust 12 börn, en mistu 6 af þeim á þrem árum. Þau fluttu að Álfsstöðum í sömu sveit 1884. Vestur um haf fluttu þau 1887 með 6 börn, en mistu 1 á leiðinni. Þau dvöldu í Winnipeg 2 ár en fluttu árið 1889 í þessa umræddu bygð ásamt Daníel Backmann tengdasyni sínum, er flutti þaðan aftur til Álftavatnsnýlendu (sbr. viðauka við þátt Álftvetninga, Alm. 1911). Þar bygði Kristján sér bjálkakofa er hann flutti í vorið 1890, en hafði til þess tíma húsnæði með fjölskyldu sinni hjá Jakob Crawford. — Börn þeirra hjóna er lifa eru 5 og öll gift og búa í Álftavatns og Grunnavatnsbygð, eru þessi: Magnús, bóndi í Grunnavatnsbygð og póstmeistari að Otto-pósthúsi; giftur Margréti Dagbjört, dóttur Daníels föðurbróður síns; Sigurbjörn, býr einn við Grunnavatn, um nafn og ætt konu hans er

sagt hér að framan í þætti Sveinbjörns Sigurðssonar; Margrét, gift Guðmundi Jónassyni, Guðmundssonar frá Bílduhóli á Skógarströnd, námu þau land i Grunnavatnsbygð, en nú nýflutt þaðan; Hólmfríður Salóme, gift Daníel Backmann er áður er nefndur; Kristjana Margrét, gift, Jörundi Hergeir Daníelssyni, bónda í Grunuavatnsbygð.

**Þorsteinn Jónsson Hörðdal**, sonur Jóns hreppstjóra í Hlíð í Hörðadal. Flutti í bygðina frá Dakota í Bandaríkjunum. Kona hans heitir Ragnhildur Jónsdóttir, smiðs frá Öxl í Snæfellsnessýslu. Er hann nú hættur búskap og dvelur hjá Birni syni sínum, er býr í Grunnavatnsbygð og er giftur Sigríði dóttur Jónasar bónda Halldórssonar.

**Daníel Sigurðsson**, Jónssonar bónda á Tjaldbrekku í Mýrasýslu, fæddur árið 1845. Giftist árið 1869 Kristjönu Jörundsdóttir, Guðbrandssonar á Hólmlátrum á Skógarströnd. Daníel bjó að Hólmlátrum í 20 ár og 5 ár í Kolviðarnesi, flutti þaðan til Ameríku 1894. Nam land í Grunnavatnsbygð þegar er hann kom vestur og flutti þangað vorið eftir og hefir búið þar síðan sæmdarbúi. Börn þeirra hjóna eru 9 lifandi og búa öll í Grunnavatnsbygð, nema ein dóttir er nýflutt er þaðan og eru: Danelía Kristjana, gift Stefáni Daníelssyni, frá Rauðamel, er numið hefir land og býr í bygðinni; Margrét Dagbjört, gift Magnúsi Kristjánssyni, bróðursyni Daníels; Kristín Anna, gift Sigurði Eyjólfssyni; Jensína Júlía, gift Guttormi Jónssyni, Guttormssonar stúdents og alþm. frá Arnheiðarstöðum í Fljótsdal. Móðir Guttorms var Pálína Kortsdóttir. Guttormur nam land í Grunnavatnsbygð, en brá aftur búi og flutti í Víðir-bygð í Nýja Íslandi. Hann er eitt bezta skáld Vestur-Íslendinga; Salóme gift Jóni Þorsteinssyni bónda í Argyle; Jörundur Hergeir, giftur Kristjönu Margréti Kristjánsdóttur, bróðurdóttur Daníels; Þórður Kristján, giftur, Kristjönu Sigríði Kristjánsdóttur, bróður-

dóttur konu Daníels; Sigurður Hólm, giftur Sigríði Jóhannesdóttur; Hjálmar Freeman, ógiftur, stundar búnaðarnám við búnaðarskóla Manitobafylkis. Um Daníel Sigurðsson sagði síra Jóhann Sólmundarson svo í ferðasögu úr Grunnavatnsbygð; ,,Í fornöld heðfi Daníel verið talinn sjálfsagður goðorðsmaður vegna frænd afla og vinsældar" og munu margir er manninn þekkja telja það sannmæli.

**Jónas Halldórsson,** fæddur 14. febr. 1845 að Björk á Staðarbygð í Öngulstaðahreppi í Eyjafjarðarsýslu. Foreldrar hans voru: Halldór Þorláksson, Halldórssonar frá Jódísarstöðum og Guðrún Rósa Jóhannesdóttir, Gunnarssonar, Jónssonar er bjó á Hólum í Eyjafjarðarsýslu. Jónas kvæntist árið 1870 Jóhönnu Jónsdóttir, Halldórssonar frá Jódísarstöðum. Árið 1878 fluttu þau til Ameríku og settust að í Winnipeg. Í sept. 1879 fluttist Jónas, með suðurfararstraumnum úr Nýja Íslandi og settist að í Dakota, nam hann land í Hallsonbygð og bjó þar til 1895 er þau hjónin fluttu til Grunnavatnsbygðar, nam Jónas þar land og hefir búið þar síðan rausnarbúi. Þau hjónin eiga 7 börn á lífi öll hin mannvænlegustu: Ásgrímur giftur Helgu Árnadóttur, Egilssonar; Sigríður, gift Birni Hördal; Snæbjörn; Kjartan; Rannveig Svannfríður, Þórhallur; Nýbjörg. Jónas er einn af myndarlegustu bændum bygðarinnar.

**Sigurður Eyjólfsson,** tengdasonur Daníels Sigurðssonar er áður er getið. Sigurður er fæddur 25. júlí 1857 í Kverakoti í Grímsnesi í Árnessýslu. Faðir Sigurðar var Eyjólfur Narfason, en móðir Sigurðar hét Álfheiður Sigurðardóttir, Einarssonar frá Gölt í sömu sveit. Sigurður fluttist vestur um haf árið 1887 með móður sinni og tveim bræðrum. Halldóri járnvörusala í Saltcoats, Saskatshewan og Ingvari, er myrtur var fyrir fám árum

í Seattle. Sigurður fluttist fyrst til Þingvallanýlendu og nam þar land og giftist þar Guðrúnu Þórunni Helgadóttur eyfirskri að ætt. 1893 flutti Sigurður úr Þingvallanýlendu og bjó eitt ár skamt fyrir vestan Yorkton. Árið eftir flutti hann til Grunnavatnsbygðar, lagði af stað að vestan 4. mai og kom 4. júní til Grunnavatnsbygðar og ók á hestum alla leið, en notaði ekki járnbrautir. Vorið 1896 dó kona hans. En árið 1898 giftist hann aftur, konu þeirri er áður er nefnd í þætti Daníels Sigurðssonar. Sigurður er myndarbóndi og talinn efnaðasti maður þar í bygð.

**Jón Guðmundsson,** Þormóðssonar í Hjálmholti. (Guðm. var bróðir Ólafs föður Sigurðar sýslumanns í Árnessýslu). Móðir Guðmundar var Margrét Ólafsdóttir frá Langhóli í sömu sýslu. En kona Guðmundar og móðir Jóns var Anna Jónsdóttir prests í Klausturhólum. Foreldrar Jóns Guðmundssonar bjuggu í 30 ár á Ásum í Gnúpverjahrepp. Jón flutti til Vesturheims árið 1899 með konu sinni Sigríði Björnsdóttir, Jónssonar Sveinbjörnssonar í Tungufelli og Katrínar Jónsdóttur Dbr.-manns á Kópavatni í Hrunamannahrepp. Jón fluttist fyrst til Bandaríkjanna og var þar í 2 ár og fluttist síðan í Grunnavatnsbygð og nam þar land og býr þar síðan.

**Vigfús Þórðarson,** bónda frá Leirá í Borgarfirði. Nafn eða ætt konu Vigfúsar veit ei sá er þetta ritar.

**Benedikt Hjálmsson,** alþm. úr Borgarfjarðarsýslu.

**Halldór Jónsson** úr Þistilfirði. Kona hans Guðný (dáin fyrir nokkru) Halldór hefir nú brugðið búi og dvelur hjá dóttur sinni, sem er gift Guðm. Stefánssyni er býr þar í bygðinni.

**Jón Jónsson,** bróðir nýnefnds Halldórs, nam land í bygðinni og bjó í félagi með Halldóri bróðir sínum.

**Guðmundur Sigurðsson,** sonur Sigurðar bónda í Fögruskógum í Snæfellsnessýslu og Þórunnar Einars-

dóttur frá Dunk í Hörðadal. Kona Guðmundar er Ingibjörg Halldóra Jakobsdóttir, Sveinssonar frá Laxárholti í Hraunhrepp í Mýrasýslu. Móðir hennar Rannveig Pétursdóttir frá Hólmakoti í sömu sveit. Guðmundur og kona hans fluttu frá Íslandi 1901.

**Jón Vestdal Einarsson** af Seyðisfirði. Móðir hans Sigurbjörg Þorláksdóttir frá Engilæk, systir Jóh. Þorsteinssonar er býr í Álftavatnsbygð. Kona Jóns er dóttir Sigurðar bónda á Selbergi í Fjallahrepp í Norður-Múlasýslu.

**Valdimar S. Eiríksson**, er sonur Sveins Eiríkssonar og Guðrúnar Halldórsdóttur, er lengi bjuggu á Reykhólum í Reykhólasveit. Móðir Sveins var dóttir síra Friðriks Reykjalíns. (Nafn hennar veit ei sá er þetta ritar). Guðrún móðir Valdimars er náskyld síra Matth. Jochumsyni þjóðskáldi. Valdimar flutti með foreldrum sínum vestur um haf 1884 og fór til Norður Dakota (Pembina). Flutti til Grunnavatnsbygðar 1903.

**Philiphus Johnson**, hann er sonur Jóns Péturssonar og Guðríðar Filipusdóttur frá Véleifsholti í Rangárvallasýslu. Kona hans Þórdís. Foreldrar hennar: Þorsteinn Þorsteinsson og Þóra Oddsdóttir frá Vatnsenda í Borgarfjarðarsýslu.

**Guðbrandur Jörundsson** Guðbrandssonar frá Hólmlátrum á Skógarströnd í Snæfellsnessýslu. Kona Guðbrandar, Jóhanna Ásgeirsdóttir, Jónssonar frá Kýrunnarstöðum í Hvammssveit í Dalasýslu. Sonur þeirra Ásgeir hefir einnig numið land í Grunnavatnsbygð.

**Guðmundur Jónasson**, Guðmundssonar frá Bílduhóli á Skógarströnd. Giftur dóttur Kr. Sigurðssonar, (sbr. þátt um Kr. Sig.). Hann er nú fluttur burt úr bygðinni.

**Daníel Daníelsson**, ættaður úr Reykjadal í Þingeyjarsýslu. Kona hans Guðrún Magnúsdóttir, bónda Sig-

urðssonar er lengi bjó í Vallahreppi í Suður-Múlasýslu, Daníel nam land í Grunnavatnsbygð og bjó þar nokkur ár. Flutti síðan til Oak Point og vann um hríð við verzlun hjá Jóh. kaupmanni Halldórssyni. Flutti síðan aftur á land sitt og byrjaði þar verzlun dálitla. Brá aftur búi og flutti til Winnipeg og starfar þar að sölu á saumavélum.

**Jón Eiríksson**, bróðurson Daníels Sigurðssonar, er áður er frásagt. En móðir Jóns var Guðrún Sigurðardóttir, Þorbjörnssonar frá Tröðum í Hraunhreppi í Mýrasýslu Kona Jóns er Elín Þorsteinsdóttir, Þorsteinssonar frá Austvaðsholti í Landamannahrepp. En móðir hennar var Guðrún Teitsdóttir frá Snjallsteinshöfða í sama hrepp, bjuggu þau allan sinn búskap á Skarði í Landamannahrepp.

**Finnbogi Þorgilsson**, sonur Þorgils Árnasonar, er eitt sinn bjó í Grunnavatnsbygð. Kona Finnboga er Málfríður dóttir Jóns Hannessonar (eftir fyrri konu) er býr í Grunnavatnsbygð.

**Sigurbjörn Guðmundsson**, sonur Guðmundar bónda Tómassonar og Sigríðar Bjarnadóttur er lengi bjuggu á Vígholtsstöðum í Laxárdalshrepp. Fyrri kona Sigurbjörns var Guðrún Jóhannesdóttir, ættuð úr sömu sveit. En seinni kona Sigurbjörns er Gróa Magnúsdóttir, Einarssonar frá Urriðárfossi, en móðir Gróu var Ragnhildur Magnúsdóttir, Símonarsonar frá Laugardælum.

**Guðmundur Torfason** flutti vestur um haf árið 1900. Hann er sonur Torfa bónda Tímóteussonar og konu hans Guðríðar Guttormsdóttur, er bjuggu á Skarðshömrum og síðar á Glitsstöðum í Norðurárdal. Kona Guðmundar er Guðrún Þorsteinsdóttir frá Hæli í Flókadal í Borgarfjarðarsýslu. Þorsteinn faðir hennar var sonur Guðmundar bónda frá Sámsstöðum í Hvítársíðu. Kona Þorsteins var Ljótunn Pétursdóttir systir Hjálms alþm. í Norðtungu.

**Friðrik Ágúst Kristmannsson**, sonur Kristmanns Jónssonar og Jórunnar Jónsdóttur, er bjuggu um 20 ár að Litla-Vatnshorni í Haukadal í Dalasýslu. Kona Friðriks er Elín Guðrún, dóttir Jónasar Jónssonar og Steinunnar Jónsdóttir frá Fremri-Vífilsdal í Hörðadal í Dalasýslu. Þau hjónin fluttu vestur um haf árið 1901, frá Ólafsvík í Snæfellnessýslu.

**Sigfús Árnason** frá Krossavík í Þistilfirði. Kona hans Karólína Kristjánsdóttir frá Bægisstöðum í Þistilfirði.

**Torfi Jónsson** bónda Torfasonar á Ásgrímsstöðum í Hjaltastaðahrepp í Norður-Múlasýslu. Fluttur vestur í Foam Lake bygð.

**Guðjón Rafnkelsson**, Skaftfellingur.

**Björn Jónsson** bónda Þórarinssonar frá Víðustöðum í Hjaltastaðaþinghá í Norður-Múlasýslu. Kona hans Stefanía ættuð úr Borgarfirði í sömu sýslu.

**Stefán Björnsson** frá Svalbarði á Svalbarðsströnd við Eyjafjörð, er hann bróðir konu A. M. Freemans, og er ætt sú áður talin, (sbr. þátt um A. Freeman). Kona Stefáns er Guðbjörg Sigurðardóttir, Sigurðssonar frá Kornhúsum í Hvolhrepp í Rangárvallasýslu. Kona Sigurðar og móðir Guðbjargar hét Katrín Jónsdóttir. Þau Stefán og Guðbjörg komu vestur um haf 1892, þá bláfátæk. Þau eiga 10 börn á lífi, er þau hafa alið upp hjálparlaust og komin í góð efni. Hef eg heyrt ýmsa sveitunga þeirra telja þau fyrirmyndarhjón að dugnaði og ráðdeild.

**Jón Hannesson**, fyrrum aukapóstur á Íslandi, býr vestanvert við Grunnavatn. Einn af myndarbændum bygðarinnar. Er efnaður vel og hefir bygt reisulegt hús. Jón er tvígiftur. Síðari kona hans, mig minnir hún heiti Guðrún, er frá Reykjavík. Fyrir einhver óhöpp, hafa æfi-

atriði Jóns ekki borist mér í hendur og hafði eg þó gjört ráðstöfun til að fá þau.

Vestan við Grunnavatnsbygð en sunnan við bygð Íslendinga í Álftavatnsbygð, býr **Benekdit Rafnkelsson**, Skaftfellingur. Hann er einn af efnuðustu bændum þar um slóðir og á að sögn eitt hið myndarlegasta heimili í bygðinni. Hann er gripakaupmaður og leggur sjálfur all-mikla stund á griparækt og fer það hvorttveggja vel úr hendi.

Hér eru þá taldir all-flestir hinna eldri landnámsmanna Grunnavatnsbygðar, þó ýmsra sé ef til vill ógetið, vegna ókunnugleika þess er þetta ritar.

Árið 1902 byrjaði aftur innflutningur í Grunnavatnsbygð frá Nýja Íslandi. Árin 1900—1902 var flóð svo mikið í Winnipegvatni, að lönd og hús bænda eyðilögðust. Olli flóðið allra mestu skemdum í Mikley og öðrum eyjum þar umhverfis og í svonefndri Ísafoldarbyggð, er liggur á vesturströnd Winnipegvatns fyrir norðan Íslendingafljót. Fengu ýmsir þeirra er löndin eyðulögðust hjá, skifti hjá stjórninni, á hinum yfirflotnu löndum og löndum í Grunnavatnsbygð. En sumir tóku sér heimilisréttarlönd á ný og létu hús og mannvirki er þeir höfðu gjört, fyrir minna en hálfvirði. Merkastir þessara innflytjenda voru þeir læknarnir Jóhann Straumfjörð og Pétur Bjarnason.

**Jóhann Straumfjörd** er fæddur að Ármótum í Snæfellsnessýslu árið 1840. Foreldrar hans voru Elías Sigurðsson og Halldóra Björnsdóttir er lengi bjuggu í Straumfjarðartungu í Miklaholtshrepp. Jóhann dvaldi hjá foreldrum sínum, þar til árið 1868, er hann giftist núlifandi konu sinni Kristbjörgu Jónsdóttur. Reisti hann bú í Hrísdal og bjó þar í 6 ár. Árið 1874 bygði hann jörðina Þórði Þórðarsyni (alþingismanns), með því skilyrði að kona Jó-

hans og börn hefði þar aðsetur og landsnytjar fyrir skepnur þær er þau þyrftu sér til framfærslu. Þá var mikið rætt um Ameríkuferðir, og fýsti Jóhann að freista hamingjunnar í þessu nýja undralandi. En af því fregnir vestan um haf voru mjög sundurleitar, þótti honum vissara að fara fyrst einn síns liðs og kynna sér hvernig högum væri háttað vestur þar. Hann lagði því af stað frá Sauðárkrók 10. sept. 1874, ásamt mörgum öðrum. Að ráði G. Lambertsens útflutnings-erindreka voru farbréf keypt til Ontario í Canada. Kostaði farið 65 ríkisdali, en þar af borgaði stjórnin 9 dali. Hinn 23. sept. kom hópur þessi til Quebeck, þar mætt Sigryggur Jónasson þeim, sem innflutningaumboðsmaður Ontario stjórnar. Að hans ráði var það gjört að allir þeir í hóp þessum er land vildu nema fluttu til Ontario, til smábæjar er Kinmount heitir. En við nánari skoðun virtist þeim land þar ekki æskilegt til frambúðar og er skýrt frá því í áðurrituðum landnámsþáttum, hvernig þeim innflytjandahóp farnaðist í framtíðinni. Jóhann Straumfjörd flutti þaðan eftir 6 vikna dvöl til Halifax í Nova Scotia. Leist honum betur á landkosti þar. Dvaldi hann þar um veturinn. En 4. maí 1875 lagði hann af stað heim til Íslands, til að sækja fjölskyldu sína. Kom hann heim til Íslands 9. júní og dvaldi árlangt heima. 22. júní 1876 lagði hann af stað vestur um haf með konu sína og 3 börn og kom til Quebeck 22. júlí. Ætluðu margir er í þeim hóp voru að leita til Nova Scotia. En þá kom vísbending frá stjórninni um að breyting væri á orðin um styrk þann er stjórnin hefði veitt innflytjundum. Varð það því að ráði hinna beztu manna er í hópnum voru, að haldið skyldi vestur til Manitoba, því um þær mundir voru skoðanir manna í Canada óðum að skýrast um það hver ógna auður væri falinn í Norðvestur hluta Canada, ef mannafli

væri nógur til að framleiða hann. Þessi umræddi Íslendinga hópur kom til Winnipeg 8. ágúst 1876. Og flutti allur fjöldi þeirra er í hópnum voru á flatbotnuðum bátum þegar í stað ofan til Nýja Íslands og lentu þar er nú er Gimlibær, er frá því ferðalagi skýrt í landnámssögu Nýja Íslands. Ýmsir úr hópnum fóru norður í Mikley þar á meðal var Jóh. Straumfjörd. Settist hann að með fjölskyldu sína á suðaustur hluta eyjarinnar og 3 fjölskyldur aðrar. Byggðu þeir sér hús úr,,loggum" og þöktu þau með barkarþaki og nefndu bústað sinn Barkarstaði. Maran erfiðleika áttu þeir við að stríða og flest þægindi skorti þá, því þennan vetur var bóluveikin í Nýja Íslandi og héraðið því sóttkvíað, eins og skýrt er frá í Nýja Íslands þætti. Næsta vor fluttist Jóhann norður á eyjuna og reisti vandað hús við höfnina (Gold Harbour) við víkurbotninn. Sögunarmylna var á eyjunni svo fá mátti keyptan borðvið til húsagerðar. Á þriðja vetri þar frá brann hús Jóhanns í ofsaveðri og grimdarhörku að nætur lagi. Bjargað gat hann fjölskyldu sinni og mestu af innanhúsmunum. En samt var þetta mjög tilfinnanlegur skaði fyrir hann, í viðbót við aðra frumbyggja örðugleika er við var að stríða. Heyja hafði Jóh. aflað sér vestur í Goose Island, því heyland var af skornum skamti í Mikley og erfittt að ryðja skóginn, þótti Jóh. því ráð að færa bygð sína þangað er heyjanna var aflað. Keypti hann því húsavið og bygði sér fleka til flutnings milli eyjanna. Hafði fjögur stórtré undir og tvöfaldan borðvið ofan á. Var flekinn 3 feta hár og þiljað í kring með borðum. Á þenna fleka bar hann alla búslóð sína og auk þess hafði hann á flekanum 6 nautgripi og lagði síðan á flekanum af stað með konu og börn, róandi og stjakandi umhverfis eyjuna og alla leið að Fagratúni, sem kallað er á vestan verðri eyjunni. Var það nálægt því 4 mílnaferð og gekk

ferðin all-vel. Næsta dag lagði hann af stað á flekanum frá Fagratúni. Skildi hann þar eftir fjölskyldu sína, en fékk í för með sér Einar Guðmundsson er þar bjó. Stefndu þeir til eyjarinnar, er Jóhann nefndi þá Engey. Þeir höfðu kjölbyttu og flatbotnaðan bát með sér. Ferðin gekk all-vel fram á mitt sundið, en þá tók að hvessa og öldugangur varð mikill. Öldurnar skullu á flekann all-hart og liðuðu frá borðin með útsoginu á veðurborða. Þótti þá Einari útlitið ærið ískyggilegt og vildi leita að landi. En Jóhann lét sér hvergi bregða og sagði þeir skyldu hafa endaskifti á flekanum og beita heilu hliðinni íveðrið. Þetta ráð dugði og náðu þeir slysalaust til eyjarinnar. Eyja þessi var aðeins 106 ekrur að stærð, mestmegnis skógi vaxin, aðeins smá grasblettir á milli, þar sem fékst tveggja eða þriggja gripa fóður, þegar vatnið stóð lægst. Hér byrjaði Jóhann fyrst búskap og með góðum árangri. Var það vorið 1880, að hann flutti þangað með konu og 5 börn hið elsta á 12 ári og efnin fremur lítil. Hann bygði þar reisulegt hús. Vann með stakri elju og dugnaði, að því að ryðja skóginn og rækta landið, bæði til heyskapar og kornyrkju. Jafnframt stundaði hann fiskiveiðar til heimilisþarfa og síðar einnig til verzlunar. Hann aflaði sér allra nauðsynlegra áhalda til akuryrkju og kom honum það oft í góðar þarfir að hann var smiður góður bæði á tré og járn og gat því margan hlutinn smíðað er aðrir þurftu að kaupa (á gullsmíði hafði hann líka lagt stund). Efni hans og vellíðan fór vaxandi ár frá ári, enda átti hann konu samhenta sér að dugnaði og atorku. Sann-íslenzk gestrisni hafði numið sér þarna land með Jóhanni og munu margir ferðamenn minnast ánægjustundanna á heimili þeirra hjóna. Hann breytti þessum litla skógarhólma í akra og engi. Hann var sveitarnefndarmaður Milkeyinga um allmörg ár og tók mikinn þátt í öllu fé-

lagslífi þeirra og framkvæmdum. Hann þótti atkvæða mikill og fylgdi fast og hlífðarlaust, því er honum þótti rétt vera, við hverja sem var að etja. Oft átti hann við stríða erfiðleika er flóð úr vatninu ollu. Og árin 1900—'02 flæddi að lokum svo yfir eyjuna að sáðlönd öll eyðilögðust. Sá hann þá að þar var ekki lífvænlegt lengur og flutti því með konu sinni og dóttur og fósturdóttur vestur til Grunnavatnsbygðar eftir 22. ára dvöl á eyjunni er hann hafði gjört að svo fögru býli og sem hafði með öllum umbótum verið virt á 4—5000 dollara. Nú tók stjórnin hana „fyrir náð" í skiftum við óyrkt land í Grunnavatnsbygð. Meðan Jóhann var í Engey stundaði hann smáskamtalækningar, með góðum árangri. Las hann alt af lækningarbækur, hvenær sem hann fekk tóm til og oft hepnast mjög vel. Hann hefir enn á ný bygt sér vandað hús og er höfðingi heim að sækja, bæði í sjón og raun. Jóhann er vel greindur maðog fróður um margt. Væri það eflaust hagur fyrir þá er síðar meir semja landnámssögu Vestur-Íslendinga, ef þeir ættu greinilega frásögn frá hans hendi um ýmislegt er á daga Íslendinga dreif hér fyrstu árin, einkum frá Nova Scotia búskapnum. Um það má eflaust segja eins og skáldið kvað: „Margt sem heimurinn hafði gleymt, í hugarborg lá öldungs geymt". En nú er honum farin að förlast sýn, og handastyrkurinn að bila, svo hann mun ei fær til ritstarfa. Börn Jóhanns og Kristbjargar eru þessi: Jón Elías, giftur Ingiríði Jónsdóttur býr á næsta landi við föður sinn; Jóhann, giftur Björgu Kristjánsdóttir, býr vestur við haf í Blaine Wash; Kristján giftur Karítas Björnsdóttur, býr einnig vestur við Kyrrahaf; Ragnheiður, gift Ágúst Magnússyni, þau búa nú heima hjá Jóhanni; Ástríður, ógift er hjá foreldrum sínum.

**Pétur Bjarnason** er fæddur 21. nóv. 1857 á Kolbeins-

stöðum í Miðnesi í Rormshvalsneshrepp í Gullbringusýslu. Faðir hans var Bjarni Bjarnason, Jónssonar óðalsbóndi á Löndum í Miðnesi. Móðir Péturs en seinni kona Bjarna, var Helga Þórðardóttir Þórarinssonar trá Glaumbæ á Miðnesi. Pétur var aðeins 4 ára þegar hann misti föður sinn. Fór hann þá að Gerðum, með föðurarf sinn, er verja skyldi til uppeldis honum. En er hann var 8 ára var arfurinn þrotinn og varð hann þá að sæta þeim kjörum er úr mörgum hafa kjarkinn dregið, að alast upp í ýmsum stöðum á kostnað sveitarinnar, þar til hann var 13 ára. Eftir það vann hann fyrir sér, sem matvinnungur, þar til hann var 16 ára. Þá fluttist hann að Hamri í Þverárdal í Mýrasýslu og varð þar vinnumaður. Ári síðar flutti hann með húsbændum sínum að Harrastöðum í Dalasýslu, þar var hann 2 ár. En árið 1876 flutti hann vestur um haf og settist að í Mikley í Nýja Íslandi. Árið eftir giftist hann Jóhönnu Hafliðadóttur, Sigurðssonar. Móðir hennar var Guðrún Halldórsdóttir, Þorvaldssonar, frá Þverholtum á Mýrum. Árið 1883 misti Pétur konu sína, en giftist aftur 1885 Hólmfríði Jósefsdóttur, Jónssonar, er lengi bjó að Hrísum í Helgafellssveit. Móðir Hólmfríðar var Arndís Guðmundsdóttir, ættuð úr Snæfellsnessýslu. Pétur bjó 15 ár í Mikley, þá flutti hann í Ísatoldar-bygð, þar dvaldi hann í 10 ár, en vegna flóðs úr vatninu flutti hann þaðan til Grunnavatnsbygðar og hefir búið þar síðan. Eftir fyrra hjónabandið á Pétur eina dóttur er Auðbjörg heitir, gift Stefáni Sigurðssyni bónda í Argyle-bygð. Með seinni konu sinni á Pétur 3 börn Kristján Pétur, Bjarna og Jónínu, er öll dvelja hjá foreldrum sínum. Hefir Kristján numið land þar nærri. Pétur Bjarnason er vel greindur maður, framgjarn og fastlyndur og hefir átt mikinn þátt í forstöðu allra framfaramála í bygðum þeim er hann hefir búið í. Sama ár

og hann kom til Mikleyjar var hann kosinn í bygðarnefnd og var skrifari nefndarinnar í 2 ár. Þá var hann kosinn bygðarstjóri. Hann var einn fremsti forgangsmaður þess að myndaðir voru tveir skólar í Mikley, var hann skrifari og féhirðir skólans á vesturhluta eyjunnar og stundum beggja. Þegar hann kom í Ísafoldar-bygð þá gekst hann fyrir því að fá þar pósthús og koma upp skóla og var þar skrifari skólanefndar og póstafgreiðslumaður, meðan hann var þar. Í 6 ár var hann kosinn meðráðandi í sveitarstjórn fyrir Fljótsbygð. Féll að eins einu sinni við kosningu og átti þá að þá að keppa við Gunnstein sál. Eyjólfsson, einn allra mikilhæfasta mann kjördæmisins. En Pétur vann aftur sætið við næstu kosningar. Í Grunnavatnsbygð hefir Pétur verið mikið riðinn við forgöngu ýmsra framfaramála, t. d. stofnun búnaðarfélags — stofnun Únitarasafnaðar o. fl. — Hann hefir lagt stund á smáskammta lækningar og er álitinn mjög góður læknir af þeim er bezt þekkja hann. Pétur er vel máli farinn og fylgir fast málum þeim er hann berst fyrir. Að vera alinn upp á hrakningi heima á Íslandi og brjótast áfram og ná því takmarki að vera talinn einn með mikilhæfustu mönnum hvar í sveit sem er meðal Vestur-Íslendinga, það gjörir enginn nema sá er hefir hlotið meira en meðal skamt af andlegu atgjörvi og þreki. Það hefir Pétur Bjarnason gjört.

**Jón Jónsson** Halldórssonar, Pálssonar (Páll bjó um 60 ár á Ásbjarnarstöðum í Stafholtstungum í Mýrasýslu, Halldór sonur hans var orðlagður fyrir sjálfsmentun og bókaskriftir). Faðir Jóns bjó mest allan búskap sinn að Svarfhóli í Stafholtstungum. Kona hans var Helga Jónsdóttir, Oddssonar af Mýrum í Mýrasýslu, var hún ljósmóðir um fjölda ára. Kona Jóns er Sigríður Jónsdóttir, Jónssonar, Þórðarsonar úr Ólafsvík. En móðir hennar

var Þorbjörg Ólafsdóttir, Ólafssonar úr Snæfellsnessýslu. Þau Jón og Sigríður bjuggu 6 ár á Hofstöðum í Stafholtstungu og eitt ár á Uppsölum í Norðurárdal og fluttu þaðan vestur um haf árið 1878. Nam Jón land við höfnina í Mikley í Winnipegvatni og bjó þar í 24 ár, bygði hann bryggju við höfnina og hélt henni við, þar til stjórnin bygði þar bryggju. Hann hafði þar eldiviðarsölu um mörg ár og stofnaði þar verzlun í félagi við son sinn, Jón H. Johnson. Árið 1905 seldi hann land sitt og flutti til Grunnavatnsbygðar og nam þar land í annað sinn og býr þar enn og er talinn auðugur maður.

**Jón H. Johnson**, sonur Jóns er um er ritað hér næst á undan kom til Ameríku 5 ára gamall, með föður sínum og dvaldi með honum í Mikley. Þar bygði hann íshús í félagi við föður sinn og þá feðgana Stefán Jónsson og Kjartan son hans. Gufubát bygði hann einnig í félagi við áðurnefnda feðga og stofnaði verzlun með föður sínum eins og áður er frásagt. Það var árið 1893 að hann bygði gufubátinn og hafði aðeins einn gufubátur á Winnipegvatni verðið íslenzk eign áður. Hann hélt bátnum út í 3 ár, þá keypti hann matsöluhús í Selkirk og flutti þangað 1895 og var við það í 7 ár. Verzlun hafði hann líka í Selkirk. Hann flutti til Grunnavatnsbygðar árið 1902 og nam þar land og býr þar enn. Fiskiverzlun byrjaði hann í Mikley 1892 og hefir rekið hana altaf síðan með góðum árangri og er nú talinn auðugur maður. Fiskiverzlun sína hefir hann á Oak Point síðan hann flutti vestur. Síðastliðinn vetur 1910—11 keypti hann 40 vagnhlöss (carload) af fiski við Manitobavatn, í samkeppni við marga góða dugandismenn og sýnir það að hann hefir áunnið sér hylli margra viðskiftamanna. Jón er giftur Björgu Jónsdótti- bónda Jónssonar er lengi bjó á Skallhóli í Miðdölum í Dalasýslu. En móðir hennar var Þorbjörg Guðmundsdóttir, frá Rif-

girðingum í Snæfellsnessýslu. Þau fluttu til Ameríku 1885 og bjuggu fyrst í Mikley og síðar í Selkirk. Fluttu til Grunnavatnsbygðar með dóttur sinni og tengdasyni.

**Andrés Skagfeld Jónsson,** Jónssonar, Arasonar, Sigurðssonar, er bjó á Hömrum í Holtum eystra. Faðir Andrésar bjó lengst af á Litla-Vatnsskarði í Laxárdal í Húnavatnssýslu og var kona hans og móðir Andrésar Guðrún Jónsdóttir, Jónssonar hreppstjóra á Bessastöðum í Skagafirði. Andrés giftist árið 1878 Kristínu Ingveldi Jónsdóttur, Kaprasíussonar frá Höfðaströnd í Skagafjarðarsýslu. Andrés bjó 3 ár á Hryggjum í Skagafirði. Fór til Ameríku árið 1883, misti konu sína árið eftir, giftist aftur árið 1887 ekkjunni Steinunni Þórarinsdóttir frá Litla-Breiðavíkurstekk í Reyðarfirði. Móðir Steinunnar var Jóhanna Nikulásdóttir er bjó á Arnkelsgerði í Vallahrepp í Suður-Múlasýslu. En fyrri maður Steinunnar var Sigurbjörn Eyjólfsson, Snjólfssonar líka úr Vallahrepp. Andrés nam land í Geysis-bygð í Nýja Íslandi 1885 og nefndi bæ sinn Sólheima. Flutti þaðan árið 1900 til Selkirk og var þar í félagi eitt ár um verzlun við Jón H. Johnson, sem áður er umgetið. Flutti þaðan til Gimli og var þar formaður við bryggjubygging hjá Jóni J. Vopna. Hafði Jón tekið kontrakt á bryggju byggingunni hjá sambandsstjórninni. Til Grunnavatnsbygðar flutti Andrés 1902 og nam þar land í annað sinn og býr þar enn. Andrés er greindur maður og vel að sér gjör.

**Björn Sigurðsson,** Björnssonar úr Fljótsdalshéraðií Norður-Múlasýslu. Kona Sigurðar, en móðir Björns var Guðfinna Oddsdóttir úr Reyðarfirði. Kona Björns er Jóhanna Antoníusardóttir, Eiríkssonar frá Hærukollsnesi á Berufjarðarströnd í Suður-Múlasýslu. Var hún ekkja er hún giftist Birni og fyrri maður hennar Þorsteinn Eiríksson er bjó á Ásunnarstöðum í Breiðdal í Suður-Múla-

sýslu. Móðir Jóhönnu var Ingveldur Jóhannesdóttur skálds Árnasonar „Eyjafjarðarskálds". Þau Björn og Ingveldur bjuggu í Fljótsbygð í Nýja Íslandi í 11 ár, fluttu síðan til Grunnavatnsbygðar árið 1902 og nam Björn þar land og býr þar enn. Hann hafði verzlun fyrstu 2 árin þar, en hætti við hana.

**Vigfús Jósefsson**, Jónssonar, er bjó að Hrísum í Helgavatnssveit í Snæfellsnessýslu. Móðir Vigfúsar var Arndís Guðmundsdóttir frá Ölkeldu í Staðarsveit í Snæfellsnessýslu. Kona Vigfúsar var Guðrún Jóhannesdóttir frá Sveigsá í Helgafellssveit. Vigfús og Guðrún bjuggu á Bergsstaðakoti í Staðarsveit og fluttu þaðan vestur um haf árið 1887. Vigfús nam land í Mikley en afsalaði sér því aftur vegna vatnsflóðs. Keypti svo land í Ísafoldar-bygð. En flutti þaðan aftur vegna vatnsflóðs 1903 og nam land í Grunnavatnsbygð. Sonur hans Steindór hefir einnig numið þar land og stundar nú búfræðisnám við búnaðarskóla Manitobafylkis.

**Gestur Sigurðsson**, hreppstjóra á Kárastöðum í Borgarhrepp í Mýrasýslu, Sigurðssonar, hreppstjóra, Jónssonar frá Tjaldabrekku í sömu sýslu. Móðir Gests var Signý Bergsdóttir, Teitssonar frá Hamrendum í Miðdölum í Dalasýslu. Kona Gests er Valgerður Jónsdóttir Ögmundssonar. Móðir hennar kona Jóns, var Sigríður Þorbjörnsdóttir, bjuggu þau á Spóamýri í Þverárhlíð. Tveir synir Gests, Gestur Valdimar og Runólfur Lúðvík, hafa einnig numið land í bygðinni, en eru hjá foreldrum sínum.

**Pétur Pétursson** kom til Ameríku vorið 1901 og var eitt ár í Mikley en flutti síðan til Grunnavatnsbygðar. Foreldrar Péturs voru Pétur Þórðarson og Sigríður Jónsdóttir, er lengi bjuggu á Smiðjuhóli í Álptavatnshrepp. Kona Péturs er Jóhanna Ingibjörg Þórðardóttir, en móðir hennar var Bergþóra Bergþórsdóttir. — Þau Pétur og

Jóhanna bjuggu á Langárfossi í Borgarfjarðarsýslu og var Pétur mörg ár hreppsnefndaroddviti í Álftaneshrepp.

**Einar Þorkelsson** (Johnson), Jóhannssonar bónda á Þorsteinsstöðum í Svarfaðardal. Fluttist til Ameríku með fósturforeldrum sínum Stefáni Jónssyni og Ingibjörgu föðursystur sinni. Kona Einars er Oddfríður Þuríður Þórðardóttir, systir Jóhönnu konu Péturs Péturssonar, er um er ritað hér næst á undan.

**Bergþór Þórðarson,** Guðmundssonar, Torfasonar og Bergþóru Bergþórsdóttur er bjuggu á Ánabrekku í Borgarhrepp í Mýrasýslu allan sinn búskap. Er Bergþór bróðir þeirra systranna Oddfríðar og Jóhönnu er um er ritað hér á undan. Eru þau systkin öll vel greind, og félagslynd og vilja styðja menning og framför bygðar sinnar. Bergþór er giftur Kristjönu Sigurðardóttir, systur þeirra Jóhannesar og Stefáns kaupmanna í Nýja Íslandi, var faðir þeirra Sigurður Erlendsson, er síðast bjó að Klömbrum í Þingeyjarsýslu og flutti þaðan vestur um haf og settist að í Mikley. Bergþór nam land í Grunnavatnsbygð, og bjó þar 6 ár, seldi síðan land sitt og flutti til Nýja Íslands aftur og settist að á Gimli og er þar kjötsölumaður.

**Sigurður Sigurðsson,** Hinrikssonar, er síðast bjó að Miðhúsum á Akranesi. Kona Sigurðar var Bergþóra Bergþórsdóttir, sú er áður er nefnd, móðir þeirra Bergþórs og systra hans. Var hún ekkja er hún giftist Sigurði. Þau bjuggu á Ánabrekku í Borgarhrepp og fluttust þaðan vestur um haf árið 1887 og settust að í Mikley. Árið 1903 fluttu þau til Grunnavatnsbygðar og nam hann þar land. Það ár andaðist kona Sigurðar, brá hann þá búi og lét það í hendur barna sinna: Ingimundar, Gróu og Ragnheiðar. Sonur hans Ingimundur hefir einnig numið þar land.

**Þórður Sigurðsson,** sonur nýnefnds Sigurðar, nam

einnig land þar. Kona hans er Sigurbjörg Sigurjónsdóttir ættuð af Vesturlandi.

**Sigfús Sigurðsson** hálfbróðir þeirra Jóhannesar og Stefáns kaupmanna í Nýja-Íslandi (sbr. þátt Bergþórs Þórðarsonar). Kona Sigfúsar er Sigurlaug Jónsdóttir, Kristjánssonar, Freemans. En móðir hennar var Kristín Jónsdóttir, komin af hinni nafnkunnu Laxárdalsætt í Þistilfirði í Norður-Þingeyjarsýslu. Sigfús fluttist frá Mikley til Grunnavatnsbygðar, og nam þar land.

**Jóhann B. Johnson** bróðir konu Jóns H. Johnsons, fluttist frá Nýja Íslandi til Grunnavatnsbygðar og nam þar land. Hann hefir nú brugðið búi og dvelur hjá áðurnefndum mági sínum og hefir oft á hendi umsjón á fiskiveiðum fyrir hann. Húseign sína seldi hann Jóni J. Jónassyni er numið hefir næsta land við hann. Jón Jónasson faðir Jóns var albróðir Gísla föður Þorsteins skálds og ritstjóra í Reykjavík. Kona Jóns heitir Ágústa ættuð úr Eskifirði í Suður-Múlasýslu.

**Eiríkur Rafnkelsson** Skaftfellingur flutti einnig vestur þangað frá Nýja Íslandi. Býr hann á takmörkum Álftavatns- og Grunnavatnsbygða. Synir hans 3, Rafnkell og Jónar tveir, hafa einnig numið þar land.

**Vigfús J. Guttormsson,** bróðir G. J. Guttormssonar skálds, sem áður er nefndur (sbr. þátt Daníels Sigurðssonar). Hefir nú brugðið búi. Stundaði nám á verzlunarskóla einn vetur og er nú póstafgreiðslumaður á Oak Point. Hann er skáld gott, en lætur lítið á því bera. Fer hann í þeim efnum að dæmi margra góðra hagyrðinga heima á Íslandi.

**Ingimundur Guðmundsson** bónda Guðmundssonar frá Tindum á Skarðströnd í Dalasýslu. Móðir Ingimundar, en kona Guðmundar var Karítas Gunnarsdóttir frá Heiðnabergi í sömu sýslu. Kona Ingimundar er Sólborg

Guðmundsdóttir ættuð úr Dalasýslu. Ingimundur var mörg ár í Stykkishólmi og stundaði járnsmíði þar. Flutti vestur um haf árið 1888 og staðnæmdist í Nýja Íslandi, en flutti síðan til Grunnavatnsbygðar á flóðárunum, er áður er umgetið. Nam hann þar land og býr þar enn. Synir hans 3, Guðmundur, Ingimundur og Rafn, hafa einnig numið þar lönd, en dvelja hjá foreldrum sínum.

Ýmsir fleiri eru þeir landnámsmenn í Grunnavatnsbygð er telja ætti, en sem mig skortir upplýsingar um og skulu hér taldir þeir er eg annaðhvort hef þekt eða heyrt getið. — **Helgi Pálsson** Skaftfellingur, fóstursonur Jóns Jónssonar prófasts í Stafafelli. Kona hans er systir Árna Eggertssonar, fasteignasala í Winnipeg. Helgi nam land í Grunnavatnsbygð og bjó þar myndarbúi, því hann er ötull og vel að sér gjör um margt. Hann seldi land sitt og keypti land í Morden og býr þar og stundar akuryrkju.

**Jón Guðmundsson** og sonur hans Guðmundur, sem er póstafgreiðslumaður við Stony Hill pósthús þar í bygðinni.

**Kristján Vigfússon**, er nú dáinn, rotaðist úr vagni af því ökuhestur hans fældist með hann.

**Þorleifur Jónsson**, Hannessonar fyrrum pósts, er áður er um getið.

**Sigfús Magnússon**, bónda Jónssonar frá Geirastöðum í Hróarstungu í Norður-Múlasýslu. Flutti þaðan aftur til Nýja Íslands.

**Árni Egilsson**, Eyfirðingur.

## Frá frumbyggjaárunum.

Þess var áður gerið, að fyrstu landnemar Grunnavatnsbygðar settust fyrst að í norðausturhluta Álftavatnsbygðar. Var þá útlit þar hið vænlegasta. Engjar allar þurrar og grasvöxtur svo mikill að „þaksbrá“ sem kallað

er, var mannhæðar hátt, fullsprottið. Þar voru þá 18 manns frá Winnipeg að afla heyja, því það ár var grasleysi umhverfis Winnipeg. Aðrir 18 menn voru þar að velja járnbrautarstæði fyrir C. P. R. félagið. Átti sú járnbraut að liggja út frá braut áður nefnds félags er liggur norður frá Stonewall til Teulon. Hefði sú braut verið bygð, er þá var verið að velja stað fyrir, mundi hún hafa legið um miðja bygðina vestur. En hún er óbygð enn í dag. — Póstur var sóttur einusinni í viku og skiftust búendur um að sækja hann. Var vegalengd til næsta pósthúss 20 mílur. Vorið eftir var fluttur að viður til að byggja skólahús. En við það var hætt vegna bleytu, því bændur hugðu þá á burtflutning. Lestrarfélag var stofnað, er haldist hefir við til þessa tíma.

Frá flutningi þessara búenda suður að Grunnavatni er áður skýrt. Um atvinnubrögð, háttu bygðarbúa á frumbýlingsárunum get eg verið fáorður og nægir að vísa í því efni til þess er sagt er í þætti Álftvetninga, því mjög líkt hagar til í báðum þessum sveitum.

Grunnavatnsbúar hafa starfað all-mikið að félagsmálum og í mörgu með góðum árangri og talsverðri festu og þrautsegju. Hér á eftir verður nokkuð skýrt frá félagslegu starfi þeirra. Verður þá fyrst talið elsta félagið sem er:

## Lestrarfélagið „Mentahvöt".

Það byrjaði í „Síberíu" svonefndu bygðarmenn í gamni, land það er þeir bygðu fyrst. Og þrátt fyrir alla örðugleika er frumbyggja stríðið og vatnsflóðið hafði í för með sér, var félaginu haldið áfram eftir að bændur færðu bygð sína til Grunnavatns. Aðalhvatamaður þess að félagið var stofnað, var Jón Jónatansson frá Flautafelli í Þistilfirði. Var honum falið á hendur að útvega bókaskrá heiman frá Íslandi og gekk fremur seint að fá

hana. Fyrsti forseti félagsinn var A. M. Freeman og Jón Jónatansson bókavörður. En árið eftir var B. S. Líndal kjörinn féhirðir og bókavörður. Árstillag félagsmanna var lengi frameftir einn doll. En nú síðari árin 75 cents. Fyrstu árin voru félagsmenn aðeins 10, en eru nú 26 og hafa verið það í all-mörg ár. Félagið á nú yfir 300 bækur og hefir stundum haft 4 útlánsdeildir, er settar hafa verið eftir því hvar flestir félagsmenn hafa verið búsettir. Fyrsta samkoma til styrktar félaginu var haldin í febrúarm. árið 1896, var það hlutavelta og varð ágóðinn $17.65, var það hin fyrsta samkoma er goldinn var aðgangseyrir fyrir í bygðinni. Síðan hafa verið haldnar samkomur að kalla má á hverju ári félaginu til eflingar. Árið 1905 sameinaði lestrafélagið sig við félagið „Verðandi" og bygðu þau í félagi samkomuhús, er síðar mun nákvæmar skýrt frá í þætti félagsins „Verðandi". Eiga félögin húsið að sínum helmingi hvort.

## Menningarfélagið „Verðandi"

Hvatamaður þess að félagið „Verðandi" var stofnað var ungur maður Jóhannes Halldórsson að nafni, sonur Halldórs Jónatanssonar frá Flautafelli í Þistilfirði og Kristínar Jónsdóttur, Ágústssonar frá Hafurstöðum. Var Halldór faðir Jóhannesar, bróðir Jóns er myndaði lestrafélagið, sem áður er frásagt. Jóhannes kom til Ameríku frá Kúðá í Þistilfirði árið 1893. Hann var bókhneigður maður og námgjarn og aflaði sér af sjálfsdáðum með lítilli tilsögn talsverðrar mentunar. Var hann ýmist í Grunnavatnsbygð eða Winnipeg. Hann er nú dáinn fyrir nokkrum árum. Um myndun félagsins og starf, hefir merkur maður í Grunnavatnsbygð skýrt þannig frá: „Jóhannes Halldórsson boðaði til fundar í Markland skólahúsi, 9. jan. 1902 og var þá félagið „Verðandi" stofnað. Stofnendur

þess voru um 20 flest alt unglingar. Á fyrsta fundinum var það ákveðið, að æfa félagsmenn í andlegum og líkamlegum íþróttum. Glímum, hnefaleik, knattleik og dansi. En þessar líkamsíþróttir voru ei æfðar nema 1½ ár. Snerist þá félagið að því að reyna að æfa meira andlegt atgjörfi félagsmanna. Voru umræður miklar, helzt kappræður á félagsfundum, upplestur og æfing í að segja greinilegar sögur eða efni úr ritgerðum. Þessum æfingum heldur félagið enn áfram, með töluverðum árangri, þó minna sé en vera ætti, vegna þess að félagið hefir alt af vantað mann er gæti verið andlegur leiðtogi þess. En elft mun félagið að mun hafa hina hollu tilfinning: ,,Sjálfur leið þú þig sjálfan". Lífsmagn félagsins hefir verið öfugt við lífsmagn bjarndýrsins er liggur í dái yfir veturinn. Félagið hefir starfað á vetrum, en legið í dái á sumrum. Veldur því það, að meðlimir félagsins margir eru þá að vinnu fjarri heimilum sínum. Fyrsta stjórn félagsins, voru þessi: Formaður: Jóh. Halldórsson, skrifari: Guðmunda Johnsson, dóttir Halldórs Jónssonar úr Þistilfirði, féhirðir: Hjálmar A. Daníelsson, varaforseti: áðurnefnd Guðmunda, varaskrifari Carl F. Líndal. Formaður líkamsæfinga: B. Th. Hördal, varaform. Björn Magnússon. Árstillag miðlima fél. var 25 cent og er það enn. Fyrsta veturinn hélt félagið 10 fundi. Þegar er félagið var stofnað, fann það mjög til þess að það stóð í vegi fyrir starfsemi þess að ekkert samkomuhús var til. Var félagið á sífeldum hrakningi, til að fá húsnæði ýmist í skólahúsum eða í húsum einstaklinga og allstaðar var ofþröngt um það. Þegar á fyrsta ári tók félagið sér það fyrir hendur að reyna að koma upp samkomuhúsi og byrjaði þegar að halda samkomur, til að safna sjóði er varið skyldi til samkomuhús byggingar. Síðari hluta vetrar 1893 var það samþ. á félagsfundi að byggja samkomuhús. En á

ársfundi félagsins haustið 1904 skrifuðu sig aðeins 8 menn í félagið. En um veturinn bættust nokkrir við, svo félagsmenn voru 18 um vorið. Átti félagið þá aðeins 70 doll. í sjóði. Fanst félaginu sér þá ofurefli að reisa samkomuhús, alveg af sínum eigin kröftum. Varð það því að ráði í félaginu að skrifa lestrarfélaginu Mentahvöt og bændafélagi Grunnavatnsbygðar og óska eftir að þau vildu taka höndum saman við félagið Verðandi og koma upp samkomuhúsi. Bændafél. sinti ekki þessu tilboði. En lestrarfélagið tók því vel. Félagið Verðandi hafði tiltekið svæði er húsið skyldi reist á við austanvert Grunnavatn. Kusu þá bæði félögin 3 menn hvort í nefnd til að ákveða hvar á því svæði húsið skyldi reisa, og var það samþykt, að húsið skyldi reist á landi Björns Þorsteinssonar (S. 14, T. 19, R. 3. W.) og er það að kalla má í miðri bygð. Síðan var byrjað á framkvæmdum. Félögin lögðu til sína 70 doll. hvort. Samskot voru hafin meðal félagsmanna, síðari part vetrar og varð af því góður árangur. Nokkrir utanfélagsmenn gáfu og fé til þess ótilkvaddir. Loforð voru gefin um ókeypis aðdrætti á efni er flytja þurfti bæði frá sögunarmylnu sem er 20 mílur austur frá Grunnavatni og frá Oak Point, sem er 20 mílur í vestur frá samkomuhúsinu. Kusu síðan félögin sína 3 menn hvort í byggingarnefnd. Var svo húsið reist sumarið 1905 og öll vinna við smíðar og aðdrætti gefin. Húsið var nefnt Markland Hall, er það 40 fet á lengd og 26 fet á breidd. Síðar var bygður skúr við hlið hússins 20x14 fet, er hann hafður til að elda í og þar bornar fram veitingar. Félögin kjósa sinn manninn hvort í stjórnarnefnd til að sjá um húsið og þessir 2 menn velja svo 3. manninn. Félögin eiga nú húsið skuldlaust og skýli þar hjá fyrir 20 hesta. Félögin halda ár hvert sameiginlegan fund, til að gjöra reikningsskil og ræða um

notkun á húsinu á komandi ári. Í fyrstu húsnefnd voru kosnir: B. S. Líndal, Carl Líndal og Helgi Pálsson.

Síðan félagið var stofnað og húsið reist, hafa þar verið haldnar margar og oft stórar samkomur. Sjónleikar hafa þar verið haldnir og stundum leikin löng leikrit". Sá er þetta ritar, hefir einu sinni verið viðstaddur á samkomu í Markland Hall og virtist honum myndarbragur hinn mesti, bæði á húsbyggingunni og félagsmálum byggðarbúa.

## Bændafélagið
(Shoal Lake Farmers Institute).

Eins og áður er ritað varð mikill innflutningur í bygðina frá Nýja Íslandi árin 1902—03, það sama ár sendi Akuryrkjudeild Manitobafylkisstjórnar herra B. B. Olson frá Gimli, til Grunnavatnsbygðar, til þess að halda fyrirlestra um búnað. Hafði hún nokkrum sinnum áður sent menn þangað í sömu erindum. B. B. Olson flutti fyrirlestur sinn í húsi Jóns E. Vestdal og að honum loknum hvatti hann bygðarmenn að stofna bændafélag. Var þeirri áskorun vel tekið og mæltu ýmsir vel með félagsstofnuninni, á fundinum skrifuðu nokkrir menn þegar undir beiðni til Akuryrkjudeildar stjórnarinnar um að löggilda bændafélag í Grunnavatnsbyð og borguðu þá þegar árslillag til félagsins (50 cent). Um haustið 26. sept. 1903 kom herra B. B. Olson aftur og var þá fundur haldinn á ný og félagið formlega stofnað. Var þá búið að safna miðlimum í félagið, svo þeir voru orðnir 60 talsins. En ekki mættu þeir allir á fundinum. Að því loknu hélt B. B. Olsen fyrirlestur um tilgang og starfsvið bændafélaga. Um vorið hafði verið kosin bráðabyrgðastjórn; Borgþór Þórðarson, formaður; en skrifari og féhirðir Pétur Bjarnason. Á þessum fundi var ný stjórn kosin: Forseti: Bergþór Þórðar-

arson, varaforseti: Sigurður Eyjólfsson, ritari og féhirðir: Pétur Bjarnason. Meðráðendur: Jóh. B. Johnson, Ingimundur Jónsson, Kristján Vigfússon, Hjálmur Pétursson, Sveinbjörn Sigurðsson og Einar Johnson. En yfirskoðunarmenn voru kosnir Magnús Kristjánsson og Grímur Magnússon.

Eftir lítinn tíma setti félagið á stofn dýralækninga deild í félaginu. Var Nikulás Snædal umsjónarmaður hennar fyrsta árið. En síðan hefir Björn Th. Hördal verið það. Af þessari starfsemi hefir leitt mikið gott, því enginn dýralæknir var í bygðinni. Sérstaklega hefir þessi starfsemi orðið að góðum notum af því að B. Hördal er mjög laginn á gripalækningar. Félagið hefir lagt til þessarar deildar úr sjóði sínum, svo eignir hennar eru nú 80 doll. virði. Félagið hefir unnið að því nokkuð, að gjörð væri gangskör að eyðilegging úlfa, er hindra nær alveg að fjárrækt geti þrifist í bygðinni. Það hefir hal.ið fundi um búnaðarmál og fengið þá til að tala um þau er færastir hafa þótt. Stundum hefir stjórnin sent búfróða menn á fund félagsins, eftir tilmælum þess til að leiðbeina bændum. Stjórnin borgar fél. 50 cent fyrir hvern félagsmann, ef skýrsla er komin til hennar um það fyrir árslok að félagsmenn séu ekki færri en 50. Og það hafa þeir oftast verið.

Svo hefir sagtmerkur maður í Grunnavatnsbygð um stofnun bændafélagsins: ,,Stofnun þess mun mega telja afleiðing af innflutningi Ný-Íslendinga í bygðina. Þeir höfðu verir í samskonar félagi í Nýja Íslandi og voru því áhuga meiri en aðrir um þann félagsskap. Mun mega telja helztu hvatamenn þessarar félagsstofnunar þá Bergþór Þórðarson og Pétur Bjarnason''. — Búnaðarframfarir munu hafa aukist við stofnun félagsins og talsverðar tilraunir gjörðar til kornyrkju víða þar hin síðustu ár. Fé-

lagið hefir keypt um 50 doll. virði af garðyrkjuverkfærum Eign þess árið 1909 var rúmlega 150 doll. virði.

### Lúðraflokkur

vel æfður er í Grunnavatnsbygð. Var hann stofnaður fyrir forgöngu Guttorms J. Guttormssonar skálds, var hann formaður flokksins fyrsta árið. En varð að hætta sökum heilsubrests. Tók þá við formenskunni Lúther Melankton Lindal. Kostnaður við stofnun lúðraflokksins var borgaður sumpart með frjálsum samskotum og svo með ágóða af samkomum og borgun fyrir að spila á samkomum. Flokkurinn er talinn vel æfður og er bygðinni til sæmdar. Sumir félagsmenn hafa keypt lúðrana á sinn eigin kostnað.

### Kvenfélög

eru tvö í bygðinni. Er Mrs. Svafa Líndal forseti annars félagsins. En Mrs. Jóhanna Pétursson forseti hins. Hafa þau starfað talsvert að því að vekja kvenþjóðina til hugsunar um hag sinn og hvatt bygðarmenn til líknarstarfsemi, er veikindi eða óhöpp hafa að höndum borið.

### Skólamálum

er nú vel fyrirkomið í Grunnavatnsbygð. Þegar á fyrstu landnáms árunum, brutust landnemar í því að fá skóla reista. Munu þeir Árni Freeman og B. Líndal hafa verið ötulastir forgangsmenn þess. Nú eru í bygðinni 5 skólar: Vestfoldskóli, Marklandskóli, Hálandskóli, Norðurstjörnuskóli og Stony Hillskóli, og leggja bygðarmenn einlæga rækt við skólahaldið, að það komi að sem beztum notum.

### Póstmál.

Eins og að framan er skráð, skiftust bændur um

fyrstu árin að sækja póstinn 20 mílur einu sinni í viku. En brátt gerðu þeir gangskör að því að fá pósthús sett og eru nú 5 pósthús í bygðinni: Vestfold, Markland, Hove, Otto og Stony Hill og munu póstferðir nú orðnar þangað tvisvar á viku. Gengur póstur í bygðina bæði frá Oak Point og Stonewall.

---

Er hér þá lokið þætti Grunnavatnsbygðar. Bið eg hlutaðeigendur að virða á hægra veg hvað seint hann varð fullger frá minni hendi. Olli því heilsubrestur er mér bar að höndum síðastliðið ár. Það sem missagt kann að vera óska eg að þeir er betur vita vildu góðúslega leiðrétta og senda mér eða útgefanda Almanaksins herra Ó. S. Thorgeirssyni. Eg þakka kærlega öllum þeim er veitt hafa mér leiðbeiningar við samning þessa þáttar. Sérstaklega þakka eg herra B. Líndal og herra A. M. Freeman er veittu mér mikilsverðar leiðbeiningar og síðast en ekki sízt þakka eg herra búfræðisnemanda Hjálmi Daníelssyni, fyrir óþrjótandi elju og iðni að veita mér leiðbeiningar. Má svo að orði kveða að megnið í þætti þessum sé fremur, að efni til, hans verk en mitt. En búningnum og orðfærinu ber eg alla ábyrgð á.



# STUTT ÁGRIP AF LANDNÁMSSÖGU

## Íslendinga í Albertahéraði.

—

### III. KAFLI.

En skal þar sögu þessa segja, sem áður var niðurfelld í II. kafla hennar, sem skýrði frá landnámi Íslendinga í Alberta-nýlendunni, árin 1888 til 1890; í III. kaflanum verður sagt frá landnámi á árunum 1890—1900, með fleiru sem áhrærir þetta tímabil. Aptast í þessum kafla eru leiðrjettingar og viðauki við II. kafla.

Af því sem áður hefir verið sagt, má geta sjer til, að á fyrstu frumbýlingsárunum, gátu litlar framfarir í búnaðinum átt sjer stað. Menn voru ástæðanna vegna neyddir til að stíga fet fyrir fet á framfaraveginum og óhætt er að segja, að svo hafi það orðið að vera í þessari nýlendu, fram um 1900. Engin stórstig voru stigin, en jafnt og stöðugt var haldið í framfaraáttina eins mikið og starfsþol manna og efni leyfðu, og þetta gafst vel, það sýndi reynslan; smámsaman vanst flestum fyrstu landnámsmönnum, að brjóta ísinn, svo að þeir sjálfir og eptirkomendur þeirra, hefðu rýmri sjó að sigla um í framtíðinni; fyrstu árin lögðu bændur mest rækt við að auka búfjárstofninn, því þess var helzt kostur. Fyrstu landnámsárin varð lítið starfað að jarðrækt, á því voru margar hindranir, þótt menn hefðu gjarna viljað vinna að því. Fyrstu þrjú, fjögur árin og lengur, voru hvorttveggja ofþurka ár og sumarfrost alltíð; fáir áttu þá vinnudýr, hesta eða uxapör, sem væru vel fær um að vinna að jarðrækt og nálega öll akuryrkjuverkfæri vöntuðu; samt mun það hafa verið árið 1890, að nokkr-

ir plægðu smábletti og sáðu í þá, en allt annað en góðu sæði, gott útsæði var harla torvelt að fá á þeim árum og lengi eptir það. Hjá þeim fáu, sem sáðu, varð árangurinn lítill, hjá sumum enginn og olli því óblíða náttúrunnar, illt útsæði og jörðin varð ekki unnin svo vel sem nauðsyn bar til. Þegar svo árangurinn varð að litlu liði, gáfust sumir upp að þreyta við örðugleikana, sem í rauninni var ekki undarlegt. Fjell þá um sinn niður áhugi flestra á jarðræktinni. Það voru aðeins fáir, sem hjeldu áfram þó erfitt gengi og gáfust aldrei upp. Sérstaklega voru það þeir Stephán skáld og Sigurður Grímsson, sem sýndu mesta þrautsegju við jarðrækt. Stephán flutti hingað frá Dakóta uxapar og plægði með því fyrir sig og fleiri bændur fyrstu árin og hann mun hafa verið sá fyrsti, sem fjekk dálitla uppskeru af korni, en það var heldur enginn, sem lagði jafna alúð við aðvinnsluna á þeim árum, sem hann. Stephán hjelt því fram, að bændum hjer, gæti ekki liðið vel, meðan svo stæði, að ekki væri ræktað korn, og hann sagði, uppskeran kæmi, ef menn gæfust ekki upp og sú varð reyndin, að hvorttveggja var satt. Smámsaman fóru bændur að sinna jarðræktinni jafn hliða kvikfjárræktinni, þó hún enn sje aðalundirstaða búskaparins og verði það fyrst um sinn, fremur en akuryrkjan. Skýrt hefir verið frá því hjer að framan í I. kafla sögu þessarar, að engin járnbraut var norður frá Calgary til Edmonton þegar Íslendingar hófu landnám í Alberta árið 1888; hnekkti samgönguleysið tilfinnanlega hag nýbyggjanna, því flestar lífsnauðsynjar urðu þeir að sækja til Calgary og var slíkt ærnum kostnaði og fyrirhöfn undir orpið. En svo leið eigi langt áður en úr því rættist að nokkru leyti. Sumarið 1890 var unnið að járnbrautarlagningu milli Calgary og Edmonton; var það C. P. R. fjelagið, sem byggði þá braut. Við það minnkuðu vandræðin, hvað fjarlægð frá markaði

áhrærði, þótt allt væri enn dýrt og löngu eptir það. Um það leyti, sem brautin var byggð norður um, myndaðist smábær í Poplar Growe, sem þá fjekk nafnið Innisfail, sem varð þá og er enn næsta járnbrautarstöð fyrir mestan hluta nýlendunnar. En þótt nú væri brugðið til betra, svo stóru munaði frá því áður var voru þó aðflutningar frá Innisfail takmarkaðir og ærnum erfiðleikum háðir. Enn var Red Deer áin óhindruð, að ögra mönnum og bjóða þeim byrginn, ýmist að tálma ferð þeirra eða setja líf þeirra og eignir í voða, Engin brú eða gagnleg ferja fjekkzt þá um fleiri ár yfir ána; það var fyrst árið 1902 eða 3, að keyrslubrú var byggð á Red Deer ána, að tilhlutun stjórnarinnar, á póstveginum milli Innisfail og Tindastoll, varð það fyrir ötulaframgöngu herra J. A. Simpson, fylkisþingmannsins í Innisfail-kjördæmi, að þessi vogestur nýlendubúa var sigraður. Eptir þann tíma að keyrslubrúin var byggð yfir Red Deer ána tóku viðskiptatækifæri nýlendubúa mikilsverðum breytingum til hins hallkvæmara, hvað markað og verzlun áhrærði. Í 14 ár höfðu þeir orðið að leggja á tvær hættur þegar óhjákvæmilegt var að reka ýms nauðsynjaerindi yfir við járnbraut, sem kom fyrir vikulega allt árið. Þótt nú þessi farartálmi væri, sem sagt hefir verið, hættulegasti ókosturinn, sem nýbyggjarnir höfðu við að stríða, þá voru þeir fleiri andmarkarnir á þeim árum, sem þreyttu menn og hjeldu þeim til baka; því verður sannarlega ekki neitað, að framtíðarhorfurnar voru ískyggilegar. Það liðu heldur ekki mörg ár, áður sumir tóku að þreytast á örðugleikunum; var þeim og vorkunn mikil. Það þurfti sterka von og trú á framtíðinni til þess að viljaþrekið og stefnufestan færi ekki á hæli. Árferði var þá illt; vorin köld og þur og frostnætur tíðar yfir sumarið, stundum nálega í hverjum mánuði; jarð-

rækt sýndist þá gefa smáar vonir um góðann árangur. Því ryki hafði verið kastað í augu manna, að járnbraut yrði lögð norður um nýlenduna eða sem næst því, innan skamms tíma, en sem urðu tálvonir einar; hagsmunabótin við hina nýbyggðu sögunarmylnu sunnan við Red Deer ána varð að engu. Innflutningur var lítill fyrstu árin, því afspurn og ágizkun sagði umheiminum þá litlar framtíðarvonir í Alberta. Þegar þetta allt saman lagðist við farfýsi sumra, þá kom svo, að ýmsir hugðu á burtflutning úr nýlendunni og fýstu aðra til hins sama; þeir sem voru sýktir af farfýsinni sýndu fram á, að nýlenda þessi þrifist ekki, hún gæti ekki átt von á góðri framtíð; ekkert þrifist í jörðu sökum kulda og frosta; allt þornaði upp, jafnvel árnar og vötnin, svo búpeningur dræpist niður af þurk og vatnsskorti, engin járnbraut yrði byggð nær, engin þolanlegur markaður fengizt fyrir afurðir bænda, ef nokkrar yrðu, enginn skóli fengist, svo yngri kynslóðin yxi upp sem dýr merkurinnar. Þessar voru spár ýmsra þeirra, sem álitu það eitt ráð, að flytja burtu og það voru sumir hinna leiðandi manna er hjeldu þessu fram. Það var sumarið 1892 að þeir fluttu hjeðan, heill hópur. Voru það: Einar læknir, Ólafur frá Espihóli, Sigurður J. Björnsson, Gísli Dalman og fleiri; leit þá helzt út fyrir að bygðin myndi eiðast; þessir menn hvöttu líka alla til brottferðar; en það voru þá nokkrir sem ekki vildu hlýða á þær eggjanir, svo sem Stephán skáld, Jón Pjetursson, Jóhann Björnsson og ýmsir fleiri. Þá var það að Stephán kvað kvæðið: ,,Að skilnaði". ,,Þið farið burt, en eg verð eptir"—Andvök. I. bls. 275—;geðjaðist summum þeirra lítt að því og er þó kvæði það þrungið af spakmælum og sannleika. Burtflutningur þessi var nýlendunni hnekkir. Framkvæmdakrapturinn minnkaði og spillti áliti á nýlendunni á fjarlægum stöðum. En hrakspár

þeirra sem burtu fluttu eru nú flestar orðnar að engu fyrir staðreyndinni. Akuryrkja er nú orðin hjer í talsvert stórum stýl og þó hún sje stundum háð óhöppum af áhrifum náttúrunnar, þá mun enginn hjer andæfa því, að hún sje til stórra hagsmuna fyrir bændur. Að öllu hafi verið hætta búin sökum vatnsskorts og ofþurka, er dæmalaust um þau tuttugu ár, sem Íslendingar hafa búið í Alberta nýlendunni. Eftir afspurn og reynslu, mun þessi byggð betur sett en sumar aðrar íslenzkar nýlendur, hvað vötnun búpenings áhrærir. Hitt er satt að ofþurkar hnekkja stundum jarðargróðri svo skaði er að. Markaður og verzlun hefir opt verið óhallkvæm, en hefir tekið og tekur enn miklum breytingum til betra. Alþýðuskólar eru löngu síðan komnir, eins og sjest síðar í landnámssögunni. Járnbraut er nú verið að byggja skammt norður frá íslenzku byggðinni og sterkar líkur til, að byggð verði járnbraut gegnum íslenzku bygðina innan skamms.

---

## Þættir landnámsmanna.

Framhald frá II. kafla.

### 26. ÞÁTTUR.



**Gunnar Jóhannsson.** Ætt Gunnars er úr Aðal-Reykjadal í Norður-Múlasýslu; Jóhann faðir hans var Halldórsson frá Glaumbæ. Móðir Gunnars hjet Halldóra Gunnarsdóttir í Skógarseli. Systkini Gunnars voru sex: Kristján, Theodór, Sigtryggur og Siggeir; Theodór er í Argyle, Man., en hinir þrír í Alberta. Tvær voru systur Gunnars og eru þær heima á Íslandi. Kona Gunnars er Þorbjörg Gestsdóttir, Jónssonar, en móðir hennar var Hildur Jónsdóttir, var ætt Þorbjargar austur í Árnessýslu. Börn þeirra Gunnars og Þorbjargar eru fimm. Gunnar fór af Seyðisfirði vestur um haf árið 1888, en Þorbjörg ári síðar frá Reykjavík. Gunnar fór fyrst vestur til Argyle, en var þar eigi lengi; flutti þaðan vestur til Alberta árið 1889 og dvaldi þá um sinn í Calgary, og kvæntist þar Þorbjörgu. Áður langt um liði, nam hann land í Al-

berta nýlendunni austur frá Tindastóll-pósthús og bjó þar nokkur ár. Síðan seldi Gunnar landið og færði bú sitt vestur að Medecine-á; keypti hann þá land Jóns G. Pálmasonar og efldi þar búnað; er land það eitt af beztu ábýlisjörðum sveitarinnar. Hefir Gunnari farnast þar vel, og hefir aukið og bætt bú sitt svo stóru munar.

27. ÞÁTTUR.

**Kristján Jóhannsson.** Kristján er bróðir Gunnars Jóhannssonar—sjá þátt 26. Kristján flutti af Íslandi sama ár og Gunnar; fylgdust þeir að til Alberta. Kristján kvæntist í Calgary Sigríði Magnúsdóttur, en móðir hennar hjet Ingunn og var Magnúsdóttir. Bjuggu foreldrar hennar lengi á Efra-Hrepp í Skorradal í Borgarfjarðarsýslu; mun ætt sú hafa verið í Borgarfirði. Sigríður á níu systkini á lífi, eru þau öll á Íslandi, utan ein af systrum hennar, sem komin er til Ameríku, er nú í Duluth, Minn. í Bandaríkjunum. Kristján átti son áður hann giptist með Guðrúnu Guðmundardóttur, ættaðri úr Norður-Þingeyjarsýslu, nú komin vestur um haf, gipt Guðmundi Guðmundarsyni ættuðum úr Núpasveit í Þingeyjarsýslu; piltur þessi heitir Hrómundur og er nú fulltíða maður. — Börn eiga þau Kristján og Sigríður fimm á lífi; hið elsta er 19 ára, Halldóra Sigríður, gipt Hannesi Sigurðarsyni, Eymundarsonar. Næst elzta barn þeirra hjóna er piltur 14 ára, Ármann að nafni. Kristján nam land skammt norður af Tindastóll-pósthúsi og hefir búið þar síðan; hann er dugnaðar- og myndarmaður, en vanheilsa konu hans, hefir oft gert þeim hjónum lífið erfitt síðan þau byrjuðu búnað.

28. ÞÁTTUR.

**Sigtryggur Jóhannsson.** Sigtryggur er bróðir

Gunnars Jóhannssonar—sjá þátt 26—fylgdist hann með Gunnari vestur um haf, til Alberta 1889 og tók þá land norðvestur af Tindastóll-pósthúsi; bjó hann þar um tvö ár en flutti þá austur til Argyle, Man. og var þar sjö ár. En árið 1899, hvarf hann aptur til Alberta og settist að á landi sínu og hefir búið þar síðan. Kona Sigtryggs er Sigríður Jóhannsdóttir, Jónssonar á Ísólfsstöðum á Tjörnesi í Þingeyjarsýslu. Móðir Sigríðar var Guðrún Þórðardóttir. Eigi hefir þeim hjónum orðið barna auðið. Sigtryggur er tvígiptur; hafði áður átta Kristrúnu Stefánsdóttur, Þorfinnssonar af Vestfjörðum. Eftir hana átti Sigtryggur eina dóttur, Kristrúnu að nafni, er átti Einar Jónsson ættaður úr Reykjavík.

## 29. ÞÁTTUR.

**Siggeir Jóhannson.** Siggeir er bróðir Gunnars Jóhannssonar; kom með honum frá Íslandi og fylgdist með honum til Alberta. Siggeir átti konu þá er Ingibjörg hjet, hún var systir Jóhanns Björnssonar á Tindastól. Siggeir nam land í grennd við Tindastól og gjörði þar bú. Þau hjón voru óskaplík; Siggeir var geðspakur og seinlátur, en Ingibjörg var örgerð og engin skapdeildar kona; fór lítt á með þeim í hjúskapnum. Eigi löngu síðar, komst Ingibjörg í kunningsskap við Einar Brynjólfsson, sem leiddi til þess, að þau tóku saman. Þeim hjónum hafði orðið margra barna auðið; vann Einar það til samfara við Ingibjörgu, að taka með henni flest börnin, en gaf Siggeiri gjafir og skildi svo við hann, að báðum hugnaði vel. Hefir Siggeir síðan búið á landi sínu með einn son þeirra Ingibjargar. Annan tók Jóhann á Tindastól til uppfósturs.

## 30. ÞÁTTUR.

**Einar Brynjólfsson.** Einar er Skagfirðingur að ætt;

Brynjólfur faðir hans var Oddsson. Voru þeir feðgar lengst æfi sinnar fram í Skagafjarðardölum. Brynjólfur átti tvo bræður, Odd og Eirík. Einar ólst upp þar fram í sveitinni, en á Mælifellsá mun hann hafa verið all-lengi. Einar var í frændsemi við Jóhann Björnsson á Tindastól; móðir Einars hjet Valgerður Rafnsdóttir frá Lytingsstöðum í Tungusveit. Ekki er hægt að segja hvert ár Einar fór af Íslandi, en til Alberta mun hann hafa komið 1889, en numið land árið 1890, eigi langt norður frá Tindastóll-pósthúsi. Einar vann löngum við sauðfjárgeymslu hjá hjarðeigendum í Suður-Alberta og græddist honum brátt fje á því. Einar kvæntist um þær mundir konu þeirri er Jóhanna hjet; var hún við aldur og tókust lítt ástir með þeim; sannaðist þar að ,,ungur maður og aldrað fljóð ekki á saman í heimi". Einar var ekki lipurmenni, en stífur og skapstór, en Jóhanna vandlát og nauðunarsöm. Dróg þá til sundurlyndis með þeim; kom þar um síðir, að Einar beiddist að skilja við hana og fjekk því framgengt. Skildu þau þá sameign að lögum, en eigi löngu síðar, lagðist sá orðrómur á, að Einar væri í þingum við frændkonu sína Ingibjörgu konu Siggeirs Jóhannssonar; tóku þau þá saman, sem sagt er í Siggeirs þætti. Seldi þá Einar land sitt og flutti burtu vestur til Rossland, B. C. og var þar um sinn, en flutti þaðan suður til Montana, U.S.

## 31. ÞÁTTUR.

**Jón Gíslason.** Jón er Skagfirzkur að ætt. Faðir hans var Gísli Eiríksson, en móðir Jóns hjet Guðrún, dóttir Þorsteins á Hofstöðum í Viðvíkursveit, bjuggu þau hjón lengi á Miklahóli í sömu sveit, en síðast á Kjarvaldsstöðum í Hjaltadal. Systkini átti Jón ellefu; af þeim eru þrír bræður á lífi: Páll og Stefán báðir á Íslandi og Pétur bóndi við Tindastól. Kona Jóns var Sigurbjörg Guð-

mundsdóttir, Ólafssonar er bjó á Naustum á Höfðaströnd, en móðir Sigurbjargar hjet Sigríður Símonardóttir Eyfirzk að ætt. Þau hjón Jón og Sigurbjörg voru síðast í Garðakoti í Hjaltadal og fluttu þaðan til Ameríku árið 1886; fóru þau þá til Norður-Dakota og dvöldu þar tvö ár; úr Dakota fluttu þau árið 1888 til Alberta; settust þá að í Calgary og voru þar hin næstu missiri. Þaðan fluttu þau norður um til Alberta nýlendunnar árið 1890. Jón nam land tvær mílur norður frá Tindastól og bjó sjer þar myndarlegt heimili. Bjó Jón á landi sínu til 1902 að hann ljet af búskap. Seldi hann þá landið og lausafje og flutti austur til Red Deer bæjar; keypti Jón þar bæjarland og hefir verið þar síðan. Þau hjón hafa ekki eignast börn saman, en áður Jón kvæntist átti hann tvo sonu, Stefán, sem ólst upp með föður sínum hjer í Alberta og Sigurð, heim á Íslandi, þeirra móðir hjet Guðrún. Jón kom nær því fjelaus til Alberta, en græddist brátt fje. Hann var vinnumaður hinn bezti og ákafamaður svo hann átti vart sinn líka og hlífði sjer lítt meðan tilvannst þrek og heilsa, og var orðinn velmegandi er hann hætti búskap.

## 32. ÞÁTTUR.

**Ólafur Guðmundarson** (Goodman). Faðir Ólafs



var Guðmundur Jónsson frá Sköruvík á Langanesi á norðanverðu Íslandi og er ætt sú rituð í II. kafla 8. þætti. — Ólafur kvæntist ungfrú Concordíu Zophoníasardóttur, Benjamínssonar frá Sökku í Svarfaðardal, var ætt sú í Eyjafjarðarsýslu. Móðir Concordíu var Hólmfríður Jónsdóttir, Jónssonar, Sigurðarsonar frá Einarsstöðum í Aðal-Reykjadal, en móðir Hólmfríðar var Helga Jónsdóttir prests Stefánssonar að Helgastöðum. Ólafur fór ungur til Ameríku og mun það hafa verið árið 1873, hjelt hann til Bandaríkjanna og dvaldi þar á ýmsum stöðum, en aðallega í Grafton, N.-Dakota. Þar nam hann land og hafði þar bú nokkur ár. Þaðan fór hann heim til Íslands og flutti þá vestur foreldra sína og konuefni sitt og munu þau hafa giptzt næsta ár 1886. Í Grafton fjekkst Ólafur mikið við hveitirækt, en sem bakaði honum ærinn kostnað; uppsker-

an brást honum, dróg þetta til þess að hann varð í þröng mikilli og nálega fjelaus; varð það þá ráð hans að hann fór norður til Canada, vestur til Calgary og settist þar að; mun það hafa verið á árinu 1886, að hann fór norður. Ólafur unni framförum og framkvæmd; rjeðist hann oft í þau fyrirtæki, sem kalla mátti stórræði, fór þá stundum, sem oft kann að verða, er menn taka oftak, að það varð til að fella hann. En hann gafst ekki upp. Í Calgary tók hann að sjer ýms störf í bænum og í grennd við hann; hafði hann löngum á hendi ýmsa samningsvinnu og hjelt fjölda verkamanna; varð hann brátt handhafi að talsverðum eignum. Ólafur tók land skammt norður frá Calgary en mun hafa sleppt því aftur og keypt bæjarjarðir og byggði á þeim; í Calgary bjó Ólafur þangað til árið 1892, að hann flutti norður í íslenzku byggðina og settist að á föðurleifð sinni. Tók hann þegar að vinna að umbótum á landinu og hugði á framfarir bæði sínar og annara, en starfsfrestur framkvæmdamannsins ótrauða, var þá að þrotum kominn, því vorið 1894, dó hann með þeim sorglega hætti, að hann drukknaði af bát í ánni Red Deer, á hádegi æfinnar; var að honum mannskaði mikill, því ætla mátti, að hann hefði stutt að framförum og heill byggðarinnar og beitzt fyrir ýmsu, sem til hagsbóta horfði, hefði honum verið ljeður lengri starfstími. Ólafur var glæsimenni, vel meðalmaður að vexti, tigulegur á fæti, fríður sínum og svipurinn höfðinglegur og hreinn; hann var örgerður og fljótur til; greiðamaður, höfðinglyndur og rausgóður, sýndi hann það á hinum fyrstu Íslendingum, sem fluttu til Alberta og opt eftir það. Hann var hinn fyrsti hvatamaður, að stofnun íslenzku nýlendunnar í Alberta. Upplag Ólafs var að áforma og framkvæma, það sem þarflegt var; hann var greindur maður og mjög handgenginn enskum þjóðháttum og þekkti vel hjerlend lífsskilyrði;

hann talaði enska tungu svo vel, að fáir útlendingar munu það betur gjöra. Hin göfuga drengskaparlund, var einkunn Ólafs Goodmans. Þau hjón Ólafur og Concordía áttu fjórar dætur. Þrjár lifa: Hólmfríður Anna, Jóninna Laufey og Zophonía, en sú fjórða—Zophonía að nafni—dó á barnsaldri. Eptir fráfall Ólafs bjó Concordía með dætur sínar kyr, með umsjá Sigfúsar Gnodmans tengdabróður síns. Nam hún þá land árið 1899; hafði hún þá tvö ábúðarlönd og bjó á þeim þangað til árið 1906, að hún seldi lönd og lausafje og flutti til Red Deer bæjar; keypti hún þar bæjarland og hefir verið þar síðan, ásamt dætrum sínum.

## 33. ÞÁTTUR.

**Sigurður Jónsson.** Faðir Sigurðar, var Jón skáld á Víðimýri í Skagafirði, Árnasonar á Tindum á Ásum í Húnaþingi, Halldórssonar; Halldór var af ætt Mýramanna. Móðir Sigurðar var Ástríður dóttir óðalsbúnda Sigurðar Sigurðssonar á Reykjum á Reykjabraut í Húnaþingi. Sigurður var einn af allra merkustu bændum í Húnavatnssýslu á fyrri hluta 19. aldar. Voru þau hjón, Jón og Ástríður mjög fyrir öðrum að ætt og atgjörvi á sinni tíð og ástsæl og velmetin; bjuggu þau um langan tíma á Víðimýri og mun þeirra lengi minnst verða, að höfðingsskap og risnu. Þó eigi sje hægt að segja, að Jón á Víðimýri væri stórskáld, þá er samt víst, að hann var eitt af vorum beztu alþýðuskáldum; hann var eins og Stephan skáld kvað um P. Ó.: ,,Söngur á hverri tungu''. Ei er mjer vel ljóst, um systkini Jóns sál. á Víðimýri; veit jeg víst að hálfbróðir hans var Hjálmar Loptsson á Æsustöðum í Langadal og sem síðar bjó í Þverárdal uppfrá Bólstaðahlíð, hið mesta mikilmenni. Systur Jóns voru: Ingiríður kona Benóní á Beinakeldu í Húnaþingi og Þorbjörg á

Reykjum; en hvort Jón átti fleiri systkini, er hjer ekki hægt að segja. Bróðir Ástríðar á Víðimýri, ætla jeg væri Sigurður er lengi bjó á Kagaðarhóli á Ásum og síðar á Refsstöðum í Fremri-Laxárdal. Systkini Sigurðar Jónssonar voru: Sigfús, prestur að Mælifelli í Skagafirði; Sigurjón og Árni, báðir dánir og ein systir Guðrún að nafni, gipt Birni Erlendssyni ættuðum úr Þingeyjarsýslu, Guðrún dó í Norður-Dakota. Sigurður kvongaðist ungur, Sólveigu dóttur Nikulásar á Stóru-Seilu, Magnússonar prests í Glaumbæ, en móðir Sólveigar var Sigríður Árnadóttir, Helgasonar á Fjalli í Sæmundarhlíð. Bræður Nikulásar á Stóru-Seilu voru: Halldór í Geldingaholti, Magnús á Stóru-Seilu og Einar í Krossanesi faðir Indriða leikritaskálds í Reykjavík; hálfbróðir þeirra Glaumbæjarbræðra var Jón á Ögmundarstöðum, en systir þeirra var Efemía, kona Gísla Konráðssonar, sagnritara og skálds. Sólveig kona Sigurðar andaðist heima á Íslandi; með henni átti hann tvo sonu Nikulás og Jón, sem báðir eru ásamt föður sínum í Alberta. Sigurður giptist öðru sinni, Sigríði frændkonu sinni Benonídóttur frá Beinakeldu. Systir Sigríðar var Elín, kona Jóhanns Einarssonar frá Krossanesi, bróðir Indriða leikritaskálds. Sigurður fór vestur um haf af Sauðárkrók árið 1887 til Winnipeg, en fór þaðan suður til Norður-Dakota og var þar hin næstu missiri. Þaðan flutti hann til Alberta árið 1889 og settist að í Calgary; norður í íslenzku byggðina flutti hann 1891. Settist hann þá að á landi því, er Ólafur frá Espihóli hafði fyrst aðsetur sitt á, en árið 1894, færði hann bú sitt austur um Fell, þangað sem Einar læknir hafði áður búið, og nú er Sólheima-pósthús; nam Sigurður það land og bjó þar síðan. Sigurður er greindur og lipur hagyrðingur, skemmtinn og ann íslenskri menning og þjóðerni.

Síðan Sólheima-pósthús var opnað, hefir Sigurður verið þar póstafgreiðslumaður.

## 34. ÞÁTTUR.

**Magnús Steinsson.** Magnús er Skagfirzkur að ætt. Faðir hans var Steinn Vigfússon frá Stóru-Gröf í Langholti, í Skagafjarðarsýslu; móðir Magnúsar hjet Guðrún dóttir Guðmundar Jónssonar, er lengi bjó í Áshildarholti í Borgarsveit í sömu sýslu. Steinn var lengi hreppstjóri í Sauðárhreppi og var talinn duglegur karl; hann var búsumsýslumaður mikill og ákafamaður, enda var hann talinn maður ríkur af fje. Systkini Magnúsar voru níu, tveir bræður sem dóu ungir og sjö systur. Magnús áttti konu er Ásta Salvör hjet; hún var Ísfirzk að ætt. Faðir hennar hjet Þorvarður Brynjólfsson, en móðir hennar Ásta Jónsdóttir. Voru þau lengi í Ísafjarðarkauptúni. Systkini Ástu voru: Gísli Guðmundur—Goodman—nú í Ponoka, Alberta og Rannveig og Kristín, nú báðar dánar. Magnúsi og konu hans hefir orðið fjögurra barna auðið: Þorsteinn Óskar, sem dó ungur; þrjú eru á lífi: Össur Kristján og tvær stúlkur: Ásta og Guðrún. Magnús ólzt upp með föður sínum. Árið 1883 fór hann til Ameríku; settist hann þá að í Winnipeg; vann hann þá hin næstu ár á ýmsum stöðum í Mantoba, einkum við járnbrautavinnu. Árið 1890 fór Magnús vestur til Calgary og giptist þar það sama ár. Árið 1891 flutti Magnús norður í Íslendingabyggðina, norðan Red Deer, og settist á land í grennd við Burnt Lake, en var þar ekki lengi; skilaði hann því landi aptur til stjórnarinnar. Flutti hann þá vestur að Medecine-á og bjó þar um næstu ár. Árið 1898 nam Magnús land að vestanverðu við Medecine-á, móts við land Guðmundar Þorlákssonar; á því landi bjó hann þangað til árið 1907 að hann ljet af búskap; seldi hann þá

lausafje og flutti norður með járnbraut, til bæjar þess, er Ponoka er nefndur; hefir hann síðan stundað mest járnbrautarvinnu. Magnús er góður drengur, vandaður og áreiðanlegur í öllum viðskiptum.

## 35. ÞÁTTUR.

**Gísli Eiríksson.** Faðir Gísla var Eiríkur Einarsson á Þorgrímsstöðum í Breiðdal í Suður-Múlasýslu, en móðir hans hjet Margrjet Guðmundardóttir á Stórasteinsvaði í Hjaltastaðaþinghá í Norður-Múlasýslu. Systkini Gísla eru fimm lifandi; einn bróðir hans er heima á Íslandi, Björn að heiti, í Höskuldsstaðaseli í Suður-Múlasýslu. Hjer í landi eru: Einar, austur í Sask.; Inibjörg kona Einars Jósefssonar í grennd við Hensel, Norður-Dakota; Guðlaug kona Guðmundar Finnbogasonar nú í Manitoba og hálfbróðir Gísla, Björn Ólafsson við Hensel, Norður-Dakota. Gísli átti konu þá, er Anna Kristín hjet, hún var dóttir Einars Guðmundarsonar, Þorsteinssonar á Melum í Fljótsdal í Norður-Múlasýslu. Móðir Önnu Kristínar var Jarðþrúður Guðmundsdóttir, Finnssonar frá Skeggjastöðum á Jökuldal í Norður-Múlasýslu. Systkini Önnu Kristínar voru: Þórunn, gipt Gísla Egilssyni í nánd við Hensel, Norður-Dakota og Halldór við Otto, Man. Þau Gísli og Anna Kristín eignuðust tólf börn; af þeim eru fimm á lífi: Einar, lyfsali í Cavalier, Norður Dakota; Hósías og Eiríkur, sem eru hjá foreldrum sínum; Jarðþrúður gipt Tómasi Rafnssyni í Calgary og Guðrún Sigurbjörg, heima hjá foreldrum sínum. Ein dóttir þeirra var Margrjet, gipt Birni Björnssyni við Markerville. Gísli bjó á Þorgrímsstöðum, áður hann flutti vestur um haf árið 1878. Fór hann þá til Nýja Íslands og nam þar land; bjó hann á því þrjú ár, en flutti þá suður til Norður-Dakota; nam Gísli þar land nálægt Hensel og bjó þar þangað til árið 1891

að hann flutti vestur til Alberta-nýlendunnar; nam hann þar land, eina mílu suðvestur af Markerville, þar sem hann hefir búið síðan. Gísla er vel farið um flest; hefir hann gott og vel um hyrt bú og hefir reynzt nýtur liðsmaður í öllum fjelagsskap í byggðinni og fáir ætla eg sjeu þeir, sem reynist þrautbetri nje staðfastari, þegar málin eru torsótt og ekki gengur allt eins og æskilegt væri.

## 36. ÞÁTTUR.

**Gunnlaugur Sigurðarson.** Þótt sumir kunni að álíta, að eigi sje næg ástæða til að telja Gunnlaug meðal landnámsmanna í Alberta-nýlendu, þá vona jeg, að við nánari athugun, sjái allir, að því er ekki þannig varið; hann byggði hjer heimili og bjó á því svo árum skipti og þannig var því varið með marga fleiri eins og sjá má af öðrum kafla sögunnar.

Gunnlaugur er Eyfirðingur að föðurætt, en Skagfirðingur í móðurætt. Faðir hans var Gíslason, Stefánssonar á Göngustöðum í Svarfaðardal í Eyjafjarðarsýslu. Móðir Gunnlaugs var Ingibjörg Jónasdóttir, Jónssonar frá Brúnastöðum í Fjótum í Skagafjarðarsýslu. Systkini Gunnlaugs voru: Jón, Guðrún, Gísli og Jónas og eru þau öll heima á Íslandi. Kona Gunnlaugs var Margrjet Jónsdóttir, Jónssonar, er lengi bjó í Stafnsseli og síðast á Fossum í Svartárdal í Húnavatnssýslu, en móðir Margrjetar var Jóhanna Þorfinnsdóttir ættuð úr Svarfaðardal. Gunnlaugur er fæddur 10. sept. 1860 á Göngustöðum í Svarfaðardal og ólzt þar upp; síðast var hann á Ósi í sömu sveit og fór þaðan vestur um haf árið 1887. Sá vesturfaraflokkur fór meginlega til Brandon, Man.; þangað fór Gunnlaugur einnig, en dvaldi þar skamma stund; hjelt hann aptur austur til Winnipeg, um veturinn eptir. Í Winnipeg var Gunnlaugar hin næstu ár. Frá Winnipeg

fór Gunnlaugur vestur um fjöll til borgarinnar Vancouver og var þar um hríð. Þaðan fór hann austur aptur árið 1889 til Calgary og settist þar að. Ári síðar 1890 flutti Gunnlaugur norður um til nýlendunnar og byggði sjer þá heimili á ómældu landi, eina mílu suður frá því sem Markerville nú er; þar var Gunnlaugur þrjú ár; eptir þau liðin flutti hann aptur til Calgary, en ljet þá af hendi bústað sinn til Bjarnar Björnssonar. Í Calgary var Gunnlaugur þá hin næstu ár, en fór þaðan vestur að hafi til Ballard, Wash. árið 1902 og var þar hin næstu missiri. Árið 1904 fór Gunnlaugur austur til Calgary og bjó þar þangað til árið 1908, að hann færði sig norður til Red Deer bæjar; keypti hann þar bæjarland, byggði á því og hefir búið þar síðan. Gunnlaugur er timbursmiður að handiðn; er hann allstaðar viðurkendur sem bezti smiður og framúrskarandi verkmaður; hann er drengur góður og vinsæll og vel virtur hjá öllum sem kynnast honum. Sannast það á Gunnlaugi, að dyggðin og ráðvendnin, eru sín eigin verðlaun.

## 37. ÞÁTTUR.

**Björn Björnsson.** Faðir Bjarnar var Björn Jónsson í Hlíð við Kollafjörð á Hornströndum. Móðir Bjarnar var Þórdís Guðmundardóttir, var Guðmundur sá Einarsson; voru þeir Einar og Ásgeir alþ.maður á Þingeyrum í Húnaþingi bræður. Björn átti mörg systkini og eru þau talin í II. kafla 19. þætti, þar sem sagt er frá ætt Guðbjargar systur Bjarnar. Björn átti Margrjeti dóttur þeirra hjóna Gísla Eiríkssonar og Önnu Kristínar Einarsdóttur; Margrjet dó ung 33 ára af barnsburðarafleiðingum. Þau hjón höfðu eignast tíu börn, af þeim eru sjö lifandi. Björn kom til Alberta ári síðar en Gísli tengdafaðir hans og setti bú saman suður frá Markerville, þar sem áður hafði

búið Gunnlaugur smiður; var það á ómældu landi; en eptir að landið var útmælt, færði Björn bústað sinn lengra suður í tunguna; nam hann þar land og byggði á því; leizt honum þar vera myndu betri landskostir; þar hefir hann búið síðan. Eptir að Björn missti Margrjeti konu sína, bjó hann með börnum sínum, sem flest voru á unga aldri; var elzta dóttir hans, Anna að nafni, fyrir innan stokk hjá honum hin næstu missiri; eigi löngu síðar gipti Anna sig enskum manni og ekki að frændaráði; hugnaði Birni lítt sá ráðahagur, en gat þó eigi að gjört. Ekki hafði Björn efnum til að dreifa, er hann kom til Alberta og setti bú saman, en hann var stakur dugnaðar- og kappsmaður og ljet eigi fyrir bíta að efla hag sinn og tryggja framtíð sína, þótt það kostaði erfiðleika, græddist honum brátt hagsæld og fje, svo hann er með rjettu talinn einn af beztu búendum byggðarinnar. Margrjet kona hans, var heldur ekki hlífisöm, en ótrauð til framsóknar meðan dagur vannst til.

## 38. ÞÁTTUR.

**Jón Jónsson** (Strong). Jón var fæddur á Geiteyjarströnd við Mývatn. Foreldrar hans voru: Jón Jóhannesarson, er lengi bjó á Geiteyjarströnd og Kristbjörg Ingjaldsdóttir frá Halldórsstöðum í Bárðardal. Jón ólzt upp hjá foreldrum sínum þangað til hann giptist árið 1872, ungfrú Helgu Ingibjörgu. Foreldrar hennar voru: Davíð Jósafatsson og Rannveig Jósefsdóttir frá Austaralandi í Axarfirði. Foreldrar Helgu bjuggu allan sinn búskap á Ferjubakka í Axarfirði í Þingeyjarsýslu. Jón Strong átti tvær systur: Jóninnu Sigurrós og Sigríði, sem báðar fluttu til Ameríku og giptust þar; báðar eru þær nú dánar. Systkini Helgu voru átta; þrjú þeirra dóu ung og einn bróðir

hennar Valdimar að nafni, drukknaði vorið 1911 í Winnipegvatni; fjögur eru á lífi: Friðfinna Guðrún, gipt Sigurjóni Guðmundarsyni á Litluströnd í Mývatnssveit; Jóninna Rannveig í Skógum í Axarfirði; Anna Jósefína, gipt kona í Argyle, Man. og Jósef bóndi við Baldur, Man. Helga var fjórði liður í móðurætt frá Jónasi Hallgrímssyni skáldi. Börn þeirra Jóns og Helgu eru sex á lífi, öll hér í Ameríku; einn sonur, Jón Ármann, að Markerville og fimm dætur: Hin elzta þeirra er Svava, gipt Jóni Kjærnested, Winnipeg Beach; önnur er Regína, gipt Guðmundi syni Stephåns skálds, verzlunarmanni á Markerville; þriðja er Lára Sigurlína, kona Jóns Benedictssonar, verzlunarmanns á Markerville; tvær systurnar munu vera í Winnipeg, Rannveig Jósefína og Kristbjörg Málfríður. Vorið 1883 fluttu þau Jón og Helga að Ytri-Neslöndum í Axarfirði; þaðan fluttu þau vestur til Ameríku árið 1884 og settust að í Kinmount, Ontario, en fluttu þaðan vorið 1885 vestur til Winnipeg og dvöldu þar stuttan tíma, en fóru þaðan suður til Dakota og bjuggu þar hin næstu missiri; ætla jeg að Jón tæki þar land norðan Tunguár, þótt það sé ekki víst. Jón flutti aptur til Winnipeg og hafði þar dvöl nokkra, áður hann flutti til Alberta, en það var árið 1889; settist hann þá að í Calgary um sinn, en norður til nýlendunnar mun hann hafa flutt árið 1891. Jón var nær því allslaus er hann kom til Calgary, þar vann hann við smíðavinnu og þótt hann hefði stóra fjölskyldu um að sjá, bætti hann þó hag sinn mikið. Þegar hann var kominn norður, efndi hann til bólstaðar að vestanverðu við Medecine-á upp frá landnámi Bjarna Jónssonar; húsaði Jón þar snotran bæ í skógarrjóðri á árgilsbakkanum; er þaðan fagurt útsýni yfir bygðina austur og suður; síðar nam Jón það land og bjó þar til æfiloka. Jón andaðist árið 1907, var hann þá búinn að missa Helgu konu sína, hún andaðist 1895.

Jón sál. Strong var mikilmenni um flest. Hann var þjóðhagasmiður; á Íslandi vann hann mest að járnsmíði, en hjer vestanhafs lagði hann timbursmíði fyrir sig; hann var smiður á allt; allt sem hann lagði hönd á, bar vitni um mikinn hagleik og hugvit mikið. Jóni Strong verður aldrei rjettar lýst, en Stephán skáld gjörði í minningarljóðum þeim, er hann kvað eptir Jón, þar stendur meðal annars þetta:

,,Snilld hann átti að erfðum
,,engan lærdóm,
,,hug og mannvit mikið,
,,minna af fróðleik;
,,kjark og afl við örðugt
,,atlot færði;
,,skaplund skörungmennis
,,skjallmál engin".

## 39. ÞÁTTUR.

**Einar Jónsson** (Hnappdal). Eptir aö Sigurður J. Björnsson, hafði flutt á burtu af landi því, er hann settist á—eins og segir í II. kafla 1. þætti—var það í eyði, þó ekki lengi. Frá Dakota kom árið 1889, sá maður er hjet Einar Jónsson, hafði hann kenningarnafn Hnappdal. Ekki er mjer kunn ætt Einars, utan að hann var ættaður úr Hnappadalssýslu og var þar uppalinn. Einar settist að í Calgary um sinn, en fór þó aokkru síðar norður og nam land það er Sigurður Jósúa hafði laust látið; varð Einar eigandi þess og lifði þar öðru hvoru mörg ár; að síðustu seldi hann landið og fór suður til Dakota, þar átti hann börn vel stæð, tvo sonu Sigurð og Jón og hjá honum dó Einar, að því eg bezt veit. Síðari kona Sigfúsar Ólafssonar, bónda í Dakota mun hafa verið dóttir Einars. Einar Hnappdal var góður og skynsamur karl en hafði farið á snið við bóklega menntun. eins og flestir alþýðu-

menn á þeim tímum. Hreppstjóri var hann lengi í sveit sinni heima á Íslandi. Hann var þrekmaður og hafði óbilandi kjark og áræði fram á elliár. Einar var mikilmenni að mörgu leyti, þótt honum yrði það ekki ávalt að liði, eins og bezt hefði orðið ákosið.

## 40. ÞÁTTUR.

### Kristinn Kristinsson.



Kristinn er Skagfirðingur að föðurætt, en móðurætt hans var á Austurlandi. Kristinn faðir hans var Jóhannesson, Jónssonar; Jóhannes bjó fyrst á Skatastöðum í Skagafjarðar :ölum en síðar á Vindheimum í Tungu sveit; var hann merkasti maður, sinnar tíðar, virtur og ástsæll af öllum; hann var hreppstjóri um 30 ár í Lýtingsstaðahreppi. Jóhannes átti fimm sonu: Kristinn, Árna, Eggert, Jóhann og Eyjólf og eina dóttur Arnfríði, móður Eggerts Jóhannssonar í Winnipeg, fyrrum ritstjóra „Heimskringlu". Eyjólfur bjó á Vindheimum eptir föður sinn látinn og þótti merkur maður. Móðir Kristins hjet Margrjet hún var Guðmundardóttir, var hún ættuð af Austurlandi. Kristinn Krist-

insson, er fæddur árið 1854, að Brú á Jökuldal í Norður-Múlasýslu, óx hann þar upp, tilþess hann var 19. ára að aldri. Þá var farið að verða tíðrætt um mannflutninga til Ameríku, var þar sagt gott til fjár, landskostir góðir og veðurgæði mikil; fýsti þá Kristinn, sem fleiri, að reyna þar hamingjuna; hjelt hann þá vestur vorið 1873, ásamt fleirum ungum mönnum, munu hafa verið í því föruneyti nær 20 Íslendingar; af þeim voru nafnkenndastir: Árni Sigvaldason, síðar í Minnesota-nýlendunni íslenzku; Lúðvik Guðmundarson frá Torfastöðum í Vopnafirði, og Benedikt Jóhannesson, síðar bóndi við Garðar, N.-Dakota. Maí 29. komu þeir til Filadelphiu, hjeldu þeir ferðinni áfram til Wisconsin, til borgarinnar Milwaukee; í Wisconsin ríki var Kristinn sex ár. Vorið 1879 flutti Kristinn til Norður-Dakota og nam þar land í grennd við Garðar. Árið 1882 kvæntist Kristinn, ungfrú Sigurlaugu Guðmundardóttur, systur St. G. Stephanssonar skálds. Sigurlaug var vel að sjer gjör um flest, greind kona, sjálfstæð og þrautgóð. Þeim hjónum varð þriggja barna auðið, er öll náðu fullorðins árum; það voru tveir drengir, sem hjetu Stefán Kristinn Ólafur og Hannes Frost og ein dóttir: Guðbjörg Lilja að nafni, öll vel gefin og mannvænleg, hjeldu og foreldrar þeirra þeim til menningar og fáir foreldrar ætla jeg að inni betur af hendi foreldraskylduna en þau hjón Kristinn og Sigurlaug. Kristinn bjó á landi sínu í Garðarbyggð þangað til árið 1889, að hann flutti vestur til Alberta; settist hann þá að í Calgary og dvaldi þar hin næstu missiri. Ekki verður hjer sagt með vissu hvert ár að Kristinn flutti norður í nýlenduna, en norður mun hann hafa verið kominn fyrir árið 1892; nam hann þá land að vestanverðu við Medecine-á, þrjár mílur upp frá Markerville, móts við Stephan mág sinn. Vel er Kristni farið og margt vel gefið; ber til þess margt að hann má teljast fyr-

ir öðrum; hann er skynsamur og hefir ljósa skoðun, er vel málifarinn og hefir náð talsverðri menntun í bæði íslenzkum og enskum fræðum. Þegar hann hefir gegnt opinberum störfum hefir hann jafnan þótt leysa þau vel af hendi. Þegar Kristinn flutti til Alberta, mun hann hafa verið mjög fjelítill, en honum græddist fje smámsaman; ætla eg að því orði megi áljúka, að hagur hans blómgaðist vel og honum yrði flest til vegs og ánægju, eptir að hann settist hjer að, þangað til árið 1905 að þau hjón urðu fyrir því þunga mótlæti að missa Stephan son sinn, 22ja ára að aldri, hinn mesta atgjörfismann og bezta dreng; það var sem dauðinn hefði fengið leyfi til að kjósa fyrir odd, hinn ágætasta úr ungramanna hópnum meðal vor, enda mátti segja, að hann væri fyrir þeim sakir flestra hluta; var hann harmaður mjög af foreldrum sínum og ættfólki og jeg ætla víst, að allir, sem höfðu nokkur kynni af honum minnist hans með eftirsjá og söknuði. Stephan sál. dó af taugaveikinni suður í Calgary. Var lík hans flutt norður og grafið á eignarjörð foreldra hans, þar sem er ákveðinn grafreitur ættarinnar, var hann hinn fyrsti, sem jarðaður var í þeim reit; grafreitur þessi er suður frá bænum á fögrum grasfleti meðfram árgilinu; þar hvílir unga mikilmennið og við hlið hans Gestur sál. Stephansson, frændi hans og amma þeirra, Guðbjörg Hannesdóttir. Grafreitur þessi er löggiltur fyrir alda og óborna, að því jeg bezt veit. Stephan skáld kvað eptir nafna sinn og frænda, hugðnæm og innileg minningarljóð, sem prentuð eru í ljóðasafni hans „Andvökur" I., bls. 187. Hinn sonur þeirra hjóna Kristins og Sigurlaugar, vinnur heima hjá þeim. Dóttur sína giptu þau Jóhanni Sigurði, syni Bjarna Jónssonar og eru þau í sambýli við foreldra sína þessi árin; stendur heimilishagur þeirra mága mjög vel, að því er sjeð verður.

## 41. ÞÁTTUR.

**Þórarinn Guðmundarson.** Um ætt Þórarins verður hjer lítið sagt, sem áreiðanlegt sje. Hann er Skagfirðingur í föðurætt. Guðmundur faðir hans var í Skollatungu í Göngu-skörðum í Skagafjarðarsýslu nokkur ár, áður hann færi til Ameríku; er mjer svo sagt, að Guðmundur sá væri Pjetursson ættaður utan úr Fljótum. Móðir Þórarins hjet Ása, en um ætt hennar er mjer lítið kunnugt; það er þó ætlun mín, að ætt hennar hafi verið norður í Þingeyjarsýslu, helzt í Aðal-Reykjadal eða út á Tjörnesi og að hún hafi verið í frændsemi við Jakob á Breiðumýri, en þetta er aðeins tilgáta mín, dregin að líkum. Kunnugt er mjer að Þórarinn er nærskyldur Jóhönnu Einarsdóttir, konu Vigfúsar Halldórssonar, en ætt Jóhönnu var norður þar, eins og sagt er í II. kafla, 17. þætti. Fimm voru systkini Þórarins; þrjú dóu í æsku, en tvær systur eru á lífi: Þóra og Sigríður, báðar giptar enskum mönnum, búsettum í Winnipeg. Þórarinn er fæddur 1870 og missti móður sína litlu síðar. Þórarinn



fór vestur um haf með föður sínum árið 1876, var hann þá fimm ára gamall; faðir hans fór til Nýja Íslands og dó þar litlu síðar; þá var kominn til Nýja-Íslands Sveinbjörn, Jóhannesson, sem fyr bjó á Veðramóti í Gönguskörðum; tók hann Þórarinn til sín, þó eigi strax við fráfall föður hans. Sveinbjörn fór til Norður-Dakota og settist að austnorður frá Mountain-pósthúsi; var Þórarinn þar með Sveinbirni mest af sínum uppvaxtarárum; lítið hjelt Sveinbjörn Þórarni fram, nema til að vinna og var honum haldið fast til þess, en lítt var hann settur til mennta; var honum gefin naumur tími til skólanáms, og mun hann þar eigi hafa notið menntunar svo teljandi væri. Þórarinn varð því að afla sjer nauðsynlegrar þekkingar jafnframt því að vinna á öllum tímum og það hygg eg að fáum hafi tekizt betur undir líkum ástæðum. Kom honum þá að liði að hann er bæði vel vitiborinn maður, og var snemma stilltur og gaumgæfur. Snemma sáu menn það, að Þórarinn var athugull maður og laghentur til allra verka, hafði hann gott lag á að nota vinnuvjelar og sjá hvað hentast var. Frá Sveinbirni fór Þórarinn nokkru fyr en hann yrði 20 ára að aldri; mun honum hafa leiðzt vistin og virzt framtíðarhorfurnar daufar; vann hann þá í ýmsum stöðum um sinn. Þá bjuggu þrjár mílur norður frá Mountain-pósthúsi, heiðurshjónin Hafsteinn Skúlason og Sigríður Þorbergsdóttir; þau fluttu frá Íslandi árið 1874, til Nova Scotia, en þaðan til N.-Dakota og keyptu þar land í fjelagi við Jón Hillman, tengdason sinn og bjuggu þar nokkur ár. Fósturdóttir þeirra hjet Hallfríður Magnúsdóttir, Gunnarssonar á Sævarlandi í Ytri-Laxárdal í Skagafjarðarsýslu, er ætt sú sögð í öðrum kafla sögu þessarar 23. þætti. Hallfríður var á fóstri hjá þeim frá því á fyrsta aldursári til fullorðins ára og naut hins bezta uppeldis; var hún vel að sjer gjör um flest. Árið 1889 dó Hafsteinn; var þá Sig-

ríður ein síns liðs með Hallfríði fósturdóttur sína; mun þá Þórarinn hafa verið með þeim um sinn og virðist þeim hann vel; var Hallfríður þá gjafvaxta og þótti hinn bezti kvennkostur; fjekk Þórarinn hennar og hjeldu þau brúðkaup sitt árið 1890. Árið eptir 1891 fóru enn nokkrir frá Dakota vestur til Alberta; einn af þeim var Þórarinn með konu sína og tengdamóður. Þórarinn settist að á ómældu landi austanverðu við Medecine-á, mílu norðar en Stephan skáld, en þegar landið var útmælt, nam ekkjan Sigríður þar land og eignaðist það, en að henni látinni, hlaut Þórarinn það og bjó á því þangað til hann flutti hjeðan. Sjálfur nam Þórarinn land í Fellshlíðinni, beint upp frá bústað sínum og varð eigandi þess. Árið 1905 hætti Þórarinn búskap, seldi hann þá meiri hluta lausafjár síns og flutti til Red Deer bæjar; keypti hann þar bæjarlönd og bygði gott og vandað íbúðarhús, með öllum þeim þægindum, er höfð eru í öllum vönduðum bæjarbyggingum. Þar hefir hann búið síðan. Hefir hann fengist nær eingöngu við samningsvinnu (kontrakt) og farið það vel úr hendi. Fimm börn eiga þau hjón á lífi, öll fremur myndarleg og vel gefin. Þau heita: Sigríður Florence, Ása Jóhanna, Ingibjörg Sigurlaug, Lilía Þorfríður og Stefán Victor. Öll eiga þau að ganga menntaveginn, ef þess verður auðið. Elztu systurnar tvær eru nú árskennarar á alþýðuskólum í þessu hjeraði, sú þriðja hefir kennt um tíma, en mun nú vera á háskólanum, en tvö þau yngstu langt komin með undirbúnings lærdóm. Eftir að Þórarinn kom hjer vestur, kom það brátt í ljós, að þau hjón voru vel að sjer gjör og ljetu gott af sjer leiða; Þórarinn tók mikinn þátt í öllu sem til framfara horfði í bygðinni, vanst vel að því, sem hann átti hlut að, því að hann var bæði hygginn og óeigingjarn og verkhagur maður í bezta

lagi. Þau hjón hafa verið hjer að maklegleikum virt og vel metin.

## 42. ÞÁTTUR.

**Sigurður Magnússon.** Faðir Sigurðar var Magnús bóndi á Sævarlandi í Ytri-Laxárdal í Skagafjarðarsýslu, Gunnarssonar frá Geitagerði í Reynistaðasveit í Skagafirði, en Gunnar í Geitagerði, var—að fróðra manna sögn—kominn í beinan karllegg frá Barna-Gunnari, sem lengi bjó á Hvalsnesi á Skaga og lifði þar í gegnum móðuharðindin miklu, sem gengu yfir Ísland—ef mig minnir rétt—litlu eptir 1750; var Gunnar sá fjórgiptur og átti með þeim að talið var 30—40 börn; af þeim komust á fullorðins ár 27 og var það að ágætum haft, hve þau voru jafn mannvænleg og vel uppkomin; var hann svo kallaður Barna-Gunnar og hefir verið að líkum, einn mestur ættfaðir á Íslandi. Gunnar í Geitagerði var þríkvæntur og munu þeir Magnús og Ingjaldur bræður, hafa verið af fyrsta hjónabandi hans; sá Ingjaldur bjó í Eyhildarholti í Hegranesi og andaðist þar árið 1869, en Magnús mun hafa dáið árið 1873 á Sævarlandi. Móðir Sigurðar, var Sigríður Guðvarðardóttir frá Ketu á Skaga. Systkini Sigurðar voru: Hallfríður, kona Þórarins Guðmundarsonar í Red Deer; Sveinn, bóndi við Foam Lake, Sask.; Ingibjörg, seinni kona Sigurðar Grímssonar við Brunt Lake; heima á Íslandi eru: Sigríður, kona Jóhanns Sigurðssonar á Sævarlandi; Guðvarður, bóndi á Hafragili og Ingunn, kona Ólafs Sveinssonar bónda á Akri á Skaga. Ein var hálfsystir þeirra, Inga að nafni, nú dáin. Sigurður kvæntist ungfrú Önnu Kristínu Pjetursdóttur frá Miklahóli í Viðvíkursveit í Skagafirði, var sá Pjetur Gunnlaugsson, Jónssonar prests á Barði í Fljótum; móðir Önnu Kristínar var Jóhanna Ólafsdóttir, söðlasmiðs á Stóra-

Holti í Fljótum. Anna Kristín átti 19 systkini; af þeim eru á lífi fjögur; öll hjer vestanhafs: tveir bræður, Stefán Guðlaugur og Sveinn báðir í Winnipeg og tvær systur: Elín Petrína, gipt Albert Þiðrikssyni, við Húsavík í Nýja-Íslandi og Guðlaug Sezelía, gipt Friðrik Friðrikssyni, Brú-pósthús, Argyle, Man. Sigurður og Anna Kristín eiga sex börn; hið elzta þeirra heitir Stefán Sigurður. Sigurður fór vestur um haf frá Íslandi, árið 1888; fór hann þá til N.-Dakota, til móts við Þórarinn mág sinn og Hallfríði systur sína; dvaldi hann þar syðra hin næstu missiri, en árið 1891 fór hann vestur til Alberta ásamt Þórarni og fleirum; var hann þá um sinn með þeim hjónum Þórarni og systur sinni, sætti hann þá daglauna vinnu einkum suður í Calgary og þar giptist hann Önnu Kristínu. Árið 1894 mun hann hafa byggt sjer heimili á landi því er liggur næst að vestan við land það er Jón G. Pálmason settist á, en bjó þar eigi lengi heldur færði bú sitt á næsta land til norðurs; nam hann það land og hefir búið þar síðan. Ekki settu þau hjón bú saman með miklum efnum; eigi að síður græddist þeim brátt fje; bar til þess einkum tvennt: að þau sátu á einni af hinum beztu bújörðum sveitarinnar og þó öllu heldur hitt, að bæði voru samvalin að dugnaði og ráðdeid og þurftu í því efni hvorugt á annað að deila, bú þeirra er nú eitt af hinum beztu og stærstu búum byggðarinnar.

### 43. ÞÁTTUR.

**Jón Gottvill Pálmason.** Pálmi faðir Jóns hafði það kenningarnafn, að hann var nefndur Skaga-Pálmi, var það dregið af landsvæði því er Skagi er nefndur og liggur meðfram Skagafirði vestanverðum að sjó fram og mun Pálmi hafa dvalið þar lengst lífdaga sinna. Jón hjet faðir Pálma og er mjer svo sagt, að hann væri Guðmundarson frá Móbergi í Langadal í Húnavatnssýslu. Skaga-Pálmi

var djúpvitur maður og kunni margt í fornum fræðum og þótti ástundum ekki dælt við hann að fást, skáldmæltur var hann og fljótur að kasta fram kviðlingum við tækifæri; hann var á þeim tíma vel mentaður maður, las og skildi danska og þýzka tungu; hann fjekkst lengi við smáskamta lækningar og þótti heppnast þær vel. Móðir Jóns Gottvils, var Margrjet dóttir Guðmundar Gunnarssonar, er lengi bjó á Skíðastöðum í Ytri-Laxárdal í Skagafjarðarsýslu, hann var albróðir Gunnars ríka á Skíðastöðum; var Gunnar sá talinn einhver ríkasti maður á þeim tímum um Skagafjörð, annar en síra Jón prófastur Hallsson í Glaumbæ. Gunnar bjó lengi á Skíðastöðum við rausn mikla og dó þar. Hans dóttir var Sigurlaug, sem átti Ólafur Sigurðarson, umboðshaldari á Ási í Hegranesi; voru þær því bræðradætur Sigurlaug og Margrjet móðir Jóns Gottvils. Þessir Gunnarssynir voru fjórir og tvær systur og voru þau systkini afkomendur Barna-Gunnars á Hvalsnesi og er hans að nokkru getið í 42. þætti hjer að framan. Jón Pálmason átti engan bróður en fjórar systur, sem fóru allar vestur um haf, til Canada. Tvær eru dánar; hinar eru. Elín alsystir Jóns og Ingibjörg hálfsystir hans. Elínar fekk sá maður er Gunnar heitir, bóndi við Mountain, N.-Dakota; sonur Guðmundar, er lengi bjó á Hofstöðum á Skagaströnd, Gunnarssonar frá Skíðastöðum; eru þau hjón þrímenningar að frændsemi. Ingibjörgu átti Bjarni bóndi við Mountain, N.-Dakota, Benediktsson frá Eiðsstöðum í Blöndudal í Húnavatnssýslu. Jón Gottvill Pálmason fór vestur um haf árið 1874; var þá mikill mannflutningur vestur, meiri hlutinn af þeim flokki settist að í Kinmount, Ontario. Dvaldi Jón þar um sinn, en fór árið næsta 1875, til Nýja Íslands að Gimli, Man.; þar nam Jón land og var á því þrjú ár; þá flutti hann til Winnipeg og vann þá hjá bændum í Manitoba·

um hin næstu missiri, þangað til árið 1881, að hann fór suður til íslenzku nýlendunnar í N.-Dakota, þar sem nú er nefnd Mountain-byggð. Þar nam Jón land og varð eigandi þess; eptir það nam Jón annað land vestur á Pembinafjöllum og hafði þar bólstaðargerð. Árið 1891 flutti hann ásamt fleirum vestur til Alberta; hafði hann þá reynt hamingjuna í Dakota, þessu frelsisins og framfaranna landi, en hangið stundum niðan í hjólinu, eins og fleiri framsóknar menn á þeim árum, sem miðuðu hærra en við hóf; samt var það að Jón bar hrærri hlut frá borði Dakota, en sumir aðrir, fjárhagslega skoðað; hafði heldur ekki utan eitt líf að verja. Þegar vestur til Alberta kom, valdi Jón sjer bólstað á ómældu landi, vestanverðu Medecine-árinnar og nam þar síðan land, eptir að landið var fullmælt; það var gott búland og frítt; var Jón þar lengi síðan. Þegar Jón búsetti sig í Alberta hafði hann efni nokkur, sem hann flutti frá Dakota og jók við þau að góðum mun eptir að hann kom til Alberta, svo að telja mátti, að hann væri velmegandi maður; en er áleið rýrnaði fjárhagur hans, bar tvennt til þess, það að hann var bilaðar að heilsu og því síður fær um að duga sínu og hitt að hann var optast einn síns liðs síðari árin og varð þá að láta skeika að sköpuðu um hyrðing búpenings síns og ætla eg að það hafi meira en nokkuð annað hnekkt hag hans. Árið 1903 seldi Jón lausafje sitt og rjeðist austur til Ottawa og var þar nokkur ár; eptir það seldi hann land sitt til Gunnars Jóhannssonar sem fyr segir. Eptir það höfðu menn litlar fregnir af högum hans þar eystra. Þá var það, að hann þýddi á ensku ágrip af sögu Íslands og gaf hana út. Árið 1909 yfirgaf hann Ottawa, hjelt hann þá suður til Dakota á fornar stöðvar og hefir verið þar síðan. Jón var maður skarpgreindur, hafði lesið margt og hugsað mikið, þótt ekki yrði það alt að framkvæmd, hann var skemtinn og

skrafhreifur; hagyrðingur var hann, sem hann átti kyn til, en þótti fyrrum óvæginn í kveðskap sínum og illskældinn var hann kallaður af sumum. Aldrei hefir Jón kvongast, en einn son átti hann, Guðmund að nafni, það var greindur-piltur og gott mannsefni; hann lifði eigi lengi, en dó rúmlega tvítugur að aldri.

## 44. ÞÁTTUR.

**Hermann Jónsson** (Hillman). Hann var Skagfirðingur að ætt; faðir hans var Jón á Hóli á Skaga, Rögnvaldsson á Kleyfum á Skaga. Jón bjó á Hóli allan sinn búskap, þaðan kom þeim sonum hans kenningarnafnið Hillman, eptir að þeir fluttu til Ameríku. Móðir Hermanns var Una Guðbrandardóttir og var ætt hennar norður í Fljótum. Albræður Hermanns voru: Jón Hillman, bóndi við Mountain, N.-Dakota og Pjetur Hillman, bóndi við Akra, N.-Dakota, en al systir Hermanns hjet Guðrún. Hálfsystkin átti hann: Rögnvald, Gísla og Guðbjörgu. Kona Hermanns var Margrjet, hún var dóttir Ögmundar Jónssonar á Brandaskarði, en móðir hennar var Jóhanna dóttir Magnúsar á Fjalli á Skaga, Jónssonar, prests á Steinnesi í Húnaþingi. Hermann fór vestur um haf árið 1887; fór hann fyrst til Pembina-hjeraðs, N.-Dakota og settist að í nánd við Akra, og dvaldi þar um hríð. Eptir það dvaldi hann tvö ár suður í Mountain-bygð, hjá Jóni bróður sínum. Þaðan flutti hann til Alberta-nýlendunnar árið 1891; voru þeir saman hið fyrsta ár Hermann og Jón G. Pálmason. Næsta ár byggði Hermann sjer heimili vestanverðu við Medecine-á, næst upp frá Jóni og nam þar land síðar. Börn eiga þau Hermann og Margrjet fimm á lífi, fjóra syni og eina dóttir, sem gipt er Jónathan Ólafssyni í Edmonton. Hermann kom eignalaus frá Íslandi, svo að hann hafði naumast farareyri vestur, en

hann var hinn mesti dugnaðarmaður og fór vel með efni sín; eptir að hann kom til Dakota, eignaðist hann nokkurn fjárstofn, er hann hafði til Alberta; fyrstu árin jókst efnahagur hans hjer eigi síður en annara, því hann var áhugamaður, að duga ástæðum sínum, en svo missti hann heilsu sína og hefir ekki síðan orðið jafn hraustur, sem áður; hnekkti þetta búnaði hans um sinn; eigi að síður hefir honum búnast hjer vel, einkum síðari árin; synir hans, sem fullþroska eru, Jón og Jóhann eru dugnaðar- og myndarmenn, sem hafa stutt búnað hans um undanfarin ár.

## 45. ÞÁTTUR.

**Guðmundur Illugason.** Guðmundur er ættaður úr Dalasýslu. Faðir hans var Guðmundarson. Kona Guðmundar Illugasonar hjet Elín Jónsdóttir, ættuð úr Dalasýslu. Elín átti son, Jón að nafni, með Böðvari á Skarði er Jón nú kominn til Alberta. Guðmundur og Elín áttu tvær dætur; Guðlína Þorleif; hennar fjekk Friðrik Kristjánsson, Jónssonar og Guðrún Ólína, sem er með foreldrum sínum. Guðmundur flutti frá Íslandi vestur um haf árið 1887 frá Bálkastöðum í Húnavatnssýslu, mun hann þá hafa farið til Dakota og sezt að í Mountain-bygð, hjá Sigurði Árnasyni og Karítas konu hans og verið í föruneyti Sigurðar árið eptir, 1888, vestur til Alberta; Guðmundur var þá fjevann og settist að í Calgary, og vann þar hin næstu missiri, mest hjá Ólafi Goodman. Haustið 1889 flutti Guðmundur norður til nýlendunnar og var þá enn með Sigurði Árnasyni hinn næsta vetur. Vorið eptir mun hann hafa sezt á land austur við Burnt Lake og dvaldi þar um eitt eða tvö ár, en hvarf svo aptur til Calgary og var þar þá 8 ár. En árið 1898 mun Guðmundur hafa flutt

norður aptur og þá numið land skammt norðaustur frá Tindastóll, þar sem hann bjó síðan.

## 46. ÞÁTTUR.

**Indriði Friðriksson** (Reinholt). Indriði Reinholt, er fæddur árið 1863. Faðir hans var Jafetsson, var mjer svo sagt, að þeir forfeður Indriða, væru komnir af þýzkum ættum. Móðir Indriða var Sólveig Rebekka dóttir Benedicts Björnssonar, sem lengi var póstur á Austurlandi. Systkini Indriða, sem á lífi eru: Friðrik, bóndi í í Ramsey-hjeraði í N.-Dakota og tvær systur: Ágústa og Valgerður, báðar giptar enskum mönnum. Indriði fór vestur um haf árið 1879 og var þá 16 ára að aldri. Hjelt hann þá til Dakota og var þar síðan lengi. Vann Indriði þá stöðugt hjá bændum um langan tíma, einkum norskum, nam hann þá bæði enska tungu og norska; norsku talar hann svo vel, sem hann væri innfæddur í Noregi. Indriði kvæntist árið 1887, Guðbjörgu, dóttir Jasonar Þórðarsonar frá Sigríðarstöðum í Vesturhópi í Húnavatnssýslu. Móðir Guðbjargar hjet Anna, hún var dóttir Jóhannesar á Vatnsenda, er sá bær vestanvert við Víðidal í Húnavatnssýslu. Guðbjörg á þrjú systkini á lífi: Jóhannes, bónda við Foam Lake, Sask.; Steinunn, gipt Jóhanni Sveinssyni við Burnt Lake, Alta og Anna Ingibjörg, gipt Jónasi Kristjánssyni við Milton, N.-Dakota. Guðbjörg fór til Ameríku 18 ára gömul; hafði hún þá verið áður þjónustumær á Kornsá í Vatnsdal hjá þeim hjónum Lárusi Þ. Blöndal, sýslumanni í Húnaþingi og frú hans; mun það mjög hafa hlúð að því, að Guðbjörg var hin mesta þrifnaðar og myndarkona. Ekki mun Indriði hafa numið land í Dakota, en kunnugt er mjer að hann keypti þar land og hafði búnað á því; ætla eg að Indriði legði þar margt á gjörfa hönd; bæði stundaði hann akuryrkju og

svo keypti hann þreskivjel og vann með henni hjá bændum; var það sumra manna sögn, að sá kostnaður yrði honum ofjarl fjárhagslega. Á þeim árum var akuryrkjan undirorpin áföllum, af frostum ekki síst á Pembinafjöllum og svo mun Indriði hafa stundum færzt meira í fang, en hann megnaði, að reisa rönd við, dróg það til þess, að efni hans gengu til þurðar; fór hann þá norður um og vestur til Alberta árið 1889; settist Indriði þá að í Calgary-bæ, þar var hann um hin næstu ár og starfaði að ýmsri bæjarvinnu. Árið 1894, er ætlun mín að hann hafi flutt norður til nýlendunnar; nam hann þá innanskamms land, eigi langt frá Burnt Lake og bjó þar um nokkur ár; hafði hann á þeim árum þyngd mikla af vanheilsu þeirra hjóna, sem þrengdi þá enn mjög högum hans, hafði hann þá orðið þunga fjölskyldu og mikinn kostnað í búi. Brá hann þá búi, seldi land sitt og flutti til Reed Deer bæjar árið 1901. Indriði var þá orðinn heill af vanheilsu sinni og tók þegar að stunda ýmsa vinnu í bænum og í grennd; sat hann um sinn yfir meiri hluta af allri samningsvinnu bæjarins; byggði Indriði sjer þar vandað íveruhús úr steini. Indriði komst þá á skömmum tíma yfir miklar eignir. Orðið mun Indriði hafa fyrir sköðum af samningsrofi sumra þeirra, er hann vann fyrir og hefir það þá eðlilega haft slæm áhrif á fjárhag hans. Þeim hjónum hefir orðið níu barna auðið, af þeim lifa átta, sum þegar fulltíða. Indriði Reinholt er að mörgu velgefinn maður, hann er vel viti borinn, höfðinglyndur, kjarkmikill og framsækinn og liggur síst á liði sínu, meðan honum tilvinnst; og þótt honum hafi um sinn orðið fjefátt, verður hann ætíð talinn mikilhæfur og dugandi maður. Mjer hefir stundum komið í hug, hvort að Indriði Reinholt, myndi ætíð hafa gefið sjer tóm, til að athuga hagfræðislega kostnaðinn við hvað

eina, til samanburðar við inntektirnar; hvort hann stundum hafi ekki vogað til þess óvissa helzt of mikið.

## 47. ÞÁTTUR.

**Jónas Jónsson.** Jónas er Skagfirðingur í báðar ættir. Maður er Jón nefndur Bjarnason, hann bjó á bæ þeim í Skagafirði, er Álptagerði heitir, niður frá Víðimýri, bjó hann þar litlu eptir aldamótin 1800, fram um árið 1830 eða máske lengur. Bróður átti Jón í Álptagerði, sem Bjarni hjet; hann bjó á Sjávarborg, hann var faðir Bjarna á Daðastöðum, föður síra Þorkels á Reynivöllum í Kjós. Jón í Álptagerði var sagður spakur að viti, stilltur í lund og gætinn. Jón átti tvo sonu, Jónas og Bjarna; þeir



fæddust upp með föður sínum til fullorðins ára og voru atgjörfismenn um flest, þótti þó Jónas bera langt af, sem síðar gaf raun vitni. Hann var afburðamaður að líkamsatgjörvi og spekingur að viti; var hann oft sóttur heim að ráðum, þegar málin tóku að vandast og þóttu viðsjárverð; leysti hann svo vandræði margra manna. Sagði svo Kristján Kristjánsson sýslumaður í Húnaþingi, síðar amtmað-

ur, að ,,sá yrði að hafa vit í höfði og bein í hendi, sem dragi hlut úr hendi Jónasar á Syðstavatni''. Hann var hollráður og tryggur vinum sínum, en eigi gjörði hann sér alla að vinum, og ekki þótti dælt við hann að fást, er hann snerist á móti. Jónas var talinn vel menntaður á þeim tíma og fróður um margt, hann stundaði lækningar og var heppinn og áreiðanlegur í þeim efnum. Jónas átti konu þá er Sigurlaug hjet, hún var dóttir Einars á Yztavatni; þau hjón Jónas og Sigurlaug áttu tvö börn, Jón og Ingibjörgu. Jónar bjó lengi á Syðstavatni og dó þar. Jónas átti eina dóttir áður hann kvæntist, Guðrúnu að nafni; hana átti Sveinn Guðmundarson í Sölvanesi; móðir Guðrúnar hjet Margrjet Eiríksdóttir. Ingibjörgu dóttur Jónasar átti Bjarni Skúlason, sem lengi bjó á Álfgeirsvöllum og Syðstavatni. Jón Jónasson kvæntist konu þeirri er María hjet, dóttir Rögnvaldar bónda á Skíðastöðum í Lýtingsstaðahreppi, Þorvaldssonar, Kristjánssonar frá Kimbastöðum í Borgarsveit. Móðir Maríu var Ingbjörg Guðmundardóttir frá Mælifellsá. Guðmundur á Mælifellsá átti fyrir konu, Rannveigu Skúladóttur frá Axlarhaga; systir Rannveigar var Ingibjörg kona Þorsteins Pálssonar á Reykjavöllum, hans son var Skúli, faðir Guðmundar þess er bjó lengi á Reykjavöllum, en flutti vestur um haf, litlu eptir 1870, faðir þeirra lögmannanna Barða og Skúla í Grand Forks, N.-Dakota. Jón Jónasson var vel gefinn maður um flest og hinn bezti drengur í allri raun; hafði ljósar og skýrar gáfur, var lipurmenni og alúðarmaður í allri framkomu sinni við alla. Hann stundaði lækningar, bæði heima á Íslandi og eptir að hann kom til þessa lands, með alúð og vandvirkni, og heppnaðist það í flestum tilfellum vel. En mest var um það vert, að öll hans framkoma í orði og verki, bar órækan vott þess, að hann var góður

maður. Þau Jón og María eignuðust átta börn; af þeim eru á lífi þrjú: Jónas, sem þessi þáttur talar um og tvær systur, Anna Guðrún, gipt Samsyni Bjarnasyni, bónda í Pembina-hjeraði, N.-Dakota, og Ingibjörg, gipt Helga Sigurði Helgasyni, tónfræðingi frá Reykjavík; voru þeir Helgi faðir hans og Jónas Helgason, söngstjóri við dómkirkjuna í Reykjavík, bræður. Jón og María bjuggu fyrst á Syðstavatni nokkur ár, en þaðan fiuttu þau að Saurbæ í sömu sveit og bjuggu þar þangað til árið 1876, að þau fluttu vestur um haf til Nýja-Íslands og voru þar þrjú ár. Þaðan fluttu þau árið 1879, suður til Pembina-Læjar í N.-Dakota. Þaðan flutti Jón til íslenzku byggðarinnar í grennd við Hallson-pósthús; fór þaðan aptur til Pembina; þar missti Jón konu sína árið 1883; fjell Jóni það mjög þungt og undi lítt hag sínum eptir það. Tveimur árum síðar, árið 1885, fór Jón læknir til Íslands; giptist hann þar þá öðru sinni. Jarðþrúði Jónsdóttir. Mun Jón þá hafa ætlað sjer að setjast um kyrrt á ættjörðu sinni, en eigi varð það og hvarf hann hingað aptur vestur um haf; hjelt hann þá enn til Dakota með konu sína. Jón læknir dó árið 1887 í Hamilton, hjá Önnu Guðrúnu dóttur sinni. Með seinni konu sinni, átti Jón læknir tvö börn, pilt og stúlku; pilturinn dó ungur, en stúlkan Margrjet að heiti, er enn á lífi í Dakota. Eptir að Jón flutti til Dakota, nam Jónas sonur hans land austur frá Hallson. Árið 1887 kvæntist Jónas, ungfrú Ingibjörgu Arnveigu Sigfúsdóttur Gíslasonar, Ólafssonar frá Húsey í Vallhólmi í Skagafirði. Móðir Sigfúsar var Rannveig Sigfúsdóttir bónda á Svaðastöðum í Blönduhlíð, en móðir Rannveigar á Svaðastöðum var Guðrún Skúladóttir á Skíðastöðum í Lýtingsstaðahreppi. Móðir Guðrúnar á Skíðastöðum, var Vigdís Magnúsdóttir; var Vigdís sögð laundóttir Halldórs biskups á Hólum í Hjaltadal. Systur Guðrúnar á Skíðastöð-

um voru þær: Rannveig Skúladóttir á Mælifellsá, móðir Ingibjargar Guðmundardóttir á Skíðastöðum og Ingibjörg Skúladóttir, kona Þorsteins Pálssonar á Reykjavöllum, föður Skúla föður Guðmundar, sem lengi bjó á Reykjavöllum og áður er getið. Móðir Gísla í Húsey Ólafssonar, var Helga Aradóttir, systir Margrjetar Aradóttur, móður Jóns prófasts Konráðssonar á Mælifelli. Móðir Ingibjargar Arnveigar Sigfússdóttur, var Rannveig Árnadóttir bónda á Bakka í Vallhólmi, Gíslasonar, hreppstjóra í Hofstaðaseli í Blönduhlíð, Árnasonar. Móðir Árna á Bakka hjet Hólmfríður Skúladóttir, en móðir Rannveigar á Bakka, var Guðbjörg Gísladóttir, Jónssonar, prests að Hólum í Hjaltadal; foreldrar Gísla prests voru: Jón biskup Teitsson og Margrjet Finnsdóttir, biskups í Skálholti. Móðir Guðbjargar var Ingigerður Halldórsdóttir, Hjálmarssonar, conrectors við Hólaskóla. Systkini Gísla prests munu þau hafa verið: síra Jón prófastur Jónsson á Auðkúlu í Svínadal í Húnaþingi—drukknaður í Svínavatni—og Katrín kona Einars umboðshaldara Stefánssonar á Reynistað í Skagafirði. Jónas er fæddur á Syðstavatni árið 1858; ólst hrnn upp hjá foreldrum sínum og fylgdist með þeim vestur um haf, sem fyr segir, til Nýja-Íslands og þaðan suður til N.-Dakota; frá Dakota flutti hann vestur til Alberta, árið 1889; settist hann að í Calgary og var þar fimm ár; vann Jónas þar mest við smíðavinnu. Árið 1894, flutti Jónas norður til íslenzku byggðarinnar norðan Red Deer og staðfestist þar; nam hann þá land það, sem Ólafur frá Espihóli settist fyrst á og þar næst Sigurður Jónsson, að austanverður við Medecine-ána, þar sem Markerville er nú; er bærinn byggður úr landi Jónasar. Jónas kom til Alberta nær því fjelaus, en mjög hefir hagur hans breytzt til hins betra; hefir nú gott og arðsamt bú og líður vel. Jónas er sjálfstæður maður og vel gefinn að

flestu, verkhagur á allt, sem hann leggur hönd á. Stefnufastur er hann og lítt fyrir að láta hlut sinn, svipar honum um margt til forfeðra sinna og glöggt má þekkja hjá honum ýmsa eiginlegleika afa hans, Jónasar á Syðstavatni; raunbezti maður er hann, sem Jón sál. læknir faðir hans, tryggur og vinfastur. Ingibjörg Rannveig, kona Jónasar, er fædd á löngumýri í Vallhólmi í Skagafirði árið 1865; bjó faðir hennar þar og einnig í Húsey. Ólst Ingibjörg upp með foreldrum sínum og fór með þeim vestur um haf; systkini Ingibjargar, sem lifa eru: Jón Sigfússon (J. S. Gillies) bóndi við Morden, Man., mikilhæfur maður og drengur góður og Rannveig Sigfúsdóttir, bústýra Árna Pálssonar, bónda við Markerville, Alta; annar bróðir Ingibjargar var Árni Sigfússon, bóndi við Morden, Man., dó veturinn 1911. Foreldrar Ingibjargar eru enn á lífi; búa þau á eignarjörð sinni við Morden, Man., í grennd við Jón son sinn. Bæði eru þau háöldruð, Sigfús 87 ára, en Rannveig 76; bæði eru enn ern, svo fágætt er á þeim aldri; sjeð hef jeg nú rithönd Sigfúsar og er það með afbrigðum, hvað læsilega hann skrifar enn, svo gamall maður. Kona Jóns Bjarnasonar í Álptagerði, móðir Jónasar á Syðstavatni, hjet Anna Jónsdóttir frá Víðimýri.

---

Hjer að framan, hefir þá verið skýrt frá landnámi Íslendinga í Alberta-nýlendunni á tímabilinu frá 1890 til 1900; þó varð jeg að sleppa nokkrum landnemum sem tilheyrðu þessu tímabili; hefði jeg ekki gjört það, mundi þessi kafli, hafa tekið upp meira rúm, en ástæður ,,útgefandans" þoldu í þetta sinn. Þessir áminstu landnámsmenn, verða því taldir í IV. kafla sögunnar, sem verður gefin út í Almanakinu fyrir árið 1913, að því eg bezt veit. Nokkrar leiðréttingar við II. kafla fylgja hér með; fleira hefði þurft að athuga, en sem verður að bíða betri hentugleika.

## Leiðrjettingar við II. kafla.

6. þætti. Ranghermt er það, að Norðurárdalur sje í Borgarfjarðarsýslu, hann tilheyrir Mýrasýslu.

8. þætti. Rangt er það, að Guðmundur Jónsson ætti dóttur, sem Þuríður hjeti; einnig er það ekki rjett, að kona Guðmundar dæi á Íslandi, hún dó í Grafton, N.-Dakota.

11. þætti. Tvær málsgreinar eru þar algjörlega rangfærðar, þær eiga að lesast þannig: Guðmundur sá, var Sveinsson, bróðir Sölva gamla á Syðri-Löngumýri í Blöndudal, föður þeirra Sölva og Sigurðar, er fóru vestur um haf. Sölvi gamli var prúðmenni hið mesta og laglega skáldmæltur; hagmæltir voru og þeir synir hans, Sölvi þó langt framar; hann var spekingur að viti og slingur hagyrðingur, en glettinn og napur í kveðskap.

Í 18. línu að ofan lesist: Tvær dætur misstu þau; önnur tveggja ára.

14. þætti. Rangt er það, að Guðmundur faðir Stepháns skálds, dæi í Wisconsin, hann dó í Dakota. Villa er það, að Stephán hafi giptzt 1889, á að lesast 1878 Einnig hafa fallið úr tvö orð, á að vera veikir og fáir.

19. þætti. Hefir fallið úr á eptir orðunum: ,,sumarið 1890“: þau Guðmundur og Guðbjörg hafa eignast þrjú börn: Þórdísi og Aðalstein, sem dóu bæði ung; annar sonur þeirra lifir, Björn að nafni, 16 ára gamall.

Í 5. línu að ofan lesist: bróðir.

---

# AFI TEKINN AÐ LÁNI.

*Eftir Don Mark Lemon.*

———

,,Viltu gera svo vel og lána okkur gólfsóflnn þinn og sorpspaðann?"

,,Ja nú er heima!" varð Mrs. Allen að orði; hún stóð í eldhúsdyrunum og virti fyrir sér stúlkubarn lítið og skarpleitt, er stóð úti fyrir. "Lána hjá mér gólfsófl og sorpspaða?"

,,Já, madama, ef þú vilt gera svo vel. Við erum að flytja inn í næsta hús fyrir norðan og dótið okkar er ókomið".

"Kond' inn, barn", sagði Mrs. Allen, þýðlega, og leiddi stúlkubarnið inn. ,,Það er sjálfsagt, ef dótið ykkar er ókomið, þá máttu fá lánaðan sóflinn og sorpspaðann, en þú verður að skila þeim undireins og þið eruð búin að halda á þeim".

,,*Yes ma'am*".

,,Eg vona að fólkið þitt kunni vel við sig á nýja staðnum", sagði Mrs. Allen, alúðlega; hana langaði til að fá að heyra eitthvað meira af nýja nágranna fólkinu".

,,*Yes ma'am*, við vonum það líka, og við vildum óska að okkur falli við nágrannana". Barnið greip upp rykspaðann og strásóflinn. ,,Og megum við fá fjaðrasópinn þinn líka?"

,,Fjaðrasópinn minn?"

,,*Yes ma'am*. En ef þú átt engan til, þá sagði

mamma mér, að reyna við fólkið í græna húsinu stóra, hinumegin við götuna".

,,Nú, jæja, ætl' þú megir ekki fá minn". Mrs. Allen tók fjaðrasópinn ofan af snaga og lét hann faras ömu leiðina og hitt. ,,Flýttu þér nú heim og hjálpaðu henni mömmu þinni til, og mundu að skila öllu aftur undireins og þið eruð búin að halda á því. Og vertu nú væn lítil stúlka!"

,,*Yes ma'am*, eg skal muna það". Barnið fór sína leið, en Mrs. Allen kveið fyrir því með sjálfri sér, að fá fólk í nágrennið, sem alla tíð væri að biðja um að lána sér eitthvað.

Eftir tæpa klukkustund kom litla stúlkan aftur, spaða laus og sóba laus og bað um að lána sér tekönnu.

,,Hvað er að tarna, barn, þú hefir ennþá ekki skilað aftur því sem þér var lánað" mælti Mrs. Allen.

,,*No ma'am*, ekki ennþá. Húsið er fjarskalega óhreint og mamma segir, að það taki líklega allan daginn á morgun, að gera það hreint".

Mrs. Allen setti hljóða. Sóflarnir hennar, og báðir nýjir, þar að auki. Þeir mundu verða betri eftir, þegar þeir kæmu úr láninu!

,,*Please, ma'am*",sagði litla stúlkan rauðhærða, og lét ekki svipinn á hinni fá á sig hið minsta, ,,megum við fá tekönnuna þína?

Mrs. Allen langaði í svip til að löðrunga freknóttu kinnarnar á barninu, en hún hugsaði til heiðingjanna, og hugsaði með sér, að það væri kristileg skylda sín, að skoða þessa bónbjarga nágranna eins og heiðingja, og breyta ekki ver við þá heldur en villimennina Senegambia. Hún sótti eirkönnuna sína og fekk telpunni.

,,Þú mátt fá hana með því móti, að þú skilir til henn-

ar móður þinnar, að hún verði að skila henni aftur fyrir klukkan hálf fimm í kvöld''.

,,*Yes ma'am*''. Barnið sneri burt með könnuna, en mundi þá eftir nokkru. ,,Ó, *if you please ma'am*, viltu lána okkur svolítið te. Svart ef þú átt það til, en annars er grænt fullgott.

,,Þú vilt fá te líka!'' sagði Mrs. Allen seinlega. ,,Langar þig að fá sykur með því?''

*Yes ma'am*. En pabbi segir, að það sé ekki vert að fá alt til láns í sama húsinu, því að sumt fólk geti orðið súrt á svipinn.

,,Þú átt þá föður?'' spurði Mrs. Allen fljótlega, eins og hún hefði beðið eftir að koma spurningunni að, og vildi vita vissu sína um vafamál.

,,*Yes ma'am*, tvo''

,,Tvo feður? Hvað ertu að segja, barn?''

,,Annað þeirra er afi'', svaraði telpan.

Mrs. Allen hló við kuldahlátur og spurði: ,,Fekstu hann að láni?''

,,*No ma'am*, en þú mátt það, ef þú vilt''.

,,Má hvað, greyið mitt?''

,,Fá hann afa lánaðan''.

,,Eg ætti nú ekki annað eftir, en að fara að lána hann afa þinn!'' mælti Mrs. Aleln. Hún varð reið að hugsa til þess ,,Eða hvers annars afa sem vera skal. Hlauptu nú heim og mundu að eg þarf að brúka könnuna klukkan hálf fimm í kvöld''.

Barnið kinkaði kollinum og rendi augunum, hvössum, blágrænum um alt húsið, eins og hún væri að sjá út hvað hún ætti að fá að láni næst.

Mrs. Allen var fyrst gröm við sjálfa sig, að lána þessa muni út úr höndunum á sér, en hratt því frá sér von bráðar og hugsaði sem svo: ,,Það væri enginn vandi, að

gera skyldu sína, ef mabur þarf aldrei annað að gera en gott þykir, og eg þykist vita, að það sé skylda mín að hjálpa nágrönnum mínum. En eg ætla að vona, að það brúki gamlan strásófl á versta skítinn hjá sér.

Klukkan var hálf fimm, en engin sást telpan með rautt hár og tekönnu úr eir. Mrs. Allen fór að verða einbeitt á svipinn.

,,Jæja, þá það. Eg er búin að gera mína skyldu. það fær ekkert meira lánað hjá mér''.

Maðurinn hennar kom heim af skrifstofunui klukkan sex. Þá kom afi húsmóðurinnar ofan af lofti og settist fram í eldhús hjá stónni. Hún sagði þeim hið ljósasta frá nýju nágrönnunum og kvabbi þeirra.

,,Nú nú Beta'', sagði húsbóndinn hlægjandi. ,,Þetta eru sjálfsagt Tyrkir eða Tartarar. Vertu ekki að eyða ofmikilli góðvild á þá''.

,,Eg held eg þekki svona fólk'', sagði sá aldraði. ,,Það kvabbar af þér alt sem þú getur við þig losað, bæði innan stokks og utan, ef það getur''. Hann kinkaði kollinum spekingslega. ,,Það þori eg að segja, bæði innan stokks og utan''.

,,Það skal ekki fá svo mikið sem títuprjón hjá mér, héreftir'', sagði Mrs. Allen, og bar á borð í óða önn. ,,Bezta fjaðrasóflinn minn og strásóflinn, eins og það hús var líka útleikið, þegar Wilsons fólkið fór úr því!''

En Mrs. Allen var ekki eins hörð í sér eins og hún lét. Daginn eftir, um hádegið, kom rauðhærða telpan enn að eldhúsdyrunum og bað hana að lána sér ísmolann hennar, og þá varð henni ekki annað að orði en þetta:

,,Lána ísmolann minn?''

,,*Yes ma'am* Unga barnið er veikt, og ef þú vilt svo vel gera þá skal eg koma með ísinn rétt strax aftur''.

,,Koma með hann aftur, þegar búið er að brúka hann handa veiku barni! Þú skalt ekki hugsa um það, telpa

mín, þér er velkomið að fá molann og eiga hann". Mrs. Allen tæmdi ís-skápinn hjá sér, vafði klakann í dagblað og fekk telpunni. ,,Það er slæmt að unga barnið skuli vera veikt! Eg vona að því batni fljótt aftur. En hvernig stendur á því barn, að þið hafið ekki skilað mér aftur strásóflinum og sorpspaðanum og fjaðrasópinum og tekönnunni? Manstu ekki að eg sagði þér að eg þyrfti á þeim að halda sjálf?"

,,*Yes ma'am*, en barnið var veikt í alla nótt. Eg fekk lánaða mjólk hjá fólkinu í græna húsinu hinu megin, og hún hlýtur að hafa verið súr, og svo gleymdi eg alveg að skila þessu aftur".

,,Hvað er að heyra að tarna barn, þurfið þið líka að fá lánað til að borða?" spurði Mrs. Allen, og var mikið niðri fyrir.

Sá gamli hafði staðið upp úr sæti sínu og kom nú röltandi til að vita hvað um væri að vera. Litla stúlkan svaraði ekki spurningunni, leit ekki einu sinni við hinni þriflegu Mrs. Allen, heldur starði á gamla manninn með miklum gleðisvip, þangað til hún hrópaði upp yfir sig:

,,Ó, en hvað þetta er hreinn og fallegur afi!"

Mrs. Allen var væn kona í rauninni, og rann öll þykkja, því hana tók sárt til litlu stúlkunnar rauðhærðu, að afi hennar skyldi ekki vera hreinn og fallegur.

,,Hlauptu nú heim, góða mín, og ef barninu versnar, þá segðu henni mömmu þinni, að senda eftir Dr. Brown.

*Yes ma'am*. Litla stúlkan tók augun af öldungnum og flýtti sér burt með klakann.

,,Það er skerpa í þessum krakka", sagði Allen afi hlægjandi. ,,Heyrðurðu hvað hún sagði, Beta, að eg væri hreinn og fallegur gamall maður?"

,,Já afi, öllum þykir vænt um þig", sagði Mrs. Allen og leiddi öldunginn að sæti hans. Hann hafði tvo um

áttrætt, og smá reri sér kýmandi, einfaldur og hégómlegur eins og börn og gamalmenni eru vön að vera.

Allan seinni hluta þess dags rendi Mrs. Allen huganum oft til nágrannans og ávítaði sjálfa sig öðru hvoru. ,,Eg er ekki kristin, nema til hálfs, annars hefði eg komið til þeirra fyrir löngu. En eg hef ekki haft tíma til þess, og eg get ekki að því gert, að mér er dauð illa við nágranna, sem altaf eru síkvabbandi. Hvað um það, eg skal fara þangað á morgun og eg vona, að það haldi ekki að það sé í því skyni gert, að ganga eftir þessum munum, sem eg hef lánað því''.

En næsta morgun, áður en Mrs. Allen var tilbúin að fara, kom litla stúlkan rauðhærða. Það var búið að þvo henni í framan svo að gljáði á hverja freknu og rauða hárið var slétt kembt aftur af kolli og bundið saman í hnal.kanum með heiðgulu bandi.

,,*Oh, please ma'am*'', sagði hún og blés mæðinni eftir hlaupin, ,,megum við lána hann afa þinn?''

Mr. Allen trúði ekki sínum eigin eyrum. ,,Lána hann afa minn?''

,,*Yes ma'am, if you please.* Við eigum von á prestinum, og hann afi okkar er ekki nógu þokkalegur til að vera með fínum gestum''.

,,Ja hérna'', Mrs. Allen stakk höndunum undir svuntuna og starði á barnið.

,,*If you please, ma'am,* Eg veit við höfum ekki skilað strásólflinum og sorpspaðanum og fjaðrasópinum og tekönnunni, en eg skal lofa og líka enda það, að eg skal koma með hann aftur fyrir kvöldmatinn''.

Hún mændi augunum, hvössum og blágrænum fram hjá Mrs. Allen. ,,Hérna kemur hann, m*a'a*m. Ó, eg veit við megum lána hann, af því eg sagði að þú mættir fá okkar''.

,,Hvað er barnið að biðja um, Beta?" spurði Allen afi og ruggaði til þeirra við staf sinn.

,,Hún er að biðja um að fá þig lánaðan", svaraði Mrs. Allen alveg forviða.

Allen afi pikkaði stafnum sínum í gólfið næsta hróðugur. ,,Hvað sagði eg þér, Beta? Reglulega skarpur krakki! Langar til að fá lánaðan hreinan og fallegan afa, hva? Öldungurinn sneri sér að húsmóðurinni: ,,Hvar er hatturinn minn, Beta?"

,,Guð sé oss næstur, Allen afi! Þú ætlar þó ekki að láta lána þig—eins og tekönnu?"

,,Því þá ekki?" spurði sá aldraði.

,,Ó, gaman,gaman",hrópaði litla rauðhærða stúlkan.

Mrs. Allen leit á afa og barnið á víxl. Hún sá þráasvipinn á þeim gamla og kannaðist vel við hann. Hann hafði einhvernveginn fengið þokka til barnsins og vildi ekki annað en fara í lánið. Hún sneri burt og stundi við, sótti hatt og hálsklút gamla mannsins og horfði á eftir þeim, þar til þau hurfu fyrir bugðu á götunni, sneri síðan aftur inn í eldhúsið.

Áður en hálf klukkustund var liðin, var Mrs. Allen búin að ná sér,og gremjan fékk yfirhönd yfir hennar kristilegu þolinmæði. ,,Lána hann afa minn sjálfan!" sagði hún við sjálfa sig. ,,Hvað ætla Robert segi við mig? Beta Allen, þú ert heiðingji!"

Hún leysti af sér svuntuna, setti upp hatt,lokaði húsinu og gekk rösklega, þó gildleg væri, ofan götuna, að húsi nýja nágrannans. Þegar hún nálgaðist það, þá fyltist hún kvíða. Það sýndist vera alveg autt og mannlaust. Hún flýtti sér gegn um hliðið upp á dyrapallinn. Hurðin var opin í hálfa gátt og ekki bætti það um, að hún sá engin föt né húsmuni í fordyrinu.

,,Hér er eitthvað öðruvísi en á að vera", hugsaði hún

með sjálfri sér. ,,Ó, ef eitthvað hefir orðið að honum afa, þá skal eg aldrei fyrirgefa þér, Beta Allen. Aldrei, aldrei!"

Þá heyrði hún mannamál innan úr einni stofunni og þekti rödd afa síns; hún gekk inn í forstofuna og tók ekki eftir því að hún hafði ekki barið og var því óheimilt að ganga inn.

Húsið var að sjá alslaust og fólkið talaði í hálfum hljóðum, en við hvorugu hafði Mrs. Allen búist hjá þeim, sem gengu á öðrum með bónakvabbi. Kvíði og forvitni rak hana áfram að því herbergi sem mannamálið kom frá.

Hurðin var opin á gátt og hún leit inn. Rúm stóð þar upp við vegg, í því lá kona ljóshærð, fölleit og bláeygð og dró andann títt og erviðlega. Maður stóð við rúmið og sneri baki við dyrum; Mrs. Allen þekti af búningnum að það var presturinn í þorpinu. Við fótagaflinn stóð rauðhærða telpan og hélt í hendina á Allen afa, en á rúminu sat piltbarn og lék sér; það hafði ljóst hár og falleg blá augu eins og hún móðir hans.

Mrs. Allen ræskti sig, og við það sneri presturinn sér skyndilega við.

,,Mrs Allen! Eg er feginn að kvenmaður skyldi koma hér!" Hann flýtti sér fram að dyrunum og mælti fljótt og í hálfum hljóðum. ,,Ó, Mrs. Allen, hér er auma aðkoman. Móðirin og ungbarnið hafa verið hér alein í marga daga, og enginn til að hugsa um þau nema litla telpan þarna. Þau eru allslaus og hafa ekki lifað á öðru en því sem hún hefir lánað hjá nágrönnunum. Dr. Brown er nýfarinn héðan og sagðist ekkert geta að gert, aumingja konan væri komin að dauða. Vilt þú ekki gera eitthvað til að bæta úr bágindum hennar?

,,Það er sjálfsagt". Mrs. Allen gekk að rúminu og tók í hendina á hinni sjúku, ,,Blessaður auminginn",

mælti hún, ,,því léstu ekki einhverja konuna vita af því, góða, að þú varst veik?"

Hin sjúka reyndi til að rísa upp,en hún var svo máttfarin að hún gat það ekki.

,,Ó, eg er ókvíðin um sjálfa mig, heldur aumingja ungu börnin mín! Hvað ætla verði um þau ef eg dey?

Mrs. Allen þaggaði niður í henni þýðlega. ,,Vertu ekki að hugsa um það núna. Þú skalt koma heim til mín og vera hjá mér þangað til þér er alveg batnað".

Hin sjúka brosti með gleðisvip. ,,Viltu halda í hendina á mér svolitla stund? Eg finn að eg má treysta þér".

Hin bláu bænaraugu lukust aftur, þreytulegt andvarp leið upp frá hinum fölvu vörum.

Mrs. Allen hélt í hina hvítu hönd um stund, alveg hreyfingarlausa, — unz kuldinn sagði til að öndin var skilin við líkamann svo kyrt og hljóðlega. Þá lagði hún hægt niður höndina og leit á litlu stúlkuna við fótagaflinn.

,,Hún mamma þín er sofnuð, góða mín", sagði hún mjög þýðlega. ,,Við skulum taka unga barnið með okkur heim til mín, svo að hún móðir þín geti hvílt sig vært og lengi".

,,*Please ma'am*", sagði barnið, ,,þú mátt ekki verða vond við mig fyrir að segja svona óttalega ósatt, að við hefðum tvo feður, þó við ættum engan, og fyrir að skila ekki aftur því sem eg fekk lánað, af því við mamma vildum ekki láta fólk vita að við værum svona fátækar, og *please ma'am* hérna er hann afi þinn, sem eg fekk lánaðan".

Presturinn sneri sér undan, þegar Mrs. Allen beygði sig og tók barnið í fangið.

,,Blessaður munaðarleysinginn með alla hugprýðina", sagði hún og komst við. ,,Það hefir alla tíð verið auðn í hjarta mínu, síðan hún Jennie mín litla dó, og þar hugsa eg að þið komist bæði fyrir, þú og ungbarnið hann bróðir þinn".

Allen afi stakk stafnum sínum hægt ofan í gólfið og kínkaði kollinum við unga barninu, það sat við fótagaflinn í rúminu og hjalaði í móti honum.

(K. S. þýddi).

## HELZTU VIÐBURÐIR OG MANNALÁT MEÐAL ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI.

---

Vorið 1911 úrskrifuðust úr College-deild Manitobaháskólans.

Stefán Bjarnason,
Jóhann G. Jóhannsson,
Baldur Jónsson,
Walter Lindal.

---

Vorið 1911 tók Jón Stefánsson fullnaðarpróf við læknaskólann í Winnipeg með I. einkunn og var skömmu seinna veitt læknisstaða við almenna spítalann í Winnipeg. Jón er sonur Stefáns Péturssonar og fyrri konu hans Guðrúnar Jónsdóttur, er um eitt skeið bjuggu í Sigluvík við Eyjafjörð. Býr faðir hans nú í Argyle-bygð í Manitoba.

---

Háskóli Manítobafylkis heiðraði síra Hjört J. Leó prest Þingvallanýlendu-safnaðar með *M. A.* nafnbót við háskólaprófin 1911. Var sú nafnbót veitt fyrir ritgerð um ritvissu Jóhannesar guðspjalls.

---

30. apríl 1911 prestvígðist guðfræðis-kandídat Carl J. Olson í kirkju St. Pálsssafnaðar í Minneota. Forseti kirkjufél. síra Björn B. Jónsson framkvæmdi vígsluna. Hann útskrifaðist frá prestaskólanum í Chicago nokkru fyrr í sama mánuði. Foreldrar hans eru Jónas Ólafsson og kona hans Katrín er búa í Minneota, Minn.

---

18. júní 1911 var guðfræðis-kanídat Haraldur Sigmar, prestvígður af forseta kir' jufélagsins síra Birni B. Jónssyni í kirkju Frelsissafnaðar í Argyle-bygð. Útskrif-

aðist frá prestaskóla Gen. Councils í Chicago í apríl sama ár. Hann er sonur Sigmars Sigurjónssonar frá Einarsstöðum í Reykjadal í Þingeyjarsýslu og konu hans Guðrúnar Kristjánsdóttir frá Hólum í sömu sveit, er nú búa í Argyle-bygð í Manitoba.

---

6. ágúst 1911 var vígð kirkja Þingvallanýlendu safnarar í Sask.

---

**Leiðrétting.**

Í almanakinu síðastl. ár var þess getið að Leifur Magnússon frá Duluth hefði unnið Cecil Rhodes verðlaunin. Fréttin var tekin úr öðru ísl. vikublaðinu í Winnipeg er flutti hana snemma á árinu 1910. En eftir að almanakið er komið út um nýár 1911, er lýst yfir því af hlutaðeigendum að þetta sé missögn, hann hafi ekki unnið þessi verðlaun. Hefði þessi missögn strax verið leiðrétt, hefði hún aldrei komist í almanakið.

---

MANNALÁT.

18. ágúst 1909: Ingunn Jóhannesdóttir til heimilis hjá syni sínum Jóhannesi Jónssyni bónda í Siglunesbygð í Manitoba (frá Fossvöllum í Norður-Múlas), 73 ára.

15. okt. 1909: Jón Jónsson bóndi við Wild Oak pósthús i Manitoba (ættaður úr Þingeyjarsýslu; bræðrungur Þorst. Gíslasonar, ritstjóra í Rvík).

4. marz 1910: Jóhannes Kjartan, sonur Ólafs Jóhannessonar og konu hans Valgerðar Guðmundsdóttur, er búa við Winnipegosis í Manitoba, 21 árs.

13. sept. 1910: Hallgrímur Jósafatsson til heimilis á Baldur, Man. (fæddur á Ási í Kelduhverfi í Þingeyjars. 1856. Foreldrar hans: Jósafat Gestsson og Helga Hallgrímdóttir).

29. nóv. 1910: Sigurður Guðmundsson í Winnipeg, ekkja hans heitir Sólrún Sigurbjörg Guðmundsdóttir (bjuggu á Haukabrekku í Snæfellsnessýslu), 48 ára.

1. des. 1910: Gísli Gíslason í Spanish Fork, Utah,

(ekkja hans heitir Steinunn Þorsteinsdóttir frá Jónshúsum í Vestmannaeyjum. Foreldrar hans, Gísli Brynjólfsson og Þorbjörg Þorsteinsdóttir, er eitt sinn bjuggu á Hóli undir Eyjafjöllum), 66 ára.

6. des. 1910: Björn Hermannsson, til heimilis hjá tengdasyni sínum Steindóri Árnasyni í Nýja-Íslandi (frá Selstöðum við Seyðisfjörð), 77 ára.

10. des. 1910: Guðbjörg Magnúsdóttir til heimilis á Baldur, Man. (ættuð úr Þingeyjarsýslu), öldruð kona.

12. des. 1910: Snjólaug Jónsdóttir, kona Jóns Jónssonar í Selkirk, dóttir Jóns bónda Björnssonar og konu hans Margrétar í Nýja-Íslandi, 23 ára.

12. des. 1910: Ragnhildur, dóttir hjónanna Skúla og Halldóru Johnson í Victoriu, B. C., 17 ára.

18. des. 1910: Vigdís, kona Paul Johnston í Winnipeg; dóttir H. S. Bardals, bóksala, 26 ára.

19. des. 1910: Magnús Johnson bóndi í Pembina County í N.-Dak. fæddur á Hóli í Öxnadal í Eyjafj.s. 15-nóv. 1848. Heitir ekkja hans Rósa Guðlaugsdóttir frá Steinkirkju í Fnjóskadal í Þingeyjars. Fluttu hingað vestur 1874.

24. des. 1910: Guðmundur Kristjánsson, Mattíasson (frá Hliði á Álftanesi), til heimilis í New Brunswick í Canada, 67 ára.

28. des. 1910: Helga Soffía Bjarnadóttir Johnson við Lundar-pósthús í Manitoba, 19 ára.

Í desember 1910: drukknuðu tveir ungir menn í Winnipegvatni: Kristbjörn, sonur Stefáns bónda Sigurðssonar við Árnes-pósthús, eins af frumbyggjum Nýja-Íslands; hét hinn Stefán Jónsson frá Búatöðum í sömu sveit.

JANÚAR 1911:

4 Kristinn Hermannsson, nálægt Seattle, Wash. (ættaður úr Eyjafirði), 60 ára.

5. Margrét Árnadóttir, kona Odds G. Akraness, bónda við Hnausa-pósthús í Nýja-Íslandi, (ættuð af Akranesi), 60 ára.

7. Guðný, ekkja Jóhannesar Magnússonar (frá Langekru í Rangárvallas.,d. 1898. Fluttu þau til Vesturheims 1871 og dvöldu fyrst á Washington eynni,(sjá Almanak 1900). Hún iést í Minneota, 86 ára gömul.

9. Guðbjörg Gísladóttir, kona Hóseasar Björnssonar við Wynyard, Sask. Fædd á Höskuldsstöðum í Breiðdal í S.-Múlas. 1842. Foreldrar hennar, Gísli Þorvarðson og Ingibjörg Einarsdóttlr.

10. Síra Oddur V. Gíslason til heimilis í Winnipeg,75 ára.

11. Þorsteina Júlía, ekkja Þórðar Sigurðssonar, Sigurðssonar frá Rauðamel í Snæfellsness., nú bóndi í Álftavatnsbygð í Man. Hún var dóttir Þorsteins Einarssonar frá Tungunesi í Langaneshrepp í Þingeyjars., 26 ára.

12. Guðmundur Sigurðsson,Sigurðssonar (er bjó á Skeggstöðum í Húnav.s.). Skagfirðingur að ætt. Til heimilis í Winnipeg, 66 ára.

15. Elízabet Jónsdóttir í Lincoln County í Minn., frá Strandhöfn í Vopnafirði, 82 ára.

18. Guðbjörg Hannesdóttir hjá syni sínum Stephani G. Stephanssyni, skálds, við Markerville, Alta.

18. Guðmundur Einarsson við Adelaird-pósthús í Manitoba. Flutti hingað vestur frá Eiði á Langanesi 1888.

22. Þorgerður Jónsdóttir í Spanish Fork, Utah (ættuð úr Austur-Landeyjum í Rangárv.s.), kona Guðmundar Jónssonar,Einarssonar (frá Hámundarfelli í Þistilfirði), 54 ára.

31. Jónas Jónsson bóndi í Árnesbygð í Nýja-Íslandi, heitir ekkja hans Halldóra Ásgrímsdóttir; á Íslandi bjuggu þau sinn búskap allan á Hrærekslæk í Hróarstungu og fluttu þaðan vestur um haf 1876. 85 ára gamall.

FEBRÚAR 1911:

5. Helga Jóhannesdóttir hjá syni sínum Birni Gottskálkssyni, Thorvaldssonar við Pine Valley-pósthús í Man., (ættuð úr Skagafirði), 68 ára.

7. Sigríður Jónsdóttir, ekkja Magnúsar Guðmundssonar

(úr Svarfaðardal í Eyjafj.s.), til keimilis hjá tengdasyni rínnm Ólafi bónda Egilssyni og dóttur, Svöfu, við Wild Oak pósthús í Man., 78 ára.

7. Vigdís Sigurðardóttir, kona Rafns bónda Nordal í Argylebygð.

10. Guðjón Guðjónsson til heimilis í Selkirk, Man., (úr Eyjafirði), 52 ára.

11. Louise Margrét, dóttir Eggerts Oliver og konu hans í Winnipeg, 17 ára.

17. Guðmundur Hafsteinsson að Hallson, N.-Dak., (frá Hrafnabjörgum í Svínadal í Húnavatnssýslu.

18. Kristbjörg Jónsdóttir, kona Ásmundar Ásmundssonar á Baldur, Man., (ættuð úr Þingeyjars.), 83 ára.

19. Una Guðmundson, ekkja Alberts Guðmundssonar í Austurbygð í Minn., 49 ára.

21. Margrét Jónsdóttir, að heimili dóttur-dóttur í New Richmond, Wis., (ættuð úr Húnav.s.), 86 ára.

22. Oddur Jónsson við Mountain, N.-Dak., (ættaður úr Fljótsdalshéraði), um sextugt. Ekkja hans heitir Rósamunda Jónsdóttir.

26. Einar Magnússon Vestfjörð í Mouse River-bygð í N.-Dak. (Foreldrar hans Magnús Einarsson í Skáleyjum á Breiðafirði, Sveinbjarnarsonar frá Svefneyjum og Sigríður Einarsdóttir, Ólafssonar), 82 ára.

27. Sigurbjörg Hannesdóttir, kona Jónasar Miðdal í Winnipeg, (ættuð úr Skagafirði), 54 ára.

27. Kristján Abrahamsson í Winnipeg (fæddur 1853 í Hlíðarhaga í Eyjafirði. Foreldrar hans, Abraham Hallgrímsson og Friðrika Jónsdóttir).

MARZ 1911:

3. Einar, sonur Jóns Vestdal í Wynyard, Sask., 29 ára.

4. Guðrún Runólfsdóttir, ekkja Jóns Daníelssonar (af Fellum í Norður-Múlas.), 88 ára.

5. Guðrún Árnadóttir, kona Sigfúsar Guðmundssonar í Victoria, B. C., (ættuð úr Húnav.s.), 57 ára.

5. Júlíus, sonur Felix Thórdarsonar og konu hans Sigríðar Loptsdóttur í Sayreville, N. J., 20 ára.
7. Árni Sigfússon, bóndi við Brown-pósthús í Manitoba (ættaður úr Skagafirði, sonur Sigfúsar Gíslasonar og Rannveigar Árnadóttur, sem hjá honum dvöldu). Rúml. fertugur.
8. Stefán Jónsson á heimili sonar síns, Skúla við Cavalier, N.-Dak. (úr Skagafirði. Ekkja hans heitir Guðrún Ólafsdóttir), 81 árs.
12. Jón Þórðarson (hafnsögumanns Jónssonar frá Skeri við Eyjafjörð).
20. Þorkell Guðmundsson, bóndi í Lincoln County í Minn. (úr Skagafirði, kona hans Anna Skúladóttir, lézt 17. ág. 1911).
22. Sesselja dóttir þeirra hjóna Stefáns Jónssonar og Sigurbjargar Stefánsdóttur í Watertown, S.-Dak., (frá Leifsstöðum í Vopnafirði), 20 ára.
31. Narfi Halldórsson, til heimilis hjá syni sínum, Guðbrandi, bónda nál. Leslie, Sask., (ættaður úr Árnessýslu. Foreldrar hans: Halldór Sveinsson og Guðrún Narfadóttir er bjuggu á Kálfhóli), 71 árs.

APRÍL 1911:

2. Sigurður Sigurðsson Ísfeld, bóndi í Gardarbygð. (Fæddur í Holtseli i Grundarsókn í Eyjafirði 1843. Foreldrar hans Sigurður Árnason, skálds frá Skútum og Sigríður Þorsteinsdóttir. Heitir ekkja hans Kristín Ófeigsdóttir frá Klausturseli á Jökuldal. Fluttu til Vesturheims 1878).
3. Magðalina Jónatansdóttir, kona Magnúsar bónda Jónssonar í Geysis-bygð í Nýja-Íslandi (úr Húnav.s.).
17. Sigríður Vigfúsdóttir, ekkja Péturs Péturssonar Jökull (d. 1892) til heimilis hjá dóttur sinni, Rósu, konu S. V. Jósephsonar í Lincolu County, Minn. (ættuð af Jökuldal), 74 ára.
17. Guðrún Jónsdóttir, ekkja, hjá syni sínum Einari Sigurðssyni í Minneota, 69 ára.

19. Guðmundur Gúðmundsson í Los Angeles, Cal. Foreldrar hans Guðm. Guðmundsson og fyrri kona hans Guðný Þórðardóttir (ættuð úr Súgandafirði í Ísafj.s.), 23 ára.

23. Grímur Thorðarson bóndi í Gardarbygð. Fæddur á Bjarnastöðum í Hvítársíðu í Borgarfj.s. 1856. Foreldrar hans: Þórður Árnason og Guðrún Grímsdóttir, Steinólfssonar. Flutti vestur 1873.

26. Jónína Gyðríður Jóhannesdóttir, kona Jóhannesar Helgasonar, bónda við Islendingafljót (ættuð úr Borgarfirði eystra), 35 ára.

27. Stefán Jónsson Valberg, bóndi í Þingvallanýlendu í Sask.

28. Þuríður Halldóra Bjarnadóttir, kona Bjarna Helgasonar frá Bruna-Hvammi í N.-Múlas., dóttir Bjarna Jónssonar prests í Reykjahlíð.

28. Guðni E. Lyngdal að Wynyard Sask. Kominn fyrir liðugu ári frá Íslandi.

28. Runólfur Guðmundsson, til heimilis í Cavalier, N.-Dak. (fæddur að Geitdal í S.-Múlas. 1871. Foreldrar hans Guðm. Guðmss. og Rannveig Runólfsd.).

MAÍ 1911:

6. Sigríður Hólmfríður, dóttir J. Ó. Finnbogasonar, kaupm. í Winnipeg, 16 ára.

10. Ástríður Johnson í Winnipeg, ekkja Sigurbjörns heit. Jónssonar frá Stóru-Giljá í Húnav.s.

11. Eiríkur S. Hallson í Winnipeg, 21 árs.

17. Jón Bjarni Hinriksson í Blaine, Wash. (ættaður úr Húnavatns.s.), 31 árs.

17. Guðrún Jónsdóttir, ekkja Vigfúsar Sigurðssonar, bókbindara við Mountain, N.-Dak., ættuð úr Mývatnssveit, 75 ára.

24. Vilborg Ámundadóttir kona Elíasar Jóhannessonar á Gimli (ættuð úr Borgarfirði), 26 ára.

25. Helgi Bergmann, sonur Audrésar Gíslasonar og Sig-

ríðar Jónsdóttur við Siglunes-pósthús í Man., (frá Brimnesi við Seyðisfjörð), 13 ára.

26. Valdemar Davíðsson í Nýja-Íslandi, (úr Axarfirði í N.-Þingeyjars.), 57 ára.

30. Einar Bjarnason, til heimilis í Blaine, Wash. Ekkja bans heitir Steinvör Lárusdóttir, bæði úr Vestmannaeyjum, 48 ára.

31. Abraham, sonur Friðriks bónda Abrahamssonar við Crescent-pósthús í Man., 25 ára.

Árni bóndi Þórðarson í Árdalsbygð í Nýja-Íslandi.

JÚNÍ 1911:

2. Elízabet, kona Jóhanns Árnasonar við Blaine, Wash., 58 ára.

7. Júdit Ingibjörg Guðjónsdóttir, kona Sigurðar Jónssonar á Gimli. Var hún ættuð úr Eyjafirði, 74 ára.

7. Halldór Tryggvi Oleson til heimilis í Cypressbygð í Manitoba, sonur Eyjólfs sál. Jónssonar og seinni konu hans Sigurveigar Sigurðardóttir, Rústikussonar (bæði ættuð úr N.-Múlasýslu), 23 ára.

14. Kári Þórarinsson frá Mozart, Sask., lést í Winnipeg (ættaður úr Snæfellsness.), 54 ára.

15. Ólafur Sígurðsson í Winterquarters, Utah, (ættaður úr Austur-Landeyjum í Rangárv.s.), 52 ára.

22. Jónína Jökull, dóttir Péturs Jökuls yngra í Minneota, 22 ára.

21. Guðný Eiríksdóttir Scheving, hjá syni sínum, Grími, bónda við Lundar-pósthús í Man., 72 ára.

25. Gísli Þorsteinsson, timburmaður, til heimilis hjá syni sínum, Gunnlaugi bónda í Vatnsdalsbygð í Sask., (voru foreldrar hans Þorsteinn Gíslason og Sigríður er bjuggu á Stokkahlöðum í Eyjafirði fyrri hluta síðastl. aldar. Hét kona hans Guðrún Björnsdóttir úr Þistilfirði. Bjuggu þau lengst af á Hallgeirsstöðum á Langanesi), 86 ára.

25. Jarðþrúður Jónsdóttir, hjá tengdasyni sínum Helga

Thorlákssyni við Hensel-pósthús, N.-Dak. Fluttist hingað frá Gautavík í Berufirði í S.-Múlas.; 89 ára.

26. Þorvarður Sigurðsson í Spanish Fork, Utah (ættaður undan Eyjafjöllum), 59 ára.

30. Ásgeir Egilsson í Winnipeg, úr Reykjavík, 26 ára. Þórunn Björg Eiríksdóttir, kona Kristjóns Finnssonar við Íslendingafljót (ættuð úr N.-Múlas.), 46 ára.

JÚLÍ 1911:

4. Anna Þórunn Guðbrandardóttir, kona Kristjáns Thorsteinssonar og dóttir hjónanna Guðbrandar og Sigríðar Erlendssonar við Hallson, N.-Dak., 28 ára.

8. Þorgerður Sveinsdóttir, Eiríkssonar í Winnipeg (fædd í Reykhólum í Reykhólasveit í Barðastrandars.), 26 ára

9. Sigurður Steinsson í Argylebygð. Heitir ekkja hans Friðný Friðriksdóttir. Bjuggu fyrrum á Harðbak í Þingeyjars., 82 ára.

13. Jón Jónsson Skagfjörð bóndi í Árnesbygð í Nýja-Ísl Skagfirskur að ætt, 67 ára.

16. Þórunn Sigurðardóttir, kona Ólafs Magnússonar Raymond, Wash., ættuð úr Rangárvallas., 59 ára.

19. Steinþór, sonur Sigurðar Guðmundssonar bónda Gardarbygð, N.-Dak., (af Langanesi), 29 ára.

22. Guðbjörg Einarsdóttir, kona Karls Jónssonar Hrútfjörðs í Eyfordbygð í N.-Dak., 20 ára.

24. Rannveig Þórðardóttir, kona Jóns Alfred í Winnipeg.

ÁGÚST 1911:

2. Rósbjörg, dóttir þeirra hjóna J. Kr. Einarssonar og konu hans, Önnu, við Mountain, N.-Dak., 16 ára.

4. Guðrún Sigurðardóttir hjá bróðir sínum Sigurvin bónda Sigurðssyni í Clandeboy, Man., ekkja eftir Jónas Stefánsson. Foreldrar hennar voru Margrét Indriðadóttir og Sigurður Kristjánsson bróðir Kristjáns amtmans og þeirra bræðra, 78 ára.

12. Arngrímur J. Arngrímsson, sonur Jóseps bónda Arngrímssonar í Lincoln County, Minn., 27 ára.

13. Helga Sigurðardóttir, kona Baldvins L. Baldvinssonar, ritstjóra Heimskringlu, 45 ára.
13. Jón Kristinn, sonur þeirra hjóna Magnúsar og Eilzabetar Thórarinssonar í Blaine, Wash.
21. Kristján Jónsson Bardal bóndi í Pipestonebygð í Man. (ættaður úr Ljósavatnsskarðinu). Ekkja hans heitir Anna Þórey Árnadóttir, (frá Skútum í Eyjafirði). Fluttu til Vesturheims 1878.
23. Gunnlaugur Magnússon í ísl. bygðinni íMinnesota. Ekkja hans heitir Guðfinna Vilhjálmsdóttir. Fluttu þau til Ameríku 1878 frá Eiðum í Eyðaþinghá. Var hann ættaður úr Hörgárdal í Eyjafjarðars.; 90 ára.
25. Halldóra Marteinsdóttir, kona Árna Sigurðssonar í Winnipeg,(ættuð frá Kleppjárnsstöðum í Hróarstungu í Norður-Múlas.).

SEPTEMBER 1911:

1. Guðrún María Kristjánsdóttir í Selkirk, (ættuð af Akranesi), 30 ára.
1. JónasStefánsson á Gimli,(ættaður úr Skagafirði. Flutti vestur um haf 1874. Einn með fyrstu landnemum Nýja-Íslands. Heitir ekkja hans Steinunn Grímsdóttir, Skagfirsk; 66 ára.
3. Sigurður Guðmundsson, bóndi í Geysisbygð í Nýja-Íslandi, (ættaður úr Kolbeinsdal í Skagaf.), 83 ára.
6. Bjarni Matthíasson í Garðarbygð,þar hjá móður sinni Guðrúnu Bjarnadóttir, (úr Strandasýslu), 34 ára.
12. Þorsteinn Hördal, að heimili sonar síns, Björns bónda við Otto-pósthús í Man., (sonur Jóns hreppstj. Jónssonar á Hlíð í Hörðadal í Dalas.). Einn af fyrstu frumbyggjum Nýja-Íslands, N.-Dakota og Grunnavatnsbygða. 71 árs.
14. Jason Þórðarson í Red Deer í Alberta, (ættaður úr Húnav.s. Flutti hingað 1874 frá Vatnsenda), 77ára.
25. Sigurlína Jónasdóttir, kona Eggerts Arasonar bónda í Árnesbygð í Nýja-Íslandi. Dóttir Jónasar Jónssonar og Elínar Halldórsdóttur er voru á Látrum við Eyjafj.

25. Jóhann Sveinsson, bóndi í Mouse River-bygð í N.-Dak. Voru foreldrar hans Sveinn Sæbjarnarson og Helga Sigurðardóttir á Bæjarstæði í Seyðisfirði. Hafði hann flutt hingað ásamt eftirlifandi ekkju, Bergljótu Erlendsdóttur, árið 1903 frá Gnýstað í Seyðisfirði.
26. Gunnar Oddsson, bóndi í Árdalsbygð í Nýja-Ísl. (úr Kjósarsýslu). Lætur eftir sig ekkju er heitir Sesselja Sveinsdóttir.
27. Pétur Árnason, til heimilis hjá syni sínum, Sigurði, bónda í Árnesbygð í Nýja-Íslandi, (ættaður úr Skagafirði. Flutti hingað vestur 1876 frá Ingveldarstöðum á Reykjaströnd), 78 ára.
28. Haraldur Sigurgeirsson (prests Jakobssonar á Grund í Eyjafirði), 41 árs.
29. Guðmundur Hannesson í Winnipeg, 95 ára.
30. Ingibjörg, kona Guðm. Dalsted við Svold, N.-Dak. Foreldrar hennar voru Hans Olsen (Norðmaður) og Gróa Eiríksdóttir (úr Mjóafirði), 23 ára.

OKTÓBER 1911:

3. Guðmundur Snjólfsson hjá syni sínum, Guðmundi, bónda við Narrows-pósthús í Man., 80 ára.
13. Sigurbjörg Jónsdóttir, ekkja eftir Halldór Jónsson (d. 1902 frá Litlabakka í Hróarstungu, 71 árs.
14. Skúli, sonur Magnúsar Guðlaugssonar í Winnipeg.
14. Magnús Sigurðsson í Geysisbygð í Nýja-Íslandi,(fluttist frá Reykjavík fyrir 8 árum), 46 ára.
17. María Kjartansdóttir, systir Bergþórs Kjartanssonar í Fort Rouge í Winnipeg, 73 ára.
19. Moritz Halldórsson, læknir í Park River, N.-D., 57 ára.
24. María Ólafsdóttir, kona Óla V. Ólafssonar í Winnipeg (fluttust þau hingað af Húsavík í Þingeyjars. 1885. Foreldrar hennar voru Ólafur Ólafsson og Rannveig Sveinbjarnardóttir er bjuggu á Hjalla í Reykjadal), 58 ára.

NÓVEMBER 1911:

1. Jón Austmann, bróðir Jakobs Eyfords í Pembina, N.-D., á tíræðis aldri.
2. Baldvín, sonur Guðna Stefánssonar og konu hans, Guðnýju Högnadóttur er búa í Árdalsbygð; 29 ára.
4. Ingibjörg, dóttir Magnúsar Guðlaugssonar í Winnipeg, gift enskum manni, Hunter; 28 ára.
4. Þorbjörg, kona Ögmundar Ögmundssonar í Winnipeg (bæði úr Hrunamannahrepp í Árnessýslu) 66 ára.
9. Mildríður Árnadóttir, kona Friðriks Bjarnasonar bónda við Wynyard, Sask. (ættuð af Vatnsnesi í Húnav.s.), 60 ára.
11. Jóhanna Jónsdóttir, ekkja Jóns heitins Sveinssonar á Þingvöllum í Geysisbygð, Nýja-Ísl., 55 ára.
13. Guðrún Guðmundsdóttir, kona Sigurðar J. Jóhannessonar skálds í Winnipeg, (frá Manaskál í Húnaþingi), 72 ára.
15. Jón Marínó, sonur Jóns M. Ólafssonar í Glenboro.
19. Sigursteinn Halldórsson, hjá syni sínum Albert á Selstöðum í Geysisbygð. Einn af frumbyggjum Nýja-Íslands, 70 ára.

Þorsteinn Oddsson í Norwood, sonur Vilhjálms Oddssonar á Bökkum í Vopnafirði. Fluttist hingað fyrir 25 árum.

23. Elízabet Pétursdóttir til heimilis hjá tengdasyni sínum Sigurði Jónssyni Reykfjörð við Mountain, N.-Dak., ekkja Þorfinns Jóhannessonar, d. 1900. Bæði ættuð úr Sagafjarðars. Hún var föðursystir síra Friðriks Friðrikssonar í Rvík.
26. Þorgerður Daníelsdóttir til helmilis hjá Sigurði Melsted, bónda við Gardar, N.-Dak., ekkja eftir Magnús Jónsson, d. á Íslandi. Hún var ættuð af Langanesi og gegndi þar ljósmóðurstörfum um langt skeið. 90 ára.

# INNIHALD:



# AGRIP

## af reglugjörð um heimilisréttarlönd Canada Norðvesturlandinu.

---

Sérhver manneskja, sem fjölskyldu hefir fyrir að sjá, og sérhver karlmaður, sem orðinn er 18 ára, hefir heimilisrétt til fjórðungs úr ,,section" af óteknu stjórnarlandi í Manitoba, Saskatchewan eða Alberta. Umsækjandinn verður sjálfur að koma á landskrifstofu stjórnarinnar eða undirskrifstofur í því héraði. Samkvæmt umboði og með sérstökum skilyrðum má faðir, móðir, sonur, dóttir, bróðir, eða systir umsæjanda, sækja um landið fyrir hans hönd á hvaða skrifstofu sem er.

Skyldur. — Sex mánaða ábúð á ári og ræktun á landinu í þrjú ár. Landnemi má þó búa á landi, innan 9 mílna frá heimilisréttarlandinu, og ekki er minna en 80 ekrur og er eignar og ábúðarjörð hans eða föður, móður, sonar, dóttur, bróður eða systur hans.

Í vissum héruðum hefir landneminn, sem fullnægt hefir landtöku skyldum sínum, forkaupsrétt (pre-emption) að sectionarfjórðungi áföstum við land sitt. Verð $3 ekran. Skyldur:—Verður að sitja 6 mánuði af ári á landi í 6 ár frá því er heimilisréttarlandið var tekið að þeim tíma meðtöldum er til þess þarf að ná eignarbréfi á heimilisréttarlandinu, og 50 ekrur verður að yrkja aukreitis.

Landtökumaður, sem hefir þegar notað heimilisrétt sinn og getur ekki náð forkaupsrétti (pre-emption) á landi, getur keypt heimilisréttarland í sérstökum héruðum. Verð $3 ekran. Skyldur: Verður að sitja 6 mánuði á landinu á ári í þrjú ár, rækta 50 ekrur og reisa hús $300.00 virði,

W. W. CORY,
Deputy of the Minister of the Interier.